Mag. Péturs Herslebs,

fordum Biskups yfir Sælandi,

# Sjö

# Prédikanir,

útaf þeim

## Sjo Lífsins Ordum á Daudastundunni.

A Íslendsku útlagdar og í styttra mál samandregnar

af

Pétri Þorsteinssyni,

fyrrum Sýslumanni í Nordur-Parti Múla-Sýslu.

II. Utgáfa.

Videyar Klaustri, 1838.

Prentadar á Forlag Sekret. O. M. Stephensens,

af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

Stórgøfugi Høfdíngi!

Herra

# Olafur Stephánsson

Kónglegrar Majestatis yfir Danmørk
og Norvegi, etc.

Amtmadur á Islandi.

# Gunstugi Velunnari!

Ad eg hérmed tek mér þá djørfúng, ad tilskrifa ydar Stórgøfugheitum þessar fáu línur, þar til eru hinar sérlegustu orsakir þessar:

Fyrst veit eg ad Gud og hans ord er í ydar húsi í svo stórum metum og vyrdíngu sem vera byrjar.

Þarnæst vil eg med ydar' ypparlega nafni tilleggja þessum bækling eina þá vegleguſtu prýdi, er eg hygg mér nú til boda standa af þesskonar innannlands gjædum; og

Í þridja lagi ad eg ei ómannlega úr hendi sleppi einu svo hentugu tækifæri til ad gjora heyrum kunna, mína allra makleguſtu vidurkénníngu fyrir ydar stóru velgjørdir; þá dyrfist eg ad bjóda ydur þennann bækling, sem ad sønnu er ein audvyrdileg gáfa, eptir ytra áliti, því hann er ei utan fáein pappírs ørk, þar á mót er hann meir enn gullvægur eptir innvortis áliti, þar hans innihald, þau sjø Jesú ord á krossinum eru ad álíta sem sú heila Biblía í einni litillri nyt, er hinn mikli Guds madur Biskup Hersleb (loflegrar minníngar) hefur fyrir øllum Guds orda elskendum svo ágiætlega opnad med harla andríkum og hjartnæmum prédikunarhætti; og er þad rétt fráleitt, ad aungvar af hans mørgu ypparlegu prédikunum, (er eg varla hygg ad eiga muni finn líka) hafa fyrr verid ad lesa í voru módur-

máli, hvar í, eg óska ad þessi mín fyrirtekt mætti vidkomendum nockra uppørfun gjøra.

Í tilliti til fyrrgreindra þriggja orsaka er ad endíngu mín ósk einnin þreføld.

Fyrst, ad miklu megi ætíd tilleggjast meira, hjá ydur og ydar í elsku Guds og hans orda, eptir því sem aldur og ár framar áfærast.

Þarnæst, ad ydar nafn, sem vid ydar prísverdugu landstjórnan í fá ár, svovel utanlands, sem innan, allareidu er gódfrægt ordid, megi til fødurlandsins, samt ydar og ydvarra æru og gagns med sama hætti vardveitast og eblast, til stærstu fullkomnunar.

Og endilega, ad eg og mínir, er þér (sem kunnugt er) øllum ødrum framar, þær stærstu velgjørdir audsýnt hafid, í vorum þýngstu mannraunum, kynnum þannveg ad skicka oss, ad þér findud oss aldrei óverduga ydar framhaldandi gunstar og velunnunar; med hvørri ósk eg er alltíd

Ydar Stórgøfugheita

Kétilstødum á Vøllum
þann 20 Sept. 1769.

audmjúkasti þénari
Pétur Þorsteinsson.

## Góðfúsum Lesara,

### hvørskonar heillir!

Fyrir mørgum árum þá þessar dýrmætu Prédikanir mér fyrst fyrir sjónir komu, og eg hafði þær yfirlesið, tók eg mér strax fyrir hendur að útleggja þær, og hefi síðan brúkað þær fyrir mitt hús, til lestrar á Føstunni. Nú voru þær í heilu líki mikils til oflángorðar, til þeirrar brúkunar, og hlaut eg því að færa þær saman, að øllum þriðjúngi, sem Lesarinn sjá kann, ef hann ber útleggínguna saman við þann danska Texta; aungvu að síður eru þær þó lengri enn þeir flestu helgidaga húslestrar sem hér á landi híngað til tíðkast hafa; eg hefi að sønnu með þessari útleggíngar aðferð hlotið að útilykja margt og mikið gott, einnin allvíða fylgt ei svó vel orðunum sem meiníngunni, en að því leiti, sem eg hérmeð hefi gjørt bókina til húslestra þénanlega og undanfellt það jafnan, sem helzt sýndist missast mega, en látið mér þar jafnframt umhugað vera, að ei yrði stór afbráttur á þeim helztu málsgreinanna atriðum, eður missmíði á þeirra samfeldni, svo þykist eg hérfyrir að minnsta kosti velvyrðíngar maklegur. Min ætlun í fyrstunni sem og

fram til nálægs tíma var (sem sagt er) ad brúka þess-
ar Prédikanir einasta fyrir mig og mitt hús medan á
þyrfti ad halda; nú med því þær vid greinda ydkun
hafa mørgum, hér umhverfis, kunnar ordid, sem ásamt
mér hafa dádst ad Prédikarans stóru yfirburdum, í þeirra
andlegu hluta, svo gégnum=þreyngjandi og lærdóms=rík-
um, sem skírum og fordildarlausum mælindis krapti, er
hrósar sér einkar vel svo vel í þessum, sem øllum ødr-
um hans Vígslu- og helgidaga-prédikunum, svo hefi eg
af nockrum Guds orda elskendum þar til áfýstur verid
ad láta þær á prent útgánga; hvad eg nú þessvegna
med gódra vina og náúnga adstod hefi á hendur tekist,
þá svo margir menn, er þetta handarvik var betur til-
trúandi, hafa látid mig og adra þess svo lengi forgéf-
ins af sér vænta. Gud láti þad verda sínu háleita
nafni til dýrdar, og sáluhjálplegra nota hans litla søfn-
udi hér á landi.





# Fyrsta Prédikun
út af
## Því fyrsta Kristí Ordi á Krossinum.

Lúc. 23. Kapítula. v. 34.

Og Jesús sagdi: Fadir! fyrirgéf þeim, því þeir vita eigi hvad þeir gjora.

## Inngángurinn.

Tími er til ad tala, og tími er til ad þegja, seigir hinn vísi Salómon Préd. 3. v. 7. Allir hlutir hafa sinn tíma. Þad væri mørgum stór lucka, ef þeir hefdu lært þá kunst rétt ad tala þá áliggur, og í annann stad ad þegja, þá svo tilhlýdir. Mikid gjæfutjón hafa margir þar af hlotid, ad þeir hafa þagad í ótíma, og eigi talad þá þeir þó hofdu efni og orsøk til ad tala; en þó hafa fleiri í ógjæfu ratad fyrir jafnvel eitt ord, sem

af þeirra munni í ógáti og af rásanda ráði hefur framkomið, sem þeir gjarnan hefðu viljað apturkaupa fyrir allt það þeir áttu; en — með því það var eigi mögulegt, kann þvílíkt orð að hafa gyllt þeirra æru og líkamlega velferð, já, jafnvel þeirra líf. Svo það kann að vera skaðlegur hlutur að þegja, þegar maður á að tala, og enn þá hættulegra að tala, þá maður skal þegja.

Vor Endurlausnari hefur vitað þann rétta tíma til að þegja og tala; af hans munni hefur aldrei eitt óþarft orð framkomið. Þar fyrir spáir Esaías svo um hann: Drottinn! Drottinn hefur gefið mér vellærða túngu, svo eg viti í réttann tíma að tala við þá sem mæddir eru, Es. 50. v. 4.

Í hans pínu var tími fyrir hann að þegja; hann var þá sem eitt lamb, er ekki upplýkur sínum munni þá því er slátrað, og svo sem sá sauður, er þegir, fyri þeim er hann klippir Es. 53. v. 10. Öll þau hörðu orð, allar þær bitru píslir, og öll þau smánarlegu bríxli, sem hann mátti líða, í sal þess ypparsta Kénnimanns og í Þínghúsi Pílati, hvar hann var áklagaður, spottaður, húðstrýktur og þyrnum krýndur; allt það spott, öll sú pína, og allar þær áreitíngar gátu ekki út'ockað eitt óþolinmæðis orð af hans munni; ecki eitt hótunar orð af hans túngu, og ecki eitt hefndar orð af hans vörum; hann formælti ecki í gégn þá honum var formælt; eigi ógnaði þá hann leið, en hann yfirgaf það hon-

um sem rétt dæmir. 1 Pet. 2. v 23. Eptir þad hann vid hinn fyrsta púslur í sal þess yppársta Prests hafdi med sínu allra hógværasta andsvari: hafi eg sagt rétt; hvar fyrir slær þú mig? advarad þá, ad þeir skyldu eigi forgrípa sig á sinni heilögu persónu, eptir þad, segi eg, máttu þeir hrækja í hans andlit; slá í hans høfud, þyrnum krýnd hann, húdstrýkja og gjøra honum svo mikid íllt sem þá lysti; hann vildi ecki framar tala, því þad var nú þeirra tími og makt myrkranna, og svóleidis auglýndi hann hérmed sína þøgn í réttann tíma; sá tími, þá allir adrir hefdu helst viljad tala, helst vitna þeirra sakleysi; helst klaga yfir þeim óretti sem vid þá væri framinn, og helst krefja Gud til hefnda yfir sínum óvinum; sá tími vár, segi eg, hans rétti tími ad þegja. En nú um sídir kom hans tíd til ad tala; nú er þeir høfdu gjørt allt þad íllt vid hann sem þeim var møgulegt; nú þá þeir voru búnir ad hengja og negla hann á krossinn, þá var komin tíd til ad tala, og þá taladi hann þau ord, sem aldrei kunni nógu opt ad talast, aldrei nógu vel ad útleggjast, og aldrei nógu gudrækilega ad yfirvegast; þá var þad tíd til ad tala. En hvad þá? hvers mundir þú nú hafa viljad vænta af hans munni? og hvad sýnist þér ad þú mundir talad hafa? skyldi hann nú, med því hann var kominn úr þeirra høndum, og þeir kunnu honum eigi framar íllt ad gjøra, skyldi hann nú, segi eg, hafa hefnt sín á þeim, kall-

ad þá fyrir Guds dóm, formælt þeirra vondsku, og brýrlad þeim um sitt ógudlegt athæfi? ó nei! vor Endurlausnari var eigi þannig skapi farinn; nú var sá tími kominn, ad hann taladi og bædi fyrir sínum óvinum, ad jørdin á sama auga-bragdi, uppléti ecki sinn munn ad svelgja þessa mordíngja, edur eldur félli nidur af himni til ad tortýna þeim, svo ad þad sem Salómon segir um eitt ord, talad í réttann tíma, þad megum vér med réttu segja um þad ord, sem Jesús taladi á sínum sídsta lífsins tíma, eitt ord talad í tíma er sem gull-epli í silfur-skál, Prov. 25. v. 11. Jesú ord eru øll svo sem gull-epli; Davíd segir um øll hans ord, ad þau séu kjærari enn mørg stycki gulls og silfurs. Ó! ad vor hjørtu væri þær hreinu silfur-skálir, í hvorjar þessi epli mátti leggjast og þar vardveitast.

Job sagdi fordum í sinni ángist: Ó! ad mitt mál edur ord mættu verda uppskrifud og setjast í bók med járnstíl; en um þessi sídustu Jesú ord má segja med miklu meira rétti: Ó! ad þau mætti verda skrifud, já skrifud í allra vor hjørtu med Guds fíngri, ad vér þeim aldrei gleymdum.

Pad sem Postulinn Pétur sagdi um øll Jesú ord, þad megum vér sérdeilis segja um þessi hans sídustu krossins ord: Herra! sagdi hann: til hvørs skulum vér fara? Pú hefir ord þess eilífa lífs, Jóh. 6. v. 68. Hann vildi segja: vissum vér ein-

hvørn, sem hefdi betri lærdóm, kroptugri ord, sálu-hjálplegri huggun og vissari veg til himinsins enn þú, þá vildum vér þig yfirgéfa, hvørt skulum vér fara? Seg ockur einn af mørgum, sem vér skyldum halda oss til. Skyldum vér forláta þig, þá lifandi uppsprettu, og gjøra oss adra brunna, sem eigi kunna vatni ad halda? Jer. 2. v. 10.

Spyrjum í sama máta sjálfa oss, mínir elsk-anlegir! hvørt edur til hvørs skulum vid nú fara á þessum Føstu-tíma? hvar skyldum vér heldur forlysta vorar sálir, edur vid stærri andakt og un-adsemd leita vorrar uppbyggíngar, enn í Jesú og hans ordi? þau Sjø Ord Jesús taladi á kross-inum, eru rétt lífsins ord, þau voru tølud á lífsins daudastundu, og af lífsins Hertoga sem deydi til þess ad gjøra oss lifandi. Þessi Sjø Ord eiga ad vera oss dýrmætari og kjærari enn øll ønnur Jesú ord, ei alleina þessvegna ad þau eru frammgeing-in af hans munni, í hvørjum eingin svik eru fund-in, og oss á ad vera kjærari enn allir adrir munn-ar, því þad kunnum vér ad seigja um øll ønnur hans ord, heldur þessvegna ad þau voru hans sídustu ord, og hans andláts ord; þau ord sem ein mann-eskja talar á sinni daudastundu plaga oss alltíd ad vera hugfastari enn hvør ønnur, eptir því vér vitum ad ein manneskja þá talar af rót hjartans, fyrir utan allt fals, hræsni, og yfirdrepskap, og þessvegna finnast vída í Skriftinni uppteiknud med

stórri gaumgjæfni, þau síðustu orð þeirra heilögu Guðs manna, svosem Mófsis, Jósúæ, Jacobs, Davíðs, Samúels, og fleiri; hér að auki svo plagar Guds andi að auglýsa sig hvað kroptugast í hjörtum Guðs barna á þeirra dauðastundu, rétt líka sem eitt ljós gefur frá sér skjærra geisla nær það útslocknar; þegar Guðs börn eru stødd líkasem milli tímans og eilífdarinnar, skýn opt þeirra trúarljós hvað skjærast, og gefur af sér, ei einasta með hugsvølun í hjartanu, heldur og með orðum munnsins næst fagra geisla; séu nú dauðlegra manna orð svo krøptug nær þeir deya, hvað munu þá sjálfs Guðs orð vera vigtug og krøptug, nær hann skal deya, það hafa svo mørg Guds børn reynt satt að vera, við að endurnæra sig með þeim á þeirra dauðastundu; já, þessi Sjø Jesú Orð meiga vel líkjast við þá sjø stólpa, Salómon seigir: að vísdómurinn hafi sett undir sitt hús. Prov. 9. v. 1. Þá Jósúa eptir Guðs befalníng hafði látið blása sjø sinnum í básúnurnar umhverfis Borgina Jeríchó, þá féllu niður hennar múrar. Þá Jesús hafði talað þessi sjø orð, hrundu og múrveggirnir nefnilega; løgmálsins bølvan og makt helvítis; jørðin skalf og titraði þar við, og hvað skal eg framar segja? øll þessi orð eru lífsins orð. Sá gamli Jacob lét undir sitt andlát kalla øll sín børn til sín, og sagði: komið tilsamans, þér Jacobs børn! og heyrið yðar føður Israel. Gen. 49. v. 1. 2. Hér hángir nú á krossin=

um ecki einasta ydar Fadir, heldur eilífdarinnar Fadir, komid tilsamans, þér Guds børn! og heyrid hvad þessi ydar Fadir, Frelsari og Gud vill segja, viljum vér ad hann heyri oss í vorri neyd, á vorri daudastundu, svo látum oss nú heyra hans síđustu lifsins ord. Jotham sagdi fordum; heyrid mig, þér menn í Sichem, ad Gud heyri ydur aptur Júd. 9. v. 7. Mér vyrdist nú sem Jesús í sinni sálar ángist vilji hrópa til vor og segja: heyrid mig allir sem búid í Síón, heyrid mín síđustu ord, svo ad eg heyri ydur aptur. Heyrid mín ord sem eg tala á krossinum, ad Gud vilji heyra ydar ord nær þér standid undir krossinum. O! eg bid, látid hans hjartans ángist og margfalda qvøl hræra ydar hjørtu til ad heyra þessi hans síđustu ord! Jesús hefur svo stóra laungun ad heyra vora raust, vorra bæna og þacklætis raust; sýn mér þína ásýnd, seigir hann til sinnar brúdar, og lát mig heyra þína raust, því þín raust er sæt. Cant. 2. 14. O! sýn mér og, minn blódbrúdgumi! þína blódugu ásýnd, því þín raust er sæt, og gledur mína sálu; og hvørsu gledilegt er ecki hans fyrsta ord fyrir alla synduga: **Fadir! fyrirgéf þeim, því þeir vita ecki hvad þeir gjora.** Hvar í vér nú yfirvega viljum:

**1) Hversu kjærlega hann bidur fyrir þeim.**

**2) Hversu nádarsamlega hann þá afsakar.**

Drottinn, hjálpa þú! Drottinn, lát þú þad vel luckast! Amen.

## Utleggíngin.

Pad hefur víst verid næsta vegsamlegt tilsýndar í gamla Testamentinu, þegar sá ypparsti Prestur Aron, skyldi fyrir Drottinn inngánga í þad Allrahelgasta ad forlíka folksins syndir einu sinni á ári; (optar leyfdist honum ecki þar inn ad koma). Hann var skrýddur sínum dýrmæta búnadi, og nedanum faldinn á kirtlinum voru bjøllur og granata epli, ad menn mættu heyra hljominn þaraf þegar hann geingi út og inn, bædi med reykelsis-kér til upplyptíngar í nádarstólnum og med blód til ádreifíngar fyrir nádarstólnum; nú hefur Postulinn Páll svo vída vottad, ad þess Nýa Testamentis ypparsti Prestur sé Kristur, og ad þess ypparsta Prests inngángur inn fyrir fortjaldid, í þad Allrahelgasta, hafi fyrirmindad Kristí dauda, hefur hann útþryckilega sagt oss í Pistlinum til Ebr. 9. v. 11. 12. Kristur er kominn þad hann sé Biskup eptirkomandi audæfa, og inngéck einusinni í þad heilaga, ecki med hafra og kálfa blód, heldur med sitt eigid blód, og fann eilífa endurlausn. Bjøllurnar á Arons klædum nær hann géck inní helgidóminn, géfandi hljóm frá sér svo allir heyrdu, sýnast mér vel svara til þeirra sjø orda sem Jesús taladi á krossinum, sem eru þær í vorum eyrum, svo fagurt klíngjandi bjøllur og yndislegur hljóm-

ur; og svosem Aron ecki einasta inngéck med blód, til ad forlíka fyrir fólksins syndir, heldur og med reykélsis kérid, og vér vitum ad fyrir reykélsid á ad skiljast bœnin, sem þessvegna kallast reykélsis offur fyrir Drottni, svo sjáum vér í dag vorn ypparsta Prest og einasta Endurlausnara, ad hann nú fyrir daudann á krossinum er fyrir Gud inngeinginn, ecki alleinasta med blód, sitt eigid blód, í stadin fyrir kálfa og hafra blód, heldur og med reykélsis kérid til ad bidja fyrir fólksins syndir; í dag í því fyrsta ordi hann taladi á krossinum sjáum vér vorn Aron med sitt reykélsis kér, standa fyrir 'nádarstólnum, og bidja þannveg fyrir øllum og til allra eilífrar blessunar: Fadir! fyrirgéf þeim, því þeir vita ei hvad þeir gjøra; í dag sjáum vér hann líka sem Aron fordum í gamla Testamentinu, standandi med reykélsi í millum þeirra lifendu og daudu, svo plágunni mætti linna, Num. 16. v. 48. ad ecki Guds brennandi reidi yfir þessu ógudlega fólks ógudlegu athæfi og dœmalausum misgjørníngi, ad aflífa Guds eiginn Son, ad ecki, segi eg, Guds reidi skyldi verda svo brád yfir því, sem fordum yfir Chore, Dathan og Abyram. Vor ypparsti Kénnimadur geingur nú í dag millum Guds og þeirra, millum þeirra daudu og lifendu, hann stendur hér milli himins og jardar, milli Guds og manna, til ad stilla reidina, og afvenda straffinu fyrir sitt blód, sem nú útflaut af hans allraheilagasta líkama,

og með sínni fyrirbón sem hann nú gjörði með sínum blessuðu vörum: Faðir! fyrirgéf þeim, því þeir vita ei hvað þeir gjöra. Þetta fyrsta lífsins orð á dauðastundunni höfum vér nú ásett oss að athuga, og yfirvega þar af;

1) Hversu hann biður fyrir þeim, og
2) Hversu hann þá afsakar.

Hvað því fyrra viðvíkur, þá koma mér fyrst í hug Páls orð, og sje eg það er satt sem hann hefur sagt; að Kristi blóð tali betur enn Abels blóð. Abels saklausa blóð hrópaði hefnd yfir Cain, svo að sjálfur Guð sagði til hans: hvað hefur þú gjört? raustin þíns bróðurs blóðs hrópar til mín af jörðunni; bølvaður sértu á jörðunni, sem upplauk sínum munni, og tók þíns bróðurs blóð af þinni hendi. Gen. 4. v. 10. 11; þannin talaði nú Abels blóð, en Jesú blóð talar betur, það hrópar ecki hefnd heldur náð: Faðir! fyrirgéf þeim; blóð annara, er saklausir drepnir eru, hrópar og lætur ei af að hrópa í himininn, þar til þess verður hefnt. Jóhannes sá undir Altarinu sálir þeirra líflátnu og að þeir kølluðu hárri røddu: Drottinn, þú hinn heilagi! hversu leingi hefnir þú ecki vors blóðs. Opinber. 6. v. 9. 10; þannin gjørir ei Jesú blóð, það hrópar og lætur ei af að hrópa fyrr enn Guð sleppir hefndinni. Allar hans blóðæðar voru nú opnaðar, hans hendur og fætur ígégnumboraðar,

hans blód rann og streymdi nidur af krossinum, en hvad seigir þá hans blód? hvad talar þad? þad fyrsta ord sem hans blód talar var þetta: Fadir, fyrirgef þeim! ó! eina grunnlausa miskun og furdanlega stóra hógværd; fyrr enn hann þeinkir til sjálfs síns, ad befala sína sál Gudi á hendur, fyrr enn hann þeinkir til sinna vina sem stódu sorgbitnir undir krossinum, já fyrr enn hann þeinkir og talar um nockurn annann hlut, þeinkir hann allrafyrst til sinna óvina, ad hann fái þá fridþægt og bedid þeim nádar, þad lá honum helst á hjarta, þad var og sá hlutur sem eingannveiginn mátti undandragast, því þad var ad óttast, ad Gud ecki leingur kynni þola ad horfa uppá slíkt ógudlegt athæfi. Nú þá þeir hofdu fullgjört syndina, var þad ad hrædast, Gud vildi fullgjöra straffid. Nú yfirstód sem hædst pína vors Endurlausnara, og daudinn tók meir og meir ad nálægjast, í hvörju ásigkomulagi manneskjan plagar ad gleyma øllu ødru, og þeinkja mest uppá sjálfa sig, hún gleymir jafnvel sínum bestu vinum, þeckir þá varla, já má ei, þó vildi, vid þá tala fyrir sótt og verkjum; Jesús þar á móti, á sinni daudastundu hugsar ei alleina til sinna vina, heldur sinna óvina, hann hugsar til þeirra, ecki til ills, sem Davíd á sinni sóttarsæng þeinkti til síns óvinar Simei, hann minntist þess vonda hann hafdi gjört honum, og þad eingannveiginn til góda, því hann baud sínum syni Salómon, ad láta ei Simei koma med fridi í grøf-

ina. 1. Kóng. b. 2. v. 8. 9. Jesús þar á móti
þeinkti uppá sína óvini þeim til góda, honum var þad
ei nóg, ad hann sjálfur fyrirgjæsi þeim af hjarta
þeirra stóra glæp, heldur bar hann einkanlega um-
sorgun fyrir því, ad hans himneski Fadir þeim vildi
ogsvo forláta og fyrirgéfa. Fadir! fyrirgéf þeim,
segir hann; hann var ei svo sinnadur sem marg-
ar manneskjur eru; þeir kunna ad komast svo lángt,
ad þeir ei vilja hefna sín sjálfir, og segjast ad sönnu
vilja forláta, en Gud skuli betala, segjast ei vilja
hefna, en Gud skuli hefna; þvílíkter ein syndsamleg
hræsni og yfirdrepskapur, og ei breytti vor Endur-
lausnari þannig, hann bædi fyrirgaf þeim sjálfur og
bad sinn Födur ad fyrirgéfa; hefdi ei þessi hans
fyrirbón og árnadarord komid í veginn, hverju mundi
þad geingid hafa hans mordíngjum? Sú yfir þeirra
höfdum formirkvada só! var eitt víst merki til þess,
ad Guds reidi-ský tók saman ad draga, ad bjorgin
rifnudu, grafirnar lukust upp, og jördin skalf, hvad
var þad annad enn eitt augljóst teikn, Guds brenn-
andi reidi, sýnandi jafnframt hvílík laun þeir höfdu
forþént, og hvörsu ein nálæg brád hefud og ógnar-
legt straff þeim var búid; en — því lætur Gud þad ei
framkoma, hvar er nú allt hans stránga réttlæti, sem
hann svo opt plagar ad sýna? og hvar er nú hans
stóra vandlætíng? æ nei, eg kann ecki, vill hann
segja, eg má einasta láta mér linda, ad sýna hvad
eg kann med réttu gjora, nær kann eg ei ad komast,

míns Sonar blóð það hrópar, og hans bæn helduk mér aptur, hefði hann ei svo innilega beðið, ó! hvörsu skyldi eg ei hafa við yður höndlað? Svo er þá þessi Jesú fyrirbón ein sannarleg kóróna allra hans dygða og furðanlegrar hágværdar; af hans blessaða munni féll ei eitt óþolinmæðis enn síður reiði-orð; hann formælir ei í sinni qvøl og ángist sínum fæðíngardegi, eins og gjørði sá óþolinmóði Job; nei, hann þegir leingi, nær hann loksins talar, heitir það: Faðir! fyrirgef; hann hafði nú svo leingi geingið umkríng, gjört öllum gott, eingum íllt, en hans fætur og hendur, sem hann hafði þartil brúkað, vóru nú bundnar, og með járnnöglum við krossinn festar; túngan var einasta laus og liðug, með henni vildi hann gjøra gott, þar hann gat það ei með ødru, með henni huggaði hann sína Móður, með henni hughreysti hann ræníngjann, og með henni bað hann fyrir sínum óvinum; ó! einn óransakanlegann miskunsemdanna afgrunn! Þeir særðu hann, hann vildi lækna þá, þeir aflífuðu hann, hann vildi gjøra þá lifandi, þeir hötuðu hann, hann elskaði þá, þeir gjørðu honum það versta þeir kunnu, hann bað fyrir þeim, það besta hann kunni; þeir vildu ei burtgánga fyrr enn hann væri dauður, og hann vildi ei deya fyrr enn hann hafði friðþægt þá við Guð! Hann segir allrafyrst: Faðir! Þetta orð. Faðir, var það fyrsta orð hann nefndi á krossinum, það var og

það síðasta með hvörju hann endaði sitt líf á krossinum: **Faðir! í þínar hendur fel eg minn Anda;** í því fjórða orði, hvar Jesús talar um sig sjálfann og sína þínu; þá kallar hann ecki Guð sinn Föður, heldur sinn Guð. **Minn Guð! minn Guð! því hefur þú yfirgefið mig!** En þá hann talar og biður fyrir sínum óvinum, þá brúkar hann það orð, **Faðir!** að hann því náqvæmara mætti hræra Guðs hjarta. **Faðir! fyrirgéf þeim!** Hann vildi segja: eg hefi eina bæn til þín, kjæri Faðir! aður enn eg dey; einni deyandi manneskju plaga menn ei að synja sinnar bænar, svo vona eg að þú synjir mér ei minnar; nei, **Faðir! þú hefir ætíð heyrt mína bæn.** Jóh. 11. v. 42. Minnst þess að þú ert minn Faðir; æ **Faðir! fyrirgéf þeim;** Séu þeir sökum síns ógudlegs athæfis þínir óvinir, þá ertu þó minn Faðir, lát þitt föður-nafn, lát mitt sonar-nafn gánga þér til hjarta, að þú sýnir náð og miskun þessum mínum qvölurum; það er að sönnu satt, eg hefi liðið þessi sár af þeim og það er þeirra synd, en álít það ogsvo, að eg hef feingið þau þeirra vegna og fyrir þeirra skuld, lát þau þarfyrir vera þeirra friðþæging! það sýnist rétt sem Jesús hafi geymt sér þessa bæn þar til hann hafði feingið öll sín sár, og að þau nú öll voru opin, ný og drjúpandi, þá fór hann að biðja, og það ei með mörgum orðum, því nú skyldu hans

sár tala meir og framar enn hans orð, hann sætti þeim allra hentugasta tíma hér til, nú þá hans sár báðu og töludu undir eins; hann bað og svo án alls fororðs; en þá hann bað fyrir sjálfann sig, bað hann með fororði: **Faðir! ef þú vilt, þá tak þennann kalcik frá mér, þó ecki minn, heldur verdi þinn vilji;** hann segir ecki: Faðir! ef þú vilt, svo kanntu að fyrirgéfa þeim, heldur, **Faðir! fyrirgéf þeim.** Svo elskurikt sem nú þetta orðið hans er: **Faðir,** svó náðarfullt er það orð: **fyrirgéf.** Þeir hrópuðu yfir honum, **krossfestu! krossfestu hann!** hann hrópar yfir þeim, **fyrirgéf! fyrirgéf þeim!** Þeir færdu hann fyrir einn ránglátan dómara og áklögudu hann falsklega, hann þar á móti færir þá fram fyrir einn náðugann Föður, og biður fyrir þá innilega, hvör hefur heyrt þvílíka elsku og kjærleika? Öllu því illa sem þeir höfðu forþént, allri þeirri ólucku, sem yfir þeim héck, og öllu því straffi sem þeir sjálfir óskudu sér, vildi hann einn afvenda, þeirra hendur náðu nú ei leingur til að slá hann, edur þeirra munnur til að hrækja á hann, þeir gjörðu samt hvað þeir gátu, þeir skóku höfudin yfir hónum, þeir gnístu saman tönnunum af grimd, ji, þeir leitudu lags að storka hann upp með sínum háðyrdum; Svei! hvörsu ágjætlega niðurbrítur þú Musterið. Ef hann er Guðs Sonur, hjálpi hann sjálfum sér; bíðum við, látum sjá, hvört **Elías** kémur að

taka hann ofan. Í øllu þessu þá þeir enn nú gjørdu honum allt það íllt þeir gátu, bad Jesús fyrir þeim: Fadir! fyrirgéf þeim; betur gat hann ei fyrir þeim bedid, fyrirgéfníngin er það allrastærsta og besta Gud kann ad audsýna einum syndara, hún er sú allrastærsta sæla madur kann sér ad æskja; þar fyrir segir Davíd Psálm. 32. v. 1. Sæll er sá madur hvørs syndir eru fyrirgéfnar. Um annad betra gétur ei manneskjan bedid Gud og annad betra kann hann henni ecki ad veita, enn fyrirgéfníng syndanna; sá kraptur sem er í Jesú dauda og pínu, hana ad afreka, skyldi sig nú allrafyrst auglýsa á þessum stóru syndurum, fyrir hvørjum hann nú svo innilega fyrirgéfníngar bidur hjá sínum hjartkjæra Fødur. En hvør er þá sú rétta meiníng í þessari Jesú bæn? Þeir fóru framm í forherdíngu, en mun hann hafa viljad, ad Gud skyldi strax útslétta þeirra synd? Vildi hann ad Gud skyldi fyrirgéfa þeim sinn misverknad, enn þó þeir hann ei þeckja né medkénna vildu? það sé lángt frá! Jesús kunni ecki ad bidja um það sem aldeilis var gagnstædt Guds heilaga vilja og veg sáluhjálparinnar. Gud fyrirgéfur aungvum manni hans vitanlegar syndir án ydrunar og yfir=bótar; Jóhannes segir: Ef nockur sier sinn bródir syndgast einhvørri synd, eigi til dauda, sá má bidja, og mun hann géfa þeim lífid, er syndgadi ecki til dauda. Þar er synd til dauda, eg segi

ecki, ad nockur fyrir henni bidji, 1 Jóh. 5. v. 16. Í þessum ordum sýnist mér Póstulinn gjöri greinármun á breiskleikans syndum, sem Gud tilreiknar ecki þeim trúudu, og daudlegum syndum; fyrir hvörjar gjörast hlýtur ein stærri ydran, ádur enn þær fyrirgéfnar vérda; en — sýnist þad ad vera nóckud hart, ad madur meigi ei bidja fyrir þeim er drýgja daudlegar syndir, svo látum oss athuga um hvörja bæn Jóhannis hér talar; hann talar um vissu mannsins uppá bænheyrsluna, þarfyrir segir hann: ef vér bidjum nockurs eptir Guds vilja, þá heyrir hann oss, og vér hösum þær bænir, hvörjar vér höfum bedid af honum. 1. Jóh. 5. v. 14. 15. Þarfyrir ef vor bródir fremur eina synd, eigi til dauda, heldur af breiskleika, af vanvitsku edur óvitandi og vér bidjum fyrir honum, ad Gud vilji fyrirgéfa honum, og ei tilreikna þá sömu synd, svo höfum vér vora bæn, Gud fyrirgéfur þeirri manneskju sína synd fyrir sakir vorrar trúadrar bænar, þó aldrei viti sú manneskja þar af, ad hún hafi syndgad, og þessvegna kunni ei sína synd sjálf ad afbidja. En drýgi nockur synd til daudans, edur vitanlega synd, fyrir þeim segi eg ecki ad þér skulud bjdja, segir Jóhannis, þad er ad skilja, ecki svoleidis sem fyrir hinum ödrum, ecki ad Gud skuli ogsvo fyrirgéfa honum hans synd án ydrunar og yfir-bótar; því þad er ad bidja móti Guds vilja, þad er ad bidja ei á þann hátt, ad vér

kunnum vera vissir um bænheyrsluna, en því neitar hann ei, ad vér meigum bidja Gud ad géfa þvílíkum nád til umvendunar; hér af kunnum vér þá ad skilja, hvør ad sé sú rétta meiníng í þessari bæn vors Endurlausnara, ecki ad Gud skyldi fyrirgéfa þeim þessa synd, sem var vissulega til dauda, hvørt sem þeir gjørdu ydrun edur ecki, heldur bidur hann í fyrstu, Gud vildi géfa þeim tíma til yfirbótar, hann bidur Gud ad láta ei sinn strángá réttlætis dóm strax yfir þá gánga, ad hann nú ei í sinni brædi vilji þá uppræta, sem þeir forþénad høfdu, midt í þeirra syndum, ádur enn þeir feingi stund og tíma til umvendunar; ad þetta sé meiníngin í þessari hans bæn, þad hefur hann oss sjá fur kénnt í eptirlíkíngunni um Víngards-manninn, sem strax vildi upphøggva þad ávaxtar-lausa tré. *Æ! nei, Herra! lát þad enn nú standa eitt ár, ef ad þad vildi svo ávøxt færa.* Lúc. 13. v. 8. Og ad vísu var þessi Jesú fyrirbón, orsøk til þess, ad Gud þar eptir í heil 40 ár beid med straffid, ádur enn hann lét sína réttvísa hegníng gánga yfir Jerúsalem og hennar innbyggjara. Þarnæst vildi Jesús ei einasta afreka þeim tíma til umvendunar, ad Gud ei í reidi vildi snúa frá þeim sinni ásjónu, ecki enn nú sinn anda, sitt ord og medøl sáluhjalparinnar frá þeim taka, heldur ennnú nockur ár, nockurn tíma tilbjóda þeim nádina, og þessvegna høfdu Postularnir befalníng eptir Kristí dauda, ad boda Evangelíum fyrst

Gydíngum, hvar vid mørg þúsund af þeim leiddust til umvendunar, hvørja nád þeir ødludust alleina fyrir þessa Jesú ánan og fyrirbón. Ad sídustu vildi Jesús med þessari sinni fyrirbón afreka þeim ei einasta tíma, ei einasta nád til umvendúnar, heldur og sjálfa fyrirgéfníngúna, med þeirri ordu og atridi, ad svo margir sem sér snérü og brúka vildu þann ydrunar tíma, er þeir fyrir þéssa Jesú bæn ødlast høfdu, til velferdar þeirrá sálum, svo margir af þeim skyldu vissulega verda sáluhólpnir; med einu ordi: Jesús bad þessi þeirra hrædilega og vidurstiggilega synd, hvørrar líki aldrei skéd, ellegar heyrst hefur, ei mætti hindrá edur frá þeim taká þá nád og nádarmedøl sem Gud annars plagar ad unna ødrum syndurum, jafnvel þó þeirra afbrot og yfirtrodsla væri lángtum stærri enn annara; hann bidur ad ei álítist hátign persónunnar á hvørri þeir hefdu sig forgripid, ad þad mætti þó ei framar reiknast þeim til enn þó þeir hefdu gjørt þad vid annann ótignari, því hér ad lúta þau ord er hann segir: **Þeir vita eigi hvad þeir gjøra**, þad er: þeir vita ei rétt, hvad og hvør eg er; ad Gud vildi ei vid þá høndla, svosem þá er hans eiginn Són høfdu aflífad, heldur sem þá er høfdu myrdt einhvørja adra saklausa manneskju, hvørjum stórbrota manneskjum Gud enn nú á þessum døgum plagar ad tilbjóda sína nád, og géfa tíma til ydrunar.

Vér høfum svo yfirvegad, hvad elskuríkt ad

sé þad fyrsta ord í þessari hans bæn: **Fadir!** og hvad nádarríkt þad annad ordid er: **fyrirgéf;** hann bidur: **fyrirgéf þeim.** Vér viljum þá hér næst athuga, hvad vídt þetta ord **þeim,** nær, og til hvorra Jesús muni þad tal'ad hafa; víst og ófan-legt er þad, ad hann hefur þarmed meint alla þá er hann krossfestu, alla þá sem hann hæddu, alla sem hrópudu: **krossfestu! krossfestu!** falsvottana sem báru falsvitni á móti honum, **Pílatum** sem for-dæmdi hann, Höfudprestana sem vóru upphaf og orsök til alls þessa, med einu ordi, alla þá sem í hugsunum, ordum og verkum höfdu á einhvörn hátt auglýst sig ad vera hans óvinir, þeir allir eru inni-faldir í þessari bæn: **Fadir fyrirgéf þeim;** hann segir ei: **fyrirgéf** mínum óvinum, ó! nei, þar var öldúngis enginn óvinskapur í hans hjarta, svosem þeirra. **Fadir fyrirgéf þeim!** hann kunni ei ad kalla edur halda þá fyrir óvini, fyrir hvörja, hann vildi nú deya og fyrir hvörja hann nú var ad frambjóda sitt blód til forlíkunar.

En — mun nú þessi Jesú fyrirbón ei ogsvo heyra oss til? Hösum vér ekkért hjálpad til hans dauda, svo heyrir hún heldur oss ecki til, en med því þad er víst og ómótmælanlegt, ad vér allir hefum verid orsök í hans dauda, svo eigum vér allir hlut í þessari hans fyrirbón, því hann segir ecki, fyrirgéf þess-um sem eru hér tilstadar, þessum sem í dag hafa svo ílla breytt og höndlad ímót mér, heldur fyrirgéf þeim

ollum sem hafa hlutdeild í þessum mínum dauda. Nú, minn vin! høfum vid þá ei verid orsøk í þessum hans dauda? Er ecki hvør synd vid drýgt høfum einn nagli í hans krossi, þyrnir í hans kórónu, ein svipa á hans hrigg? Gydíngarnir løgdu ad sønnu hendur á Jesúm, en hefdu ei vorar syndir ásamt þeirra, já allrar veraldarinnar syndir þad gjørt, ad hann vildi deya, og hefdi Gud ei álycktad ad þad mætti ské, svo hefdu þeir ei mátt snerta eitt hár á hans høfdi; þar fyrir svo margir sem eru syndarar, svo margir eru sekir í þessum hans dauda, og þessvegna í þessari hans fyrirbónarnád inniluktir, hann hefur fórnfært sjálfum sér fyrir alla, segir Páls Ebr. 2. v. 9. En fyrir svo marga hefur hann bedid, þad er fyrir alla menn sem frá Adam lifad hafa, og héreptir til þess sídasta dags lifa munu. Not þessarar hans fyrirbónar ná vissulega til allra, sem þeim þar med afrekadri nád ei sjálfir þverúdarsamlega mótþægja og hafna. Hér ad auk svo hefur Jesús med þessum sínum bænar ordum: Fadir! fyrirgef þeim, Skriftina uppfyllt, sjálfur sem sá ypparsti Prestur med blód inngeingid, og bedid fyrir fólksins syndir, hann hefur offrad bænum med sterku kalli og tárafollum, Ebr. 5. v. 2—10. med spillvirkjum er hann reiknadur, hefur borid margar syndir, og bedid fyrir yfirtrodslumønnum, Esa. 53. v. 15. og þetta er nú svovídt Jesú fyrirbón áhrærir.

Í annann stað viljum vér og yfirvega, hvörsu hann ei einasta biður fyrir þeim, heldur og leitast við að afsaka þá. Hann segir: **fyrirgéf þeim, því þeir vita ei hvað þeir gjöra.** Sá sem biður fyrir annann, plagar einasta að framfæra allt hvað helst hann veit og gétur þeim seka til afbötunar, en um sjálfann misverknaðinn þegir hann, og sama gjörir hér Jesús, þeir höfðu litlu áður hrópað, hans blóð komi yfir oss og börn vor, en Jesús hrópar á móti: **þeir vita ei hvað þeir gjöra;** hann vill segja: æ, Faðir! agta ei hvað þeir segja, þeir eru rasandi og frá sér numdir, þeir vita lítið hvað þeir segja, og skilja ei hvörs þeir óska. **Faðir! fyrirgéf þeim, því þeir vita ei hvað þeir gjöra.** En hér mætir oss þrennt sem vér viljum aðgjæta 1) hvört það kunni að afsaka þeirra synd að þeir ei vitað hafa, hvað þeir gjörðu? 2) hvört þeir það ei vissu? og 3) hvört þessi afsökun og bæn kom þeim til nockurs gagns og nytsemdar.

Hvað því fyrsta viðvíkur hvort þeirra þeckíngarleysi kunni þá aldeilis afsaka? hvört þeirra fávitska kunni að afreka þeim nockra fyrirgéfníng? og hvört Guð var skyldugur að fyrirgéfa þeim þessvegna, að þeir ei betur vissu, sem svo af Kristí orðum sýnist ráða meiga: **Faðir! fyrirgéf þeim, því þeir vita ei hvað þeir gjöra.** Hann leggur það sem eina orsök til, hvarfyrir þeim skyldi

fyrirgéfast, þá er það víst, að þeirra þeckíngarleysi ecki kunni afsaka þá, því þeir bædi máttu og áttu að vita þá sök betur, og sannarlega vissu þeir það, að þeir gjörðu órétt, það var þeim svo opt sagt, hvor Jesús var, hann segir sjálfur: hefdi eg ecki sagt þeim það, svo hefdu þeir engva synd, en nú hafa þeir ecki það þeir afsaki synd sina með. Jóh. 15. v. 22. Þarfyrir brúkar Jesús þetta ord, ecki svo sem eina orsök fyrir hvorja þeir hefdu fyrirgéfníng verdskuldað, heldur miklu framar sem eina hrærandi orsök til meðaumkunar hjá Gudi, að þeir ecki vissu sjálfir, hvað stór þeirra synd og ólucka væri. Þessi þeirra vanvitska var framar orsök til að Jesús vildi bidja fyrir þeim, enn til þess, að Gud skyldi fyrirgéfa þeim. Hann afsakar hér með framar sína bæn enn þeirra synd. Hann vill segja: þó þessi þeirra drýgda synd sé nú svo stór og mikil sem hún er, þá samt máttu ei misvyrda það fyrir mér, hjartkjæri Fadir! að eg bid fyrir þeim, þeirra mikla ógjæfa knýr mig þar til, því þeir vita þó ei sjálfir, hvað þeir gjöra, hvorsu íllt það er, sem þeir nú adhafast.

Hvað því ödru viðvíkur: hvört þeir vissu það ecki? hvorsu Jesús hafi mátt með sönnu segja, að þeir ei vissu hvað þeir gjördu? vissu ei Höfudprestarnir af, að hann var saklaus? höfdu þeir gleymt sínum kaupskap vid hans svikara, og að þeir sjálfir höfdu framleidt falsvotta á móti honum? vissu þeir

ei í þeirra samvitskum, að allt það þeir ákjærðu hann fyrir var lýgi? hvernin kunnu þeir þá að afsakast með vanvitsku? meðkénndi ecki sjálfur Pílatus, að hann var saklaus? vissu ecki Stríðsmennirnir að þeir píndu Jesúm meir og framar enn þeim var befalað? vissu þeir ei að það var órétt að gjöra einum sakamanni meir íllt, enn sem hans dómur hljóðar? og hvar fundu þeir það í Jesú dómi, að þeir skyldu spotta hann, hrækja á hann, géfa honum pústra, þyrnum krýna hann? svo hvørt sem menn líta, þá má augljóslega sjá og finna hjá þeim hatursfullann ásetníng meir enn fávitsku? en hvar fyrir munu þeir þá af Kristó svoleiðis vera afsakaðir? Hértil kunnum vér svara, að þeir bæði hafa það vitað, og ecki vitað, þar var engin af þeim sem ecki vissi, að Jesú skédi órétt, að þeir gjørðu synd; en það vissu þeir ei, hvørsu stór sá óréttur og sú synd var, þeir vissu hann var saklaus maður, en að hann væri allsvaldandi Guð, vissu þeir ecki, og svo sem hér voru aðskiljanlegar Persónur, aðskiljanlegar stéttir og fólk tilsamanskomið, Gyðíngar og Heiðíngar, andlegrar og veraldlegrar stéttar, yfirboðnir og undirgéfnir, svo var og þeirra fávitska aðskiljanleg, hjá sumum meiri, sumum minni, en eptir stærð þeckíngarinnar fer stærð syndarinnar. Stríðsmennirnir sem hann krossfestu hafa að líkindum verið ófróðastir í þessu, og haft þessvegna þá minnstu synd, þeir voru heiðíngjar, og Rómverskt stríðsfólk

sem lítid edur eckért hafa vitad ad segja um Jesúm edur Messíam, partil máttu þeir gjøra sem þeim var befalad, þeir hafa af dómnum álycktad, hann mætti þó víst vera sekur, jafnvel þó þeir af kríngumstædunum merka mættu, ad hann væri af hatri ofurseldur, þeir sáu ad sönnu hvorninn þad géck til, en þeir þeinktu þad væri ei þeirra søk, þeir mættu þad ábyrgjast sem hann dæmt hefdu, hann mætti þó ei vera aldeilis saklaus; þeir hafa af øllum síst vitad, hvad þeir gjørdu, hvarfyrir Jesús og í sínni bæn hefur sérdeilis til þeirra meint og fyrir þeim bedid. Þarnæst var og sú veraldlega stéttin orsøk í Jesú dauda, sá mikli skari Gydínga sem med sínu hrópi bádu honum dauda, og med svoddan grimd skóku sín høfud yfir honum, en hjá þeim finnst og svo fávitska, þeir voru tældir og lockadir hér til af þeim ædstu Prestum, þeir þeinktu, ad kénnimønnunum væri tiltrúandi um þau réttu trúarbrøgd, þegar þeir héldu Jesúm ad vera villumann, svo mætti hann og svo vera þad, þeir hafa víst meint ad hans lærdómur væri falskur, og í móti Løgmálinu, þókti þeim því ad þeir mættu vel til þess stilla, ad hann yrdi aflífadur; Í þessari veraldlegu stétt átti Pílatus einkanlega heima, hjá honum var ei ad sjá svo stór fávitska, hann hafdi sjálfur ransakad málid, og fann engva daudasøk med Jesú, hann vissi sjálfur, svo sem þar stendur, ad þeir ædstu Prestar høfdu af hatri ofurselt hann, þó var þar ogsvo

hjá honum að finna fávitsku, hann hefur mátt þeinkja, að Jesús væri þó ei með øllu saklaus, eptir því allir líkt sem með einum munni áløgðu hann. Í málinu framkomu og nockrir póstar sem sýnduſt hættulegir, hvørjum Jesús ecki vildi neita, nefnilega: að hann hefði gjørt sig sjálfann að Kóngi, sagt sig að vera Guðs Son; hvað allt Pilatus eptir sínum heiðínglegum skilníngi hefur metið að vera stórar sakir, svo þar í margann máta má finnast hjá honum vanvitska, og þessvegna segir Jesús: fyrir því hefur sá meiri synd, er mig ofurseldi þér, Jóh. 19. v. 11. Það torveldasta spursmál sýnist að vera um þá andlegu stéttina, þá yppurstu Presta, Phariſæos og Skriftlærða, hvørt það kunni einnin um þá að segjast, að þeir ei vissu hvað þeir gjørðu; þeir vissu sjálfir, að þeir einasta af hatri ofsóktu Jesúm, eptir því hann hafði opinberað þeirra hræsni og óguðlegt athæfi, þeir óttuðust einasta, að þeirra metorð og inntektir mundu af sér gánga ef hans lærdómur feingi framgáng. Nicódemus hafði sagt undir allra þeirra nafni: Meistari! vér vitum að þú ert einn Lærimeistari, kominn af Guði, því enginn kann að gjøra þau teikn sem þú gjørir nema Guð sé með honum, Jóh. 3. v. 2. Jesús hafði einusinni sjálfur hrópað í Musterinu: þér þeckið mig og vitið hvaðan eg er, Jóh. 7. v. 28. hvørnin kann hann þá hér um þá segja, þeir vissu ei hvað þeir gjørðu;

eg medkénni, ad þeirra fávitska var minnst, og ad þeir drýgdu syndina med hinni stærstu forherdíngu, þeir vissu fyrir víst, ad hann var Spámadur, útsendur af Gudi, já, þeir flestu af þeim vissu einninn ad hann var Messías, sem um var spád, þó samt sýnist sem í þessum eina póst hafi verid hjá þeim einslags fávitska, edur ein óljós og ófullkomin þekkíng, svo þeir hafi vitad nockud hér um, en ei svo sem þad var. Þeir vissu ecki, ad Kristur var Guds Son, því þad géfur hvørjum einum ad skilja, ad hefdu þeir þad víst vitad, svo hefdu þeir ei lagt hendur á hann, þessvegna svo opt sem hann sagdi, hann væri Guds Sonur, hrópudu þeir: hann gudlastár! og þar fyrir segir og svo Pétur: Nú veit eg, brædur! ad þér hafid gjørt þad óvitandi, líka sem ydar høfdíngjar, Post. Gjør B. 3. v. 17. og Páluś segir: ef þeir hefdu þeckt hann, þá hefdu þeir ei krossfest Drottinn dýrdarinnar. 1 Cor. 2. v. 8. Þeir vissu ad þeir voru mordíngjar, ad þeir úthelltu saklausu og heiløgu blódi, en ad þad var guddómlegt blód, efast eg mikid ad þeir hafi vitad, þeir vissu ad þeir drýgdu eina ofbodslega synd, en ei hvørsu ofbodsleg hún var, og á þennann veg, sem þann mildasta er verda kunni, tekar nú Jesús þeirra synd, og fær sér orsøk af þessari þeirra fávitsku ad bidja fyrir þeim; og svosem eg hefi þess ádur minnst ad vér séum ogsvo í þessari Jesú bæn inniluctir: Fadir! fyrirgéf

Þeim, svo heyra oss og þessi orð til: **Þeir vita eigi hvað þeir gjöra.** Vér vorum eingu síður enn þeir sekir í Jesú dauða, enn þó óvitandi, því vér vorum þá ei til og kunnum ei vita, að vér hofðum verið með að krossfesta Guðs Son, og ei einasta þetta, heldur kann það ogsvo að heita í vorum ødrum syndum: **Þeir vita eigi hvað þeir gjøra;** jafnvel þeir sem syndga af ásetttu ráði og vita að þeir gjøri íllt, þá er þar þó hjá þeim að finna nockurskonar vanvitska og þeckíngarleysi, þeir vita ei, þeir þeckja ei, að þeirra synd er svo stór; ó! ef að syndararnir vissu hvað þeir gjøra, og hvað stórar væru þeirra syndir, vissu þeir hvørsu þeir með þeim tøpuðu Guði úr hjartanu, Jesú úr sálunni, og þar til allri huggun, allri hvíld, allri sáluhjálp; vissu þeir í hvílíka ógjæfu þeir sér steyptu, og vildu hugleiða, og þeir við syndirnar krossfestu Jesúm að nýu, og træðu sáttmálans blóð undir fótunum, ó! það væri ei møgulegt, að þeir hefðu hug til að gjøra það vonda, en þeir vita það ecki, og ætla það ecki, og framfylgja svo blindt þeirra eiginn vilja; vissi syndarinn hvørsu snart hans syndamælíng kynni að verða uppfylld, hann mundi þá vel taka sér vara að uppfylla hana með ákéfð, og leggja synd á synd ofan.

Að síðustu viljum vér athuga, hvørt þessi Jesú fyrirbón hafi fært ávøxt, og orðið þeim til

nota. Ad hann hafi ei bænheyrslu edlast er ómögulegt, því hann ségir sjálfur: Fadir! eg veit ad þú heyrir mig jafnann. Jóh. 11. v. 42. þar fyrir ségir Páls, ad hann hafi öffrad bænum og beidni med øflugu kalli og tárafølløm, og sé einninn bænheyrdur. Ebr. 5. v. 10. En munu þá allir sem hafa krossfest Jesúm, hafa ordid sáluhólpnir og ødlast qvittun syndanna? Þarum mætti efast, Jesús kunni ei, sem ádur er sagt, bidja um nockra þá hluti sem mótstrídu Guds dýrd og háns réttlæti, hann bad þeim sáluhjálpar, eptir hennar réttri reglu og nídurradan, ad Gud vildi géfa þeim tíma til umvendunar, og ad øllum þeim veittist fyrirgéfning, sem þennann nádartíma vildu færa sér til nota, og í þann máta er hann vissulega bænheyrdur, svo ad margir af þeim sem hafa úthellt Jesú blódi, voru sídan hreinsadir í hans blódi; margir af þeim urdu og hluttakandi í þessa sama blóds stóra krapti, þad beid ei heldur leingi ad þessi Jesú fyrirbæn auglýsti sinn krapt og verkan. Høfudsmadúrinn undir krossinum gaf Gudi dýrdina, og sagdi: sannarlega er þessi Guds Sonur. Fólkid sem stód þar hjá, bardi sér á brjóst, og sneri heim aptur, ad eg ei tali um Gydínganna, sem mørgum þúsundum saman sídan tóku vid trúnni, og ad jafnvel margir Prestar gjørdust trúnni hlýdugir. Post. g. B. 6. v. 7; hvad allt vissulega var ávøxtur þessarar Jesú fyrirbónar, og fyrir þessa hans bæn og úthellta

blóð ødlast enn nú í dag allir ydi andi syndarar Guðs náð og qvittun syndanna.

Þetta er svoleiðis yfirvegað um Jesú fyrsta lífsins orð á lífsins síðustu dauðastundu; en að það gæti orðið oss øllum að hjálpsamlegu lífsins orði, svo meigum vér vita, að færa oss það til lærdóms, trausts og huggunar. Vor lærdómur skal vera sá: að svoframt vér viljum verða hluttakandi í þessari Jesú fyrirbón, þessu lífsins orði, svoframt vér viljum að Jesús ennú, þar hann situr til Guðs hægri handar, skuli framgánga og biðja fyrir oss, ef vér viljum, að Jesú blóð skuli fyrir oss tala um náð og fyrirgéfníng, svo meigum vér vita, að þessi hans fyrirbón er oss eins vel til eptirdæmis sem friðþægíngar, að vér fyrirgéfum vórum náúnga hans bresti, að vér ecki høtum hann það minnsta í voru hjarta, að vér ei gjørum meira úr hans synd enn hún er, heldur lærum af þessu Jesú eptirdæmi að færa fyrir honum alla hluti til betra végar, svovíðt ské kann, og afsaka hans ávirdíngar; vér eigum að láta oss til hugar koma, að með þeim sama mæli sem vér mælum ødrum út, skal oss aptur inn mælt verða; en allrahelst eigum vér af þessu Jesú eptirdæmi að læra, að bera ei hatur til nockurs eður hefna vor sjálfir; fyrirgéfið, svo skal yður fyrirgéfast, og bað einkum og sérdeilis þegar vér skulum út af veröldinni. Ecki láta sólina undirgánga yfir vorri reiði, og Guð varðveiti oss frá, að lífsins sól

oss undirgángi fyrr enn vér erum við allar manneskjur vel forlíktir. Vér høfum máské, ef rétt aðgjætum, meir að þacka vorum óvinum, enn vorum vinum, Vorir vinir hræsna fyrir oss, halda með oss og þeirra vinskapur gjørir oss athugalausari; vorir óvinir gjøra oss þar á mót gott, þeir koma því til vegar, að vér hegðum oss forsjállega, þeir gjøra það, að vér tokum oss vara, og oft og tíðum þá vorir vinir eru sem spor ar til vors eginn vilja og hættusamlegs sjálfræðis, þá eru vorir óvinir sem bitell og beisli að halda oss aptur. Skulum vér þá ei gjøra þeim gott, sem vér høfum gott af, og þéna oss til góðs, enn þó það sé á móti þeirra eginn vilja, og biðja fyrir þeim? hvar til bæði Guðs orð, og þetta Jesú eptirdæmi oss skuldbinda; þar fyrir segir Pétur: hann hefur liðið fyrir oss, og oss eitt eptirdæmi eptirlátið, að vér skyldum eptirfylgja hans fótsporum. 1 Petr. 2. v. 21. Vorir óvinir hafa lángt frá ecki gjørt oss svo mikið íllt, sem þeir gjørðu honum, þeir hafa ei ennú krossfest oss, ecki ennú tekið líf og æru frá oss, og þó þeir hefðu gjørt það, þá er svó lángt frá að vér kunnum jafnast við Kristum, hann er Guð, en vér syndugar manneskjur, látum mótgjørðirnar vera þær sømu, mun syndin samt ei vera stærri, þess tignari persónan er, sem er á móti brotið? En viljum vér segja: að þetta eptirdæmi sé oss of hátt, því hann hafi verið alsvaldandi Guð, en vér séum vesælar manneskj-

ur, þá er það jafnan svo fyrir oss, að vér kost-
um skuldinni uppá vannáttinn, þar oss þó meira
vantar uppá viljann. Gétum vér í þessu ei eptir-
fylgt Jesú, svo eptirfylgjum þó þeim, sem eins vel
hafa verið manneskjur og vér erum; fylgjum Mósi,
sem bað svo heitt fyrir Ísraels fólki, er móðgaði
hann svo tídt; fylgjum Stephanó, hann var og
manneskja, hvør þá hann var grjóti laminn, féll
hann á kné, og sagði: Drottinn! tilreikna þeim
ei þessa synd! Post. g B. 7. v. 60, samt ødrum
fleirum er í þessu hafa verið Jesú eptirbreytendur;
þarfyrir ségir Pálus: verið mínir eptirfylgjarar
svosem eg er Kristi. 1 Cor. 11. v. 1. Nær við
nú svoleiðis látum Jesú fyrirbón vera oss til ept-
irbreytnis og lífsreglu, svo skal hún ogsvo í annann
máta vera oss til óbifanlégs trausts og huggunar.
O! það er oss øllum ein eilíf huggun, að vér vit-
um, að Jesús enn daglega biður fyrir oss, hann
byrjaði að biðja fyrir oss í lífinu; eg bið fyrir
þeim, sem þú hefur géfið mér og ekki alleinasta þeim,
heldur og øllum þeim sem fyrir þeirra orð munu
á mig trúa. Jóh. 17. v. 20. Hann hélt við að
biðja fyrir oss fram í dauðann, sem vér í dag heyrt
høfum, og að síðustu er hann til himna uppfarinn,
að biðja fyrir oss, svosem Postulinn Páll vottar:
Hann er til hægri handar Guði, og biður fyrir
oss, Róm. 8. v. 34. og Jóhannes ségir: ef
nockur syndgar þá høfum vér Talsmanninn hjá

Fødurnum Jeſúm Kriſtum hinn réttláta. 1 Jóh. 2. v. 1. Hafi Jeſús ſvo heitt gétad bedid fyrir ſínum óvinum á kroſsinum, hvad ſkyldi hann þá ei nú gjøra fyrir ſína vini, ſína trúandi og ſín børn? Hafi hann bedid fyrir þeim, hann ſpottudu og tøludu gégn honum alla vondſku, hvad mun hann þá nú ei gjøra fyrir alla þá, ſem hann þarum bidja, og reida ſig uppá hans fyrirbón? Hafi þar verid ſáluhjálpar von fyrir þá ſem ſvo herfilega ſyndgudu, ſem þar og víſt var, því annars hefdi Jeſús ecki bedid fyrir þeim, ſvo láti Gud eingann ørvænta og ſegja med Caín: Mínar ſyndir eru ſtærri, enn þær meigi mér fyrirgéfaſt. Gen. 4. v. 13. O eina yfirmáta huggun fyrir oſs nær vér bidjum, ad ef vér gétum ei bedid ſem vér viljum og egum, ó! þá bidur Jeſús fyrir oſs og med oſs, ſé vor bæn ecki krøptug, þá er hans þeſs krøptugri, ſé vor bæn veik, þá er hans þeſs ſterkari, látunn oſs þarfyrir med djørfúng gánga fram fyrir nádarſtólinn, og vitum, ad vér høfum einn ſvo gódann talsmann hjá Fødurnum. Vér byggjum vora bæn á hans bæn, og hann byggir ſína bæn á ſínu blódi. Væri þad ei ſvo, ad Jeſús ecki bædi med oſs og fyrir oſs, þá kynnum vér aldrei ad hugga edur gledja oſs vid vorar bænir, édur til þeſs ætlaſt, ad þær nockud hjá Gudi gylda ſkyldu, en nú eru þær þóknanlegar í hans nafni og fyrir hans blód, og þó þeſs ſæta huggun tilheyri nú einkum og ſérdeilis øllum

Guðs börnum, svo meigum vér ei þarfyrir meina, að Jesús sé aflátinn að biðja fyrir þeim óguðlegu; það sýnist að sönnu á móti líkindum fyrir oss, að hann skyldi biðja fyrir þeim, sem sverja við hans nafn og formæla, að hann tali gott fyrir þá, sem íllt tala á móti honum, en það er þó ei meira eður ólíklegra, enn það vér í dag heyrt höfum, að hann bað fyrir sínum morðíngjum, þeim allrastærstu syndurum, sem jörðin nockru sinni borið hefur, og gétum vér trúað því, að hann sé dáinn fyrir þá óguðlegu, því skyldum vér þá ei ogsvo trúa því, að hann kynni ogsvo fyrir þeim að biðja, að hans fyrirbón nái svovídt sem hans friðþægíng, því hans fyrirbón er grundvöllud á hans blóði; hafi hann nú látið öpna sína síðu, og úthella sínu blóði fyrir þá, því skyldi hann þá ei ogsvo uppljúka sínum munni fyrir þá, og biðja fyrir þeim, þó með þeim mismun sem áður er sagt, að hann biður fyrir sínum trúandi, að þeir sökum hans fyrirbónar öðlist sannarlega náð og fyrirgéfníng, en fyrir hinum óguðlegu biður hann eins og fyrir sínum morðíngjum, með því forordi, að þeir umvendi sér, hann biður fyrir þeim um tíð og tóm, um sáluhjálpleg meðöl, undandrátt á straffinu, og hjálp til náðarinnar.

O! Herra Jesú Kristi, þú vor trúfasti Frelsari og ypparsti Prestur! þér sé lof

og þackir fyrir þitt blód og þinn dauda, lof og þackir fyrir þetta þitt Lífsins Ord, lof og þackir ad þú vilt bidja fyrir oſs; fyrirgéf oſs, ó! nádugi Fadir, allt þad vér hofum þér ímóti brotid; fyrirgéf oſs vorar vitanlegar og óvitanlegar ſyndir! fyrirgéf oſs daglega, því vér ſyndgum daglega, og þad er ennú ſvo opt fyrir oſs, ad vér vitum ei hvad vér gjorum, lát þéſsa þína fyrirbón þad í oſs verka, ad vér ad þínu dœmi bidjum fyrir þeim, er oſs hata og bleſsum þá er oſs bolva; Vyrdſtú framveigis ad bidja med oſs, þá vér bidjum, og þá vér gétum ei framar bedid, ſvo bid þú fyrir oſs; Lát þetta þitt ſídaſta ord vera vora huggun á vorri ſíduſtu daudaſtundu; ſtyrk og endurnær oſs, vor Gud! á tíma freyſtingarinnar; bleſsa þú oſs og gjor vel vid oſs, ſakir vorrar bœnar, en þó allrahelſt fyrir ſakir Jeſú bœnar, hans pínu, dauda og forþénuſtu, Amen.

---

# Önnur Prédikun
út af
# Því ødru Kristí Ordi á Krossinum.

Jóh. 19. Kapítula. v. 26. 27.

Þá Jesús sá nú sína módur, og þann Lærisvein þar nærstandandi, er hann elskadi, segir hann til sinnar módur: kona! sjá þú, þar er þinn sonur; eptir þad segir hann til Lærisveinsins: sjá! þad er þín módir.

## Inngángurinn.

Eptir því sem ein manneskja hefur lifad, eptir því deyr hún, aldrei deyr sá ílla, sem hefur lifad vel. Viljum vér vera hjá Drottni, svo meigum vér deya í Drottni, og viljum vér deya í Drottni, meigum vér lifa í Drottni, og lifa svoleidis, ad hvørt vér lifum eda deyum, þá séum vér hans. Róm. 14. v. 8. Þarfyrir áminnir Kristur oss og rádleggur, ad vér altíd skulum vera reidubúnir, því Mannsins Sonur muni koma, á þeirri stundu, sem vér ei ætlum.. Lúk. 12. v. 40. Væri

því svo háttad med daudann, sem einn annann lík-hamlegann hlut, er vér gjætum umbreytt nær vild-um; og gjørt betur í annann tíma, nær oss í fyrsta sinn hefdi ei svo vel med hann tekist, sem byrjadi, þá væri ei svo stór vandi á ad deya; en því er ei svo varid; ønnur mis-smídi meiga bætast, en þessi aldrei; Í hvørja átt sem eikin fellur, þar lygg-ur hún, Præd. 11. v. 3. Sá einusinni er illa daudur, er eilíflega fordæmdur, eckért er oss svo víst sem daudinn; um adra hluti kunnum vér ad segja: þad kann ad ské, þad má henda sig, máské þad kunni uppá ad koma, en um daudann ecki; engin manneskja hefur verid svo blind, ad hún hafi ætlad þad møgulegt, ad umflýa daudann; og svo sem hann er sá allraviss asti hlutur, sem manneskj-jan hefur til ad hugsa, svo er hann og einninn sá allravigtugasti, og sá vísdómur og konst ad deya vel, er þad allra naudsynlegasta, sem madur má ydka sig í, svo leingi hann lifir; þar fyrir bidur Davíd: kénn þú oss ad hugsa, þad vér hljót-um ad deya, svo vér forsjálir verdum. Psalm. 91. v. 12. Einn heidinn madur hefur viturlega sagt: ad lífid kynni ei ad brúkast til annars betra, enn ad íhuga daudann; og þar finnast heidíngjar, sem í þeirra géstabodum hafa látid framsetja á bordid høfud af daudum manni, ad daudans íhugan skyldi vera sá fyrsti réttur, sem þeir mettu sig med, samt þad fyrsta fagnadar og vellystínga ávarp. Vér

lesum og, að þá einn heiðinn Keisari í Austurálf-unni var krýndur, hafi verið frambornir margslags Marmor-steinar, og hann aðspurðr, hvörja teg-und þessara steina hann vildi útvelja, til að láta gjøra af sinn legstað.

Hvar af kémur það þá, að vér erum svo mjøg hugsunarlausir, að búa oss undir það, er vér þó víst vitum að fram við oss skal koma, á hvør-ju oss ríður svo mikið, að það að loknum gylda skal vora eilífa velferð; ef vér í þeim líkamlegu efn-um búum svo vel og vandlega í hag fyrir oss, að vér útvegum oss jafnvel þá hluti, sem einasta fyrir happ og hendíngu kunna oss til gagns að koma, hvørsu lángtum framar byrjar oss, að búa vel í hag fyrir oss í þeim andlegu efnum, og búast við því, sem oss øllum er altíð svo víst og yfirhángandi sem dauðinn er.

Látum oss þarfyrir sem optast sagt vera, það sem í nafni Drottins, og eptir Drottins befalníng einu sinni sagt var til Ezechíam Júða Kóngs, hvør orð, svosem nærsta merkileg, og eptirtektaverð, að í H. Ritníngu finnast tvisvar, og standa skrifuð bæði í **2 Kóngab. 20. Kap. v. 1.** sem og **Es. 38. v. 1,** svo hljóðandi: **Og Spámaðurinn Esaias sonur Amós kom til Ezechíam, og sagði til hans: svo segir Drottinn, ráðstafa þú þínu húsi, því þú skalt deya, og ecki lifa;** í hvørjum orðum er á þá einu síðu að álíta einn nærsta harðann boðskap, og á

þá aðra, eina holla ráðleggíng; hvað því fyrra við víkur, þá voru þessi orð töluð til Ezechíam, sem var einn góður og guðhræddur Kongúngur, einn þvílíkur Konúngur, sem Guðs Andi gefur þann vitnisburð, sem vel færstir Kóngar i veröldinni feingið hafa, að hann gjört hafi, það sem Drottni vel líkaði, og setti sína trú til Drottins Ísraels Guðs, svo að eptir hann var ei hans líki meðal allra Konga Júda, og ecki heldur hafa verið fyrir hann, hann hélt sér til Drottins og veik ecki frá honum, og hélt hans boðorð, sem Drottinn hafði boðið Móísi, og Drottinn var með honum. 2 Kongb. 18. v. 5. 6. 7. Hann var einn Kóngur, sem ei af fáfeingri hrósan, heldur í öruggri hjartans fullvissu þorði, að segja í sínum sjúkdómi: ó! Drottinn! minnstú þó, að eg hefi geingið trúlega fyrir þér, og með réttsickudu hjarta; og eg hefi gjört það sem þér hefur líkað. 2 Kóngb. 20. v. 3. Til þessa Konúngs kémur nú sá boðskapur í hans besta aldurs blóma: ráðstafa þú þínu húsi, því þú skalt deya, og ecki lifa; hér er eingin vörn eður undanfæri; sá megtugi skal eins deya og sá voladi; í orustur og bardaga kunna Konúngarnir að útsenda aðra fyrir sig, og þurfa ei að hætta sínu lífi, en í daudans orustu skulu þeir sjálfir framgánga; það einasta skjól og skjöldur fyrir dauðanum er þetta: að vera daudur; því svosem múrveggir og hervyrki gjörast af mold og jörðu, svo er vor múr og hervyrki

á móti daudanum einasta grøfin, þá høfum vér aungvann dauda framar ad óttast, hann kann ei ad taka lífid af oss néma einu sinni; svo lengi vér erum ei komnir í vora grøf, heitir bodid svo til allra, þess hædsta sem þess lægsta: rádstafa þú þínu húsi, þú skalt deya; eg efast ad sønnu ecki, ad væri þar nockur hlutur, sem kynni ad hindra og verja daudanum, þá gjæti ótti Drottins því tilvegar komid; en eptir því þad góda í þessu lífi er svo lítid, en þad vonda mikid, svo hefur Gudi ei þóknast ad láta hérvistar dvøl sinna barna vera lángvinnari enn annara, miklu framar flýtir hann tídum þeirra burtfør; bædi hans miskunsemi vid hans elskendur, og réttlæti til hegníngar þeim vondu gjørir þad, ad hann burt tekur þá gódu, sem í lífinu verid hafa sem stod og stytta, edur sem múr og verja fyrir straffinu; Pálus segir um þá trúudu, ad heimurinn sé þeirra ei verdugur. Ebr. 11. v. 38. Hann skynjar ei hvílíkir þeir eru, hvarfyrir Gud þeim í burt sviptir, og géfur aptur einn Manassen fyrir Ezechíam, vondann fyrir gódann. Hans miskunsemi í þessu vid sín børn er og audsjen, hann vill ei ad þau sjá skuli þad yfirhángandi vonda, edur af því tælast og lockast; hann tekur þau á medan þau eru enn þá góð; hann sjer þad fyrir fram, sem vér kunnum ei ad sjá, ad þau kunna ad verda vond; hefdi Ezechías dáid, þá hann féck þennann bodskap, þá hefdi hann dáid mikid betur enn sídan,

og verid frí fyrir þeirri stóru synd, er hann féll í skømmu þareptir, og lesa má í 2 Kóngab. 20. v. 12. 13.

Gódur bodskapur er oss ætíd velkominn; en — því var ei svo varid um þennann bodskap; hann hefur mátt vera nærsta ófeiginsamlegur, ei einasta fyrir þann sem hann var fluttur, heldur og þann sem hann frambar; hvør vill efa, ad þad hafi mátt gánga Spamanninum til géds, ad hann vard ad kunngjøra þvílíkann bodskap svo gódum Konúngi, einkum þar merkja má, ad Ezechías hafi ecki einasta elskad Esaíam, heldur og ad þeir verid hafi náskyldir; Spámadurinn hefur ad vísu segja viljad um þessi ógédfeldu tídindi, sem fordum Daníel: ó! ad drauminn ætti þínir óvinir, og hans útþíding þínir mótstødu menn. Daníel. 4. v. 19. En hvad skyldi hann gjøra; Herra-bodid er hátt, en Guds bod er enn þá hærra, hann mátti þarfyrir gjøra sig hardann, og vildi segja sem Spámadurinn Ahía: eg er sendur til þín einn hardur sendibodi. 1 Kóng. b. 14. v. 6. Og til ad afsaka sig, leggur hann þetta til: svo segir Drottinn; eg kém ecki af sjálfum mér til, heldur er þad Guds vilji og hans umsorgun fyrir þér, ad eg skal kunngjøra þér þvílíkt fyrir fram; en hafi nú Spámanninum verid svo mótfallid, ad bera þennann bodskap, svo hefur ei heldur Ezechíæ verid rétt gédfeldt hann ad heyra; ó! þar eru svo fáir sem hafa velþóknan á daudanum,

einkanlega þeir voldugu, þarfyrir segir Sýrach: ó! daudi, hvad beiskur þú ert þeim sem hefur góda daga, og lifir fyrir utan áhyggju. Sýrach. 41. v. 1. Svo menn hafa dæmi uppá þá, sem ei hafa mátt heyra daudann nefndann, sem þann hlut, er þeim gjørdi hindran i þeirra jardneskri gledi og eptirlæti; og þarfyrir mátti einginn inngánga um Asverí Port, sem eitt sorgar-klædi yfir sér hafdi. Est. 4. v. 2. Vér sjáum hér og med forundran, ad Ezechías vard skélfour yfir þessum bodskap, hann snéri sér til veggjar, grét beisklega og bad til Drottins, hann tísti sem tranan og kurradi sem dúfan; hann þeinkti: ó! mætti eg enn lifa til morguns, en þú gjørir útaf vid mig á deiginum fyrir qvøldid. Es. 38. v. 13. Því verdur annars ei neitad, ad þessi bodskapur kunni aldrei koma á einum óhentugri tíma enn hann kom. Þá Ezechías vildi hvad helst lifad hafa, hét þad: þú skallt deya; eingill Drottins hafdi baríst fyrir hann, og á einni nóttu í hel sleigid hundrad áttatíu og fimm þúsundir í herbúdum þeirra Asyríku; Sá gamli óvinur Zenacherib var daudur, munnur spottarans Rabsakes var tilbyrgdur; allt var í kirdum, Ezechías fékk ein gledi-tídindi á fætur ødrum, og hann tók nú svosem fyrst til ad lifa; sjá! svo koma þessi sorgar-tídindi, þú skalt deya; daudinn kémur aldrei í hentugann tíma, eg veit ei hvør sá tími vera ætti, ad manni ei sýndist, sem daudinn mætti enn þá nockud bída, og snarast

skal hann til vor koma, þá vér minnst til hans þenk-um; þar í mót, þá vér óskum eptir daudanum, flýr hann frá oss; daudinn spyr ei eptir, hvørt hans tilkoma er oss med edur mót, og er oss hvad hættulegastur, nær vér minnst á hann þeinkjum.

Þar eru tvennslags takmørk sett vorum lífs-døgum, edur sem tvø tímagløs; þad eina er náttúrlegt, í vorum líkama, og rídur hér á því, hvørsu þetta vort moldarhreysi er í fyrstu gjørt, sterkt edur veikt, og hvørsu vér sídan med þad førum; þad annad tímaglas er hjá Gudi og í hans forsjón; þad náttúrlega tímaglas kann stundum ad vera ei meir enn hálfrunnid, þá Guds tímaglas er úti; hann styttir vort líf annad hvørt oss til góda, ad vér frelsumst frá því vonda í verøldinni, edur og til straffs fyrir vort ógudlegt framferdi, þeir ógudlegu fá ei hálfnad sína lífdaga, Psalm. 55. v. 24. Þeir deya, þá þeir eptir náttúrlegum hætti kynnu þó leingur ad lifa, og þvílíkt skédur opt og daglega; héradauk svo styttir manneskjan tídum sjálf sitt náttúrlegt lífs-skeid, stormar uppá sinn eig-inn líkama, spillir sinni heilbrygdi og jafnvel tek-ur lífid af sér, sem þó annars hefdi ei ordid svo skammvinnt; þetta náttúrlega takmark, kann ogsvo ad leingjast, en þad skédur ei tídum, og þá þad skéd-ur, er þad ei voru tilstilli ad þacka, heldur einasta Gudi, allir veraldarinnar læknis-dómar megna ei einu augnabliki þarvid ad bæta; og svo var þad

hér fyrir Ezechia, hans náttúrlega lífsins takmark var nú komið, og hans tímaglas útrunnið, en Guð af sínu almætti lagði 15 ár til hans lífdaga, fram yfir þeirra náttúrlega takmark; því egum vér og meigum allt kapp á að leggja, að vér ei styttum sjálfir vorar lífstundir, en svo fávíslega meigum vér ei þeinkja, að vér þær leingt gétum fram yfir það Guðs fyrirhyggja hefur áqveðið.

Sú holla ráðlegging sem Ezechia var géfin er af Spámanninum áhvíſuð með þessum orðum: ráðstafa þú þínu húsi; og má það skiljast bæði uppá andlega vísu, sem er að sjá fyrir sínni sál, svo vér kunnum að vera vissir um sáluhjálplegann viðskilnað, að hreinsa vor hjartans hús fyrir sanna yðran og yfirbót, að hafa sína trú, von, þolinmæði, kjærleika, afneitun heimsins, en laungun til himinsins, að hafa, segi eg, alla hluti fyrir fram tilreiðu, og vora lampa tendraða mót tilkomu Jesú.

En í þessum stað meinast eiginlega þess líkamlega húss ráðstofun, að Ezechias í tíma skyldi gjöra ráðstöfun í sínu húsi, og í sínu ríki, hvar allir hlutir voru nú, eptir það harða stríð hann átti, í vorðu; með einu orði, hann skyldi gjöra sitt Testament, og fyrirskipa í tíma, hvørsu allt skyldi tilgánga eptir hann látinn, uppá það sú þúnga veraldar áhyggja, skyldi ei sem annar steinn liggja honum á hjarta, nær hann ætti við að skilja. Svo byrjar og einum kristnum manni að ráðstafa

jafnvel ſínu jardneſka húſi í tíma, ad hann ſídan med ſtærri róſemd ſinnar ſálar géti vid verøldina ſkilid, nær ſá þúngi ſteinn, ſorg fyrir þeſsu tímanlega, er afveltur; en hvad því lídur, þá er ſú andlega húſsins rádſtøfun, þad ſem meſt árídur fyrir oſs, ſkorti nockud á rádſtøfun þeſs jardneſka, þá eru børn þeſsarar veraldar nógu vís til þad ad lagfæra; rétt holdlega ſinnadar manneſkjur kunna ad ſegja ſvoleidis: vér erum daudlegir, vér vitum ei hvad leingi vér kunnum ad lifa, þad tilheyrir einum forſjálum manni ad gjøra góda rádſtøfun ſíns húſs í tíma, og fyrirbyggja alla tvídrægni, er annars verda kynni eptir oſs fráfallna, og þvílík framſýni er aungvanvegin laſtverd; en þú, gódi Gud! hvar fyrir ſkyldi þá ei ſama gjøra vid ſálina? mun minna á því rída, ad ſjá fyrir því eilífa enn tímanlega? viljum vér meina ad þad ſé ſvoſnart gjørt? ſkulum vér óttaſt vorra erfíngja málaſóknir, og ei miklu framar þær ſtóru ſakargiftir er mæta kunna ſálum vorum eptir daudann? þarfyrir, kriſtnir menn! veitum forſjón voru andlegu heimkinni í tíma, vorri ſamvitſku, því hún er þad herbergi til hvørs ſálin flýr og leitar huggunar, nær til hennar ſagt verdur: þú ſkalt deya.

Gaungum nú aptur uppá fjallíd Golgatha, ad heyra þau ſíduſtu ord vors Endurlauſnara, mér vyrdiſt ſem nú í dag ſé til hans ſagt: rádſtafa þínu húſi; ó Jeſú! fullgjør þá þitt Teſtament, og

ſeg til, hvørſu þú vilt hafa þad med þína eptirþreyandi módur og vini, því þú ſkalt deya, og eckí lifa; vér heyrdum þeſsu næſt hans ſídaſta vilja vidvíkjandi hans óvinum, ad hann þeim fyrirgéfur og bidur Gud ad fyrirgéfa þeim. Nú í þeſsu hans ødru ordi ſjáum vid hans umſorgun fyrir ſínum vinum, og hvad hann nú í ſtúnad géfid hefur þeim tveimur perſónum, er hann hafdi kjæraſtar í veröldinni, ſinni eigin Módur og þeim Lærisvein er hann elſkadi; en hvad feingu þær þá? hann hafdi eckért þeim ad teſtamentéra, því hann átti eckért; í ſínu lifanda lífi hafdi hann ei hvar hann mætti ſínu høfdi adhalla, og þad hann hafdi, ſem voru klædin, mátti hann horfa uppá, ad ſtrídsmennirnir ſkiptu ímillum ſín med ødru herfángi, og á hans kirtil køſtudu þeir hlutkeſti, Matth. 27. v. 35; yfir hvørju hafdi hann þá rád? hans augu voru enn nú í hans valdi og med þeim áleit hann ſvo mildilega ſína Módur; hans túnga var enn þá ei bundin af dandanum, og med henni ávarpadi hann þau ſvo áſtſamlega; þad beſta ſem hann hafdi rád yfir var hjartad; Júdas hafdi peníngana, ſtrídsmennirnir klædin, líkaminn var negldur á kroſsinn, hans ſál heyrdi hans Fodur til, ſitt líf útgaf hann til betalíngs fyrir vorar ſyndir; og hvad var þá eptir fyrir hans Módur? hans hjarta, hans áſtúdlega umſorgun; og endilega hafdi hann enn nú einn hlut í eigu ſinni, ſem hann mátti vera viſs

um, einn trúfastann vin, einn Lærisvein sem hann elskaði, og þennann mann, sem af öllum hans Læri-sveirum var sá besti, testamenterar hann nú sínni Móður, segjandi: Kona! sjá það er þinn Sonur, Jóhannes! sjá það er þín Móðir, þessir tveir hans bestu vinir skyldu nú vera héreptir sem Son-ur og Móðir, og þetta er Jesú Testament. hvað því líkamlega viðvék; en nær vér tökum þetta hans orð, og leggjum það til hinna, þá finnum vér, hann hefur í þeim tilsamans kénnt oss þá réttu aðferð að ráðstafa voru húsi, og búast við dauðanum; það fyrsta manneskjan skal láta sér umhugað vera á sínni banasæng, er að sættast við sína óvini, því annars má hún ei vænta sér forlíkunar við Guð, og þessvegna var Jesú fyrsta orð, að hann bæði sjálf-ur fyrirgaf og bað Guð, að fyrirgéfa þeim; þar næst afgjörir manneskjan það líkamlega, svo sem það annað Jesú orð var, að ráðstafa sínu húsi; nær þessu er aflokið, á hann eptir því að líta, hvört það nockuð vera kunni, er hann enn þá meigi framqvæma til Guðs dýrðar og náúngans vel-ferðar, sem Paulus býður: fyrst að vér höfum tímann, þá gjörum gott hvörjum manni, Gal. 6. v. 10. Svo var það þriðja Jesú orð eitt miskunarverk, þá hann gaf ræníngjanum eilíft líf og sáluhjálp. Nær ein deyandi manneskja hefur nú svoleiðis ráðstafað sínu húsi, fyrirgéfið sínum óvinum, skilið við sína vini, og gjört það gott, sem

hún hefur viljad gjøra, þá byrjar henni allt frá sér ad géfa, en einasta halda sér til Guds, svo gjørdi Jesús í því fjórda ordi, sem var ein bæn til Guds: Gud minn! Gud minn! því hefur þú yfirgéfid mig; sídan þoli hún og lídi med þolinmædi þad Gud áleggur, svosem Jesús í sínum þorsta; láti sig svo lánga eptir Guds tíma, ad hún med honum segja meigi, þad er fullkomnad, og ad sídustu med øruggu hjarta géti befalad Jesú sína sál, og med honum bedid: Fadir! í þínar hendur fel eg minn Anda; og þanninn hefur nú Jesús í svo fáum ordum kénnt oss þann besta máta vel ad deya, og þá bestu adferd til ad rádstafa voru húsi; hvar útaf vér ad þessu sinni einasta yfirvega viljum Kristí Testament og sídasta vilja, hans ætt og nákomnum eptir holdinu vidvíkandi, og þar í þetta tvennt oss fyrir hendur taka:

1) Um hans syrgjandi Módur.
2) Um hans elskandi Lærisvein.

## Utleggíngin.

Svo høfum vér þá í dag Jesú Testament og hans sídasta vilja ad yfirvega, en uppá þad vér ei ætla skulum, ad hans Testamentis gjørníngur hafi ei nád vidar enn til Maríu og Jóhannem, svo høfum vér þess vel ad gjæta, auk þess, sem ádur er sagt, ad øll Kristí ord á krossinum, eru ad álíta

sem eitt Testament; þvíad rétt eiginlega ad tala, þá er Kristí Testament tvøfaldt, almennilegt og sérdeilisligt; þad almennilega Testament stiptadi hann fyrir sína kirkju, og øllum til gagns og góda; viljum vér þad sjá og heyra, þá lesum þann 17dá Kap. Jóhannis, þá dæilegu rædu er hann undir sinn skilnad gjørdi til síns Fødurs, þar sjáum vér hans Testament til vór, og medal annars þessi ord: Fadir! eg vil ad þeir þú héfur géfid mér, skuli vera þar sem eg er, ad þeir sjái mína dýrd; hér ad lítur og þad Testamentum sem hann gjørdi qvøldid fyrir sinn dauda, eitt sannarlegt Testamentum, í hvørju hann hefur skeinkt oss einn pant, uppá þann arf, sem hann testamenteradi oss í himninum; eg meina innsetníng Qvøldmáltídarinnar, þá hann testamenteradi sinni kristilegri kirkju sinn líkama og sitt blód, segjandi: þetta er Kaleikur þess Nýa Testamentis í mínu blódi. Hans sérdeilislega Testament þarímóti, var einasta vidvíkjandi hans egin húsi, og þad er þad Testament sem vér í dag høfum ad yfirvega, nefnilega: hans annad ord á krossinum, svo hljódandi: Þá Jesús sá nú sína Módur og þann Lærisvein þar nærstandandi er hann elskadi, segir hann til sinnar Módur, kona! sjá þú, þad er þinn sonur; eptir þad segir hann til Lærisveinsins: sjá! þad er þín Módir.

Þad mætti einhvørjum vel sýnast, ad þetta

Jesú ord' sé ei svo rétt merkilegt, og sad þad kunni ei ad gagna oss til nockurs traustis edur uppbyggíngar, þad komi oss eckért vid, heldur einasta þeim tveimur persónum, María og Jóhanni, og ad vér þessvegna ei um þetta ord sagt gétum, sem þad fyrsta, ad þad sé rétt eitt lífsins ord; en munum vér ei fara villt í þessu, mun oss ei med rökum nockud annad hér um sýnt verda? Þad er satt, ad María var Jesú Módir, og þetta var ein umsorgun fyrir hans Módur, en hefur þá Jesús aungva adra Módur enn Maríu? Til þess ad vér adra betri þánka um þetta Jesú ord ödlast meigum, og ad vér kunnum ad íhuga þad og heyra med stærri andakt enn svo, þá látum oss í hug koma, þad Jesús segir hjá Mattheum: **Þeir sem gjöra vilja míns Födurs þess á himnum er, þeir eru mín Módir, mínir Brædur og mínar Systur.** Matth. 12. v. 50. Fyrir því nú ad hvör ein kristin sál er Jesú Módir, þá kann hún ad tileigna sér þá umsorgun, er Jesús hér audsýndi sinni Módur, svo fullkomlega sem hún sjálf nærverandi heidi heyrt þessi Jesú ord til sín töluð; því hann sem hér gaf sinni Módur einn Son til hjálpar og huggunar, hann hefur og því heitid ad vera hjá oss í neydinni; hann sem hér ecki vildi láta sína Módir vera einmana, hann hefur og sagt: **Eg vil ydur eigi födurlausa eptirláta.** Jóh. 14. v. 18. Látum oss þarfyrir í trúnni skygnast nockud framar inn í þessi

Jesú orð, einkum á vorum eymdá og einstæðíngskapar tímum í veröldinni. Viljum vér meina, að svoframt þetta hefði verið eitt sök, einasta Maríu og Jóhanni viðkomandi, og ei áhrært fleiri, að Jesús þá hefði talað þessi orð opinberlega á krossinum? Meinum vér að hann ei laungu áður hefði verið búinn þessu af að lúka, þá hann svo optsinnis áður hafði talað um sinn dauða? Meinum vær að nockurt orð á krossinum á hans dauðastundu sé talað forgéfins og án vigtugra orsaka? Nei aungvanvegin! það fyrsta orðið: Faðir! fyrirgéf þeim, er að sönnu fyrir oss gledilegra í fyrsta áliti, því neita eg ecki, en þar í mót má því ei neita, að þetta hans annað er oss því hugguharsamlegra, sem vér það gjör yfirvégum; þá taladi hann til síns himneska Föðurs, en nú til sinnar Móður; þá fyrir sína óvini, nú fyrir sína vini og nákomna; hans ræða var þá um það andlega, nú um það tímanlega, hvaraf vér lærá skyldum, að þó það sé sérdeilis það andlega góða, sem Jesús hefur oss heitið, þá samt hefur hann ei þarfyrir neitað, að bera umsorgun fyrir þeirri tímanlegu nauðþurft; það skal kénna oss að láta vora áhyggju festa sig við það andlega framar enn það líkamlega, og einkanlega á þessi Kristí orða niðurraðan að géfa oss þann lærdóm, að jafnvel þó það sé vor skyldc, að elska vora vini og náúnga, þá skal þó skyldc vor við Guð alltíð hafa yfirhönd; að vor kjærleiki til

mannanna, elska til vinanna, umsorgun fyrir náúnganum, hlýdni vid foreldrana gyldi ecként, og séu aungvar kristilegar dygdir, heldur eintómis verkanir náttúrunnar, nema þad allt framkomi af elskunni til Guds, svosem einn straumur af sinni uppsprettu; þar er aldrei svo gód velunnan millum vina, millum hjóna, foreldra edur barna, ad Gud hana blessa vilji, nema hún sé í sinni réttri nidurradan og ordu, og komi fyrst á eptir elskuna til Guds; líkasem Jesús bar ei umsorgun fyrir sinni Módur fyrr enn hann hafdi gjört vilja síns Fødurs í því ad láta negla sig á krossinn, og fyrirgéfid sínum óvinum. En látum oss víkja aptur til Textans.

Jóhannes segir í næstundangángandi ordum, ad þar hafi stadid vid Jesú kross, hans Módir og módur-systir, María húsfrú Cleophæ og María Magdalena, og Mattheus og Marcus nefna ennú fleiri qvinnur, Salome Módir þeirra Zebedæi sona, Jóhannam húsfrú Chusæ, og margar fleiri konur er stódu þar; sannarlega, þad eru fyrir vorum augum stór undur, ad qvinnurnar voru hér standandi hjá Jesú krossi, þá menniruir hlaupa burt; þau breisku kérin eru hér sterkari enn þær sterku hetjur; Pétur hafdi lofad ad gánga í daudann med Jesú, en nú þorir hann ei nærri ad koma; þeir sem hofdu heitid ad vera stadfastir, þeir hlaupa, en þeir sem því ei hétu, standa

ſtøduġir; ſtøduglyndi hafa menn afmálad, ſem eitt bjarg undir bylgjum; en — viljum vér læra þad rétta kriſtilega ſtøduglyndi, ſvo meigum vér yfirvega þeſsar qvinnur undir kroſsinum; þær ſtódu nú kyrrar, þá adrir flýa; þær ſáu Jeſúm, og alla þá ſem voru honum áhángandi, ad vera hatada og fyrirlitna, þó vildu þær hann ei yfirgéfa, né dyljaſt þeirrar elſku er þær til hans høfdu. Vér megum géfa þeim þad eptir, ad í Kriſtí pínu hefur einginn ſkickad ſér betur enn qvinnurnar, og allſtadar í hans píníngar hiſtoríu fá þær betra vitni enn mennirnir; med gódgjørdum einnrar qvinnu byrjadiſt hans pína, hún ſmurdi hann med dýrmætu ſmyrſla vatni, og þetta gjørdi hún, ſegir Jeſús, ad eg yrdi greftradur. Matth. 26. v. 7. 12. Kriſtí pína endadiſt ogſvo med gódgjørdum qvennanna, ſem gengu til grafarinnar og ſmurdu hans líkama; og nú ſtanda þær og ſmyrja hann med tárum undir kroſsinum; þær voru ſídaſtar vid kroſsinn, og fyrſtar vid grøfina; þær vildu ecki burtgánga fyrr enn hann var daudur, og þá hann var daudur, fylgdu þær honum eptir, og vildu ſjá hvar hann var lagdur; eg ſegi ei þetta til þeſs, ad qvinnurnar ſtæri ſig, heldur þvi framar audmýki, med ad ſpeigla ſig í þeſsara qvenna dæmi, og ranſaki, hvørſu mikid þeim ſé áfátt í elſkunni til Jeſúm; því verdur annars ei mótſagt, ad qvinnurnar, ei alleinaſta hvad útvortis Gudsþjónuſtu vidvíkur, eru koſtgjæfnari í því ad

heyra Guðs orð, heldur og, hvað það innra áhrær=
ir, þá er því mikinn part svo varið fyrir þeim, að
áður enn þær hafa feingið elsku til Jesúm, þá eru
þær hvað breiskastar í því að áhánga veröldinni,
og elska það fáfeingilega, sem og í sínu trúartrausti
til Guðs og hans fyrirhyggju; en þar þvert á móti,
þá Jesú elska er orðin þeim hjartgróin, bregðst það
traudlega, að þeirra kristindómur sé ei enn þá hreinnri,
og þeirra kjærleiki, frómlyndi, hógværð, og ljúflyndi
enn þá þeckjanlegra; en hvað mun það hafa verið,
sem gjörði þessar qvinnur, er stóðu við Jesú kross,
svo styrkvar og hughraustar? án efa elskan til Jes=
úm; ó! mínir elskanlegir, það sem skal gjöra oss
styrkva, er kjærleikurinn; eptir því sem vér elskum
Jesúm, eptir því verðum vér styrkvir; því segir
Salomon: Elskan er svo sterk sem dauðinn, henn=
ar glæður eru brennandi, og einn eldslogi Drott=
ins. Lofk. 8. v. 6. Látum oss læra að elska
Jesúm, og vaxa í hans kjærleika, svo verðum vér
fyrir Jesú hjálp nógu styrkvir til að standa und=
ir Jesú krossi, og standast undir vorum eigin; sá
kjærleiki sem þessar qvinnur báru til Jesúm, gjörði
þær svo traustar, að þær ögtuðu aungva háska=
semd, eckért spott, ei líf ellegar dauða, fyrir sakir
Jesú kjærleika. Ein á meðal þessara góðu qvenna
var nú ogsvo Maria; Í Paradís stóð fyrr=
um ein qvinna, sem var móðir til allra manna, og
undir eins móðir að allra manna eymd og ógjæfu,

hún stód undir því forbodna tré, og hlýddi høggormsins ordum, og þau urdu henni ein daudans ord. Hér stendur í dag Módir vors Endurlausnara undir krossins tré, hlýdir á raustu høggormsins fóttrodara, og medtekur lífsins ord; vér viljum framvegis oss til íhugunar leida, med hvílíku hjarta hún muni þar stadid hafa; þar næst þann titil er hún féck hjá Jesú, og í þridja máta þad traust og huggun, sem hann gaf henni.

Med hvílíku hjarta ad María hafi undir krossinum stadid, verdur ei svo med ordum útmálad, svo sem íhugad af øllum þeim, sem vita hvad eitt Módur-hjarta er; engin hefur nockru sinni mátt svo glød vera sem María, þá hún fæddi sinn Son, þad blessada qvinnunnar sædi, fyrir hvørt øll verøldin skyldi ødlast nád og frelsun, þarímót hefur aldrei nockur Módir mátt vera svo sorgbitin sem María, nú þá hún missti þennann sinn Son, og med honum meinti sig ad missa alla sína unan og gledi. Agar fordum géck lángt burt, og upphóf sína raust med grát, segjandi: Eg gét ecki sjed uppá ad barnid deyr; en María mátti sjá uppá sins Sonar, ei ad eins píslar fullann, heldur og forsmánarlegann dauda, hún mátti heyra allt þad spott og brixli, qvalararnir vid hann tøludu, øll hamarsløgin, þá þeir negldu hann á krossinn; mun henni ei hafa fundist sem hvør nagli geingi igégnum hennar hjarta? Hún sá hvørt og eitt hans sár, hún mátti telja øll

hans bein, hún kunni ad heyra hvørja eina hans andvarpan; hún sá hann hánga, og kunni ei ad hjálpa honum; nakinn, og kunni ei ad hylja hann; hún heyrdi hann þyrstann, og mátti ei svala honum; spottadann, og mátti ei hann forsvara; hér hefur þad framkomid, sem henni var fyrirspád af Simioni: Eitt sverd mun þreingja sér ígégnum þína sálu. Lúc. 2. v. 35. Ei einasta hvørt eitt ord sem Gydíngar tøludu honum til spotts, heldur og hvørt ord Jesús taladi, og hvørt hans sár, hafa mátt vera sem eitt tvíeggjad sverd og stíngandi broddar í hennar sálu; Jacob sá einasta síns sonar blódugann kirtil, en hann vildi ei láta sig hugga, heldur sagdi: eg mun fara med harmi í grøfina nidur til míns sonar. Gen. 37. v. 35. Hvørsu aumkunarlega bar sig ecki Davíd eptir sinn óhlýdna Son Absalon; Gud gjæsi eg mætti deya fyrir þig, minn Son Absalon, 2 Sam. 18. v. 33. Og hvørsu mátti þá ei Maríu til hjarta gánga, þá hún ei heyrdi, heldur sá fyrir sínum augum, ecki einn óhlýdinn Absalon, sem Davíd, ecki einn son af mørgum, sem Jacob, heldur hennar einasta Son, já Guds og hennar Son deya, og þad einum svo forsmánarlegum dauda; Vilji adrir foreldrar klaga, þá svarar María: hvad er ydar missir á móti mínum missir? hvad er ydar sorg ad reikna á móti minni sorg? Allir þér sem framhjá gángid, skodid þad og hyggid ad, hvørt þar er nockur sorg

svosem min sorg, sem eg hefi í ratad, því Drottinn hefur fyllt mig med eymd, á þeim deginum sinnar grymdar reidi, segir Jeremías Harmagr, 1. v. 12.

Og svosem þessu var nú næsta sorglega háttad fyrir Maríu, svo var því ei øllu betur varid fyrir Jóhanni, hann var sá Lærisveinn sem Jesús elskadi, og sá Lærisveinn sem aptur á mót mest elskadi Jesúm; hann lá á Jesú brjósti um qvøldmáltídina, og var rétt svosem hans kéltu-barnz hann hefur ad sønnu ásamt hinum Lærisveinunum hneixlad sig á Jesú um nóttina, en nú hafdi hann reist sig aptur, og audsýndi hér øllum, hvørsu hans hjarta var innilega sært af elskunni til síns Meistara; þegar Davíd og Jónathan adskildu, þá var þad eins og eitt hjarta væri sundurslitid, svo Davíd sagdi: eg syrgi þig, minn bródir Jónathan, eg hefi haft stóra gledi og unadsemd af þér, þinn kjærleiki var mér sætari enn qvenna kjærleiki. 2 Sam. 1. v. 26. Hér eru tveir útvaldir vinir, já þeir allrabestu vinir er í verøldinni verid hafa, Jesús og Jóhannes, sem áttu ad skilja, svo þad er ei ad efa, ad á María og Jóhanni hefur leigid sú stærsta sorg og hjartans-ángist, sem á nockri manneskju liggja kunni; enn er þad merkilegt, ad þessar persónur, rétt þessir tveir Jesú kjærustu vinir í verøldinni, báru þá allrastærstu sorg, hvørninn meigum vér þá tilætlast ad vera af Gudi elskadir, og vera

þó fyrir utan mótgang, ad vér séum Maríu og Jóhanni likir í elskunni hjá Gudi, en ólikir í því einasta, ad lída sorg og hørmúngar. O nei! viljir þú vera Guds barn, viljir þú vera Kristi andleg Módir, og hans Lærisveinn, þá er þín Lectía, ad þú takir þinn kross uppá þig, og fylgir honum eptir; fyrst ad þú varst Gudi kjær, sagdi Engillinn til Tobías, þá hlaut þad svo ad ské, ad fyrir utan freistni máttir þú ecki vera, svo ad þú yrdir reyndur. Tob. 12. v. 13. Gud hefur átt einn Son án synda, en aungvann án kross og mótlætínga. Vér sjáum hér hvørsu þad hefur geingid þessum tveimur hans kjærustu vinum, þarfyrir segir Páll: hvørn ed Drottinn elskar þann agar hann, hvørn þann son hann ad sér tekur þann strýkir hann. Ebr. 12. v. 6. Lát þig því ei undra, sértu Gudi kjær, þótt þú nockud finna meigir til ángistar med Maríu og sorgar med Jóhanni; þad er þín huggun, ad hann sem leit nidur til þeirra, lítur og til þín; Drottinn sier af himnum ofan á jørdina ad hann heyri andvarpan hins hertekna, seigir Davíd. Psálm. 102, v. 20. Hell mínum tárum í þína fløsku, sannarlega þá reiknar þú þau. Psalm. 56. v. 9. Hann huggar oss í sorginni, sem hér Maríu; qvinna! sjá þad er þinn sonur. Pad er þá

Í annann máta sá titill sem Jesús gefur henni: Kona! Pad má sýnast, sem í því sé litill kjærleiki, ad hann nú í skilnad vill ei sæma hana med módur=

nafni; að hann talar til hennar svo ókunnuglega, Kona! Kann þá ein móðir, að forgleyma sínu barni? Es. 49. v. 15. En kann ogsvo eitt deyandi barn að forgleyma sinni móður! Hefur þú, ó Jesú! gleymt, að það er þín Móðir, sem þar stendur? Vér finnum þetta optar; í Cana í Galílæa brúkaði hann sama titil: Kona! hvað hefi eg með þig? En að tala svo hér að þeirra skilnaði, er enn þá undarlegra, sannarlega hefur Jesús í þessu haft sinn vissa tilgáng, og víst er það, að Gydíngar brúkuðu það orða-tiltæki og konu nafn ogsvo til mæðranna, og þetta nafn, kona, er í skriftinni eitt almennilegt nafn, sem án mismunar géfið verður háum og lágum; en hér til eru aðrar orsakir; nockrir hafa meint, að hann sökum fólksins svo talað hafi, að ei þeir heiðnu stríðsmenn og almúgi, honum til enn meiri qvala, skyldu gjöra henni nockra smán, þá þeir heyrðu, að hún væri hans móðir; eptir því þeir nú ei lengur kunnu til hans að ná, þá hefðu þeir kunnað að pína hann enn framar, með því að gjöra henni íllt, hvörju hann með þessu konu-nafni hefði viljað afstýra. En þessi þeirra röksemd nær ei rétt lángt, því auk þess að María hefur ei verið svo óþeckjanleg, meðal þeirra, að þeir vel vita máttu það hún væri hans móðir, svo kunnu þeir af þeim orðum Jesús talaði, audveldlega að skilja, að hún var hans móðir. Aðrir hálda, að eptir því hann áður í sínu fyrsta orði talaði til síns Föðurs: Faðir! fyr-

irgéf Þeim, svo hafi hann nú strax Þaruppá ei viljað kalla hana Móður, að Það ei sýnast skyldi, að hann gjörði hana jafna sínum Föður, eða gæfi tilefni Þartil, að nockur ætla skyldi, að Guð væri á Þann hátt Faðir, sem hún væri Móðir. Það kynni og vel að vera, að hann með Því viðqvæma Móður nafni, hafi ei enn Þá framar hennar hjarta særa viljað; en eg ætla, að Jesús með Þessu nafni: kona, hafi viljað minna hana á Það fyrirheit, sem Guð gaf í Paradís, að qvinnunnar sæði skyldi í sundurmerja höggormsins höfuð; að í Því orði: kona, sé ein huggun innifalin, að hún skyldi ei svo mjög syrgja sinn dauða, heldur gleðja sig og hugga við hans nytsemi, hún skyldi láta sér í hug koma, að hún væri sú qvinna, hvörrar sæði skyldi endurleysa allann heiminn, og Þarfyrir ei syrgja svo mikið sem ein móðir, heldur gleðja sig sem sú qvinna, er nú sæi höggormsins fóttroðara; en hinn vigtugasti hans tilgángur, hvarfyrir hann nefnir hana ei Móður, er að mínum Þánka sá, að hann minnti hana Þess, að hann ecki væri hennar Son alleina, hún skyldi hugleiða, að hann einkanlega væri Guðs Son, og hvað hann nú liði, Það liði hann ei raunar sem hennar Son eður eintómis manneskja, heldur liði hann nú sem einn sannur Guð, rétt nú væri hann að sínu forlíkunar embætti, hann væri nú í Þeim hlutum, sem væri hans Föðurs, og Þarfyrir kynni hann ecki að tala til hennar sem Móður, heldur miklu

framar sem sinnar dóttur, einnrar qvinnu, sem hann ásamt öllum ödrum væri nú að endurleysa; hann vildi segja: eg hefi hingað til verið þinn Sonur, og sem þú veitst, einn hlýðinn Sonur, en nú mátt þú íhuga, að eg er Guðs Sonur, sem gjöri míns Foðurs vilja, og í þessum gjörníngi hefi eg ei að gjöra með þig sem Móður, og ei hefur þú að syrgja svo frekt minn dauða sem Móðir, heldur sem ein trúuð sál, gledja þig yfir þeirri sáluhjálp, sem þú og allt mannkyn hefur sér að vænta af mínum dauða. Þarfyrir, svosem Páls segir: Vér þeckjum ecki Kristum leingur eptir holdinu. 2 Cor. 5. v. 16, svo þeckti og Jésús ecki, svo leingi hann var í sínu meðalgaungu embætti, sína Móðir eptir holdinu; í þessu hafði hann ei að álíta hana sem Sonur, heldur sem einn Endurlausnari og náðugur Faðir, að hann gjæfi henni nockra huggun, hvarfyrir hann segir til hennar:

Sem er sú þriðja greinin, Kona! sjá það er þinn Sonur; Maríæ ásigkomulag var hið allra aumkunarverðasta, að því leiti sem sú tímanlega sorg má kallast eymd og volæði fyrir einni kristinni manneskju; það má ráða fyrir víst, að hún hafi verið eckja, því í allri pínunni er ecki að finna eitt orð um Jóseph, og ei einasta það, heldur gétur hans hvergi, frá því Jesús var 12 ára gamall, þar þó svo opt talað er um Jesú Móður og ættíngja, og má hann nú eflaust hafa dauður verið, því annars, þá hefði hún ei þess viðþurft, að Jó-

hannes veitti henni hjálp og forstødu; hún var eckja, segi eg, og hnígin til ára, því til vissu, þá var nú hennar Sonur, þrjátín og þriggja ára gamall, ef ecki eldri, hún hafdi útstadid miklar ofsóknir, og landflótta ordid fyrir Jesú sakir; en þetta hennar sorgar-sár tók þó yfir, ad missa svo aumkunarlega hennar einustu gledi, traust og adstod, og yfir þvílíku hennar ásigkomulági hrærist nú Jesú hjarta til medaumkunar, hvarfyrir þá hann leit hana med sínum blódugu augum, og undir eins med þeim guddómlegu sá inn í hennar hjarta, sagdi hann til hennar: Kona! sjá þar er þinn Sonur, sem vildi hann segja: eg veit ad þú ert sorgfull yfir mínum dauda, en lát þína sorg ei gánga ofvídt; þó ad eg nú, sem þinn Sónur, meigi deya, þá dey eg þó ei sem Guds Sónur, heldur vil ætíd hafa eitt vakandi auga yfir þér; og ad þú hafa skulir nockurt sýnilegt athvarf, svo vil eg þig á hendur fela mínum Lærisvein Jóhanni, hann skal vera þinn Son í minn stad, hann elskar mig og er eg viss um, ad hann fyrir mína skuld, skal elska þig og vera þér til adstodar; eg vil nú strax med einu ordi í hans hjarta upplífga þvílíkann kjærleika, ad hann hédan af skal audsýna þér alla dygd og elsku, sem einn Sónur sinni Módur, svo ad þú søkum þessa míns tímanlega vidskilnadar skalt einskis í missa; Jesús svosem gleymir hér sinni eigin eymd, og sorgar fyrir sinni módur, eins og Davíd, þá hann sak-

laus var offóktur af Saul, og rekinn frá einum stad til annars, og hans foreldrar fyrir hans skuld voru staddir í sömu neyd, svo sörgadi David framar fyrir þeim enn sjálfum sér; hann gékk burt til Mispa, og sagdi til Kóngsins í Móab: kjæri! leyf mínum Födur og minni Módur ad gánga hér út og inn hjá ydur, 1 Sam. 22. v. 3. Svoddan sonarlega umönnun ber nú Jesús fyrir sinni Modur, þá hann sjálfur var bædi af Gudi og mönnum yfirgéfinn, hvar eptir hann strax segir, sem er sú

# Önnur Höfudgreinin,

til síns elskandi Lærisveins Jóhannis: siá, þad er þín Módur! Hann hafdi ádur géfid henni þá huggun, ad Jóhannes skyldi vera henni einn trúlindur Sonur; nú þar í mót vill hann unna Jóhanni þess sama, ad hann gánga skuli í sinn stad, hann skuli vera sinn bródir, og Sonur sinnar Módur; Jóhannes hefti ei þetta sitt umbod af hendi látid fyrir nockur veraldar metord, þó stærir hann sig ecki hér af því; hann nefnir hér ecki sitt eigid nafn, heldur einasta þann Lærisvein sem Jesús elskadi, sem var hans venjulegt ordatiltæki, nær hann meinti sjálfan sig, hann óskadi ei eptir ödru nafni; þetta var hans stærsti ærutitill, ad hann var sá Lærisveinn sem Jesús elskadi; og var þessari Jesú elsku ei þannveg háttad sem elsku mannanna, því þeirra velunnan fellur títum eins og regnid

yfir vónda jørd sem góda; ei heldur var 'þetta eínúngis náttúrlegur kjærleiki, med því þeir voru svo náskyldir, þar Jóhannes var Systur-son Maríu, því þar voru adrir Jesú eins nákomnir, heldur var sú helsta orsøk hér til þessi, ad svo sem Jóhannes elskadi Jesúm mest, svo elskadi Jesús hann mest; Jesús elskar þá sem elska hann; Jesú kjærleiki var sá segulsteinn sem dró Jóhannem ad krossinum, þá hinir adrir drógu sig í hlé, og hans elska aptur til Jesúm var sá segulsteinn, sem hneigdi Jesú hjarta enn framar til hans; þad er eitt víst merki uppá vora elsku til Jesúm, ef vér, jafnvel í neyd og hættu viljum vid hann kannast, og þó vér vissum, ad vér fyrir hans sakir spott og brixli lída ættum; enn hvør sem eins og Nicódemus, vill einasta halda sér til Jesúm heimuglega, koma til hans á nætur-þeli, en á dagínn vera sem hinir adrir Pharísæi, þess kjærleiki er engánveiginn sannarlegur; eptir því Jóhannes var hér stadfastur vid Jesú kross, svo var þad áugljóst, ad hann var sá Lærisveinn sem elskadi Jesúm, og verdskuldadi ad Jesús hann aptur elskadi, ad skilja; svovídt ein aum manneskja kann þad ad verdskulda, þar fyrir skal og Jóhannes ødlast þá vegsemd, ad vera Jesú Módur í Sonar stad; Jóhannes! sjá, þad er þín Módir! ordin eru næsta fá; þad hefdi mátt ætla, ad Jesús hefdi sérdeilislega bedid um sína Módur, þar til sært mørg ord og margar orsakir, ad hann tæki

hana ad sér, og lagt þad uppá hans samvitsku; ó! mínir elskanlegir! Hvar sannarleg elska er til Jesúm, þar þarf ei mørg ord; og ei lángar bænir; Jesús vildi ségja: ad þú elskar mig, þad veit eg, eg veit og ad þú vilt audsýna vid mig þinn kjærleika; þar fyrir, sjá! þad er þín Módir, gjør vid hana eptir því sem þú elskar mig, þú veitst, ad þar er eckert, sem þú gétur gjørt mér þægará, enn ad bera umsorgun fyrir minni Módur, þarfyrir, sjá hvar hún nú er; og upp frá þessu ætlast ég til; ad hún sé þín Módir og þú minn bródir; og þetta var nú nóg, já meir enn nóg sagt og talad til þvílíkrar sálar, sem Jesúm hafdi svo kjærann, til eins Lærisveins sem Jesús svo elskadi; frá þeim tíma tók Lærisveinninn hana ad sér; þad var svo lángt frá, ad Jóhannes vyrdti fyrir sér þetta ómak, edur færdist undan þeim þýngslum honum væri nú uppáløgd; hann spurdi hér ei sem Pétur fordum: hvad skal þá þessi? Jóh. 21. v. 21. Skulu ei hinir adrir Lærisveinarnir ógsvo gjøra nockud? nú vissi hann, ad hann var sá Lærisveinn, sem ei einasta Jésús elskadi, heldur og elskadi Jesúm; því þad er kénnimérkid, ad gjøra hans vilja án møglunar, hvør mig elskar hann heldur mín ord. Jóh. 14 v. 23. þarnæst, ad vér elskum þá sem Jesú tilheyra, Guds børn, Jesú Módur, hans limi, og látum þad vera vora lyst og inndæli, ad gjøra þeim til góda; og þetta hvørutveggja var hér ad finna hjá Jóhanni; Jesús sagdi ecki: þú átt ad taka hana til þín, þú skalt veita

henni forsorgun, heldur einúngis: sjá, það er þín Módir! en hann skildi audveldlega Jesú meiníng. O! kjærleikurinn til Jesú er sá besti túlkur, til að segja oss hvað Jesús meinar; höfum vér ei elskuna, hvað eru hans bodord oss þá ei þúng? vér gjörum þá ei annað enn færum fíngur útí Kristí bodord og skipanir, hnísustkum eptir, hvört þær séu ei að skilja svo edur svo, hvört í þeim sé ei önnur meiníng, að oss gefast kunni eitthvört undanfæri, og svoleidis gjörum vér þau flestu Jesú bodord að aungvu, edur að minnsta kosti svo meiníngarlítil, að þeirra kraptur verdur enginn, sem oss skuldbindi, og að síðustu vor skylda engin eptir þeim að breyta; en kjærleikurinn er ei svo; ó! honum eru Guds bodord audskilin; hann hefur engin umyrdi; hann hlýdir þeim strax og fylgir í einfeldni; af því að Jóhannes elskadi Jesúm, skildi hann audveldlega hans meiníng; og uppfrá þeirri stundu tók hann hana að sér; í höfudtúngumálinu er það svo: hann tók hana í sinn eiginndóm, hvar af ráda má, að Jóhannes hafi ei verið svo örfátækur, jafnvel þó það heiti svo um hann, að hann hafi yfirgéfið alla hluti, það er, slept og frá sér gefið alla umsýslan, heldur hefur hann nú aptur að sér tekið sínar eignir Jesú Módur til forsorgunar. Þannig var það annað Jesú orð á krossinum, sem sýnast má, að áhræra einasta það tímanlega, þarfyrir mætti einhvör svo þeinkja: hefur þá Jesús ei haft annan vigtugri hlut að þeinkja til á sinni

daudastundu, enn ad bera áhuga fyrir þvílíku, sem ei var meira í spunnid? Hvartil svarast: ad vorri hofmódugu og blindu skynsemi sýnist jafnan, sem hún finni eitthvad adfindnisverdt í Guds ordi, en fyrir þeim upplýstu augum trúarinnar, er þad lángtum ødruvísi; því svo lítilsverdt sem þetta Jesú annad ord kann ad sýnast, svo audugt er þad af mørgu gódu oss til lærdóms og huggunar.

Af Maríu egum vér ad læra elskuna til Jesúm; hennar elska var sterkari enn daudinn, svo enginn háski, eckért spott né bríxli kunnu henni ad snúa frá Jesú krossi; vér lærum af henni trúfesti og stoduglyndi, ad vera trúr inntil daudans, svo vil eg géfa þér Korónu lífsins, Opinb. 2. v. 10. einninn ad vera hugprúdir og ótraudir ad lída fyrir Kristí sakir.

Af Jesú lærum vér þá hlýdni og kjærleika, sem vér erum skyldugir ad audsýna vorum foreldrum; ad líka sem ein Módir kann ei ad gleyma sínu barni, svo á ei heldur barnid ad gleyma sínum naudstøddum foreldrum, hvad Páls kallar: ad endurgjalda sínum foreldrum, og þad segir hann, sé velgjørt og þacknæmilegt fyrir Gudi, og sá sem þad ei gjøri, hann hafi afneitad trúnni og sé heidíngjum verri. 1 Tím. 5. v. 4. 8. Vér lærum hér einninn af Jesú, ad þad er gott og réttvíst, ad manneskjan fyrr enn hún deyr, rádstafi sínu húsi, og setji allt til rétta sem fyrst hún gétur í því tíman-

lega, og svoleiðis hefur hann í þessum orðum, líka sem staðfest vor Testamenta og embætti kjárhalds-mannanna, nær þeir að eins síns embættis með því-líku hreinlyndi geyma vildu sem Jóhannes.

Af Jóhanni lærum vér, hvörsu ágjætt það sé, að bera umsorgun fyrir Jesú Móður, og hans vinum, að hjálpa ekkjum og föðurlausum, hvað Jacob kallar, hreina og óflekkaða Guðs þjónustu, Jac. 1. v. 27. Jesús hann hrópar enn nú til vor, og einkanlega þeirra, sem Guð hefur gjæddá með vísdómi, makt og myndugleika: sjá, það er þín Móðir! Guðs kirkja er vor Móðir, ó! álítið þá neyð Guðs kirkju; sjáið hennar eymd; sjáið hvörsu hún er fyrirlitin af hennar eginn; sjáið hvörsu hatur, stríð, ógudlegleiki og falskur Kristindómur hana svo afmyndað hafa, að hún er ei sjálfri sér lík orðin; ó! takið yðar Móður að yður svo margir sem getið, allir þér sem sjáið hennar hrörnan, að hennar múrveggir megi endurbætast og uppbyggjast. Framar lærum vér af Jóhanni, að vera ætíð fús-ir og reiðubúnir að hlýða Guðs vilja; uppfrá þeirri sömu stundu tók hann hana að sér; að það góða sem vér viljum gjöra, það sama gjörum vér án hindrunar með allri góðfýsi. En vorn helsta hof-uðlærdóm viljum vér að þessu sinni útdreigið hafa, af þessum titli Jóhannes: sá Lærisveinn sem Jesús elskaði. O! mínir elskanlegir, látum oss kepp-ast eptir þeim sama, sérhvör af oss gjöri sitt besta,

ad vér þennann ærutitil eptir Jóhannes erfa kunnum; ad vér á sídan þá fögru grafskrift í daudanum ødlast mættum: hér liggur einn Lærisveinn sem Jesús elskadi; Jóhannes hafdi sjálfur eitt prýdilegt nafn, sem merkir inndælann; hann hafdi þar hjá stóra titla; hann var Kristi Postuli, Spámadur og Gudspjallamadur, en øllum þessum nøfnum sleppir hann, þau meiga gjarnan øll gleymast og útilykjast, nær hann ad eins má halda þessu sínu eina nafni, ad vera sá Lærisveinn sem Jesús elskar; Pad vill lítid gagna þér, minn kristinn bródir! hvørt nafn þú hefur, í hvørju standi þú ert, hvørjir titlar og vyrdíngar þér hlotnast hafa, allt þetta, segi eg, vill lítid hjálpa, utan þú hafir jafnframt þann ærutitil: Einn Lærisveinn sem Jesús elskar og elskar Jesúm; eingiun kémst til ad ødlast þad nýa nafn skrifad á steininn, sem Kristur lofar Openb. 2. v. 17. utan hann hafi haft þad nafn hér á jørdunni, og þetta nafn kunnum vér ad fá med sama hætti og Jóhannes; viljum vér verda elskadir, svo elskum, viljir þú vera einn Lærisveinn sem Jesús elskar, svo vert einn Lærisveinn sem elskar Jesúm, en þar af þeckist ad vér elskum hann, ef vér høldum hans bodord 1 Jóh. 5. v. 3.

Hér er ogsvo ein huggun í þessum Jesú ordum, ei einasta fyrir eckjur og yfirgéfnar manneskjur, heldur og nær þessi huggun til allra Guds barna, med því ad ei alleinasta María er Jesú Módir,

heldur og allir þeir sem gjøra vilja hans Føðurs; ecki er Jóhannes alleinasta hans Lærisveinn, heldur og allir þeir sem taka hans kross uppá sig, og fylgja honum eptir; hans umsorgun tilheyrir ogsvo øllum; hann veit vel, að aungvir fá meira að líða í veröldinni, enn hans Móðir og Lærisveinar, hans børn og limir, hann veit að þar er eingiun, sem sorgar fyrir þeim, heimurinn sorgar fyrir sínum børnum; Verud þér af heiminum, svo elskadi heimurinn ydur, Jóh. 15. v. 19. Nú vel, svo vill þá Jesús sorga fyrir þeim; sá sem hér gaf sinni ysirgéfnu Móður einn Jóhannem til huggunar og aðstodar, hann vill og eptir sínum vísdómi og kjærleika á tíma neyðarinnar géfa þeim hjálparmeðal, ráð og vini, því hann hefur sagt: Eg vil ecki ysirgéfa þig. Ebr. 13. v. 5.

Ein trúandi kristin manneskja má þarfyrir með øruggu hjarta géfa sig á vald þessum sínum trúfasta Frelsara, og sér allri í þessa hans orðs náðar afgrunn niðurvarpa; svosem þá á krossinum, svo hefur hann nú á himnum sitt miskunar augu á þeim, sem upplíta sínum augum og hjørtum til hans; hann hefur enn nú meðaumkunarsamt hjarta ysir þeirra neyð, vinsamlega túngu að hugga oss með, og einn eður annann vin, hvørjum hann vill segja, að taka oss að sér; Vel sé þeim sem ei gánga til þeirra følsku brunna, sem ei kunna vatni að halda, heldur halda sér til þeirrar lifandi uppsprettu;

hans umsorgun er og stadføst, líkasem hann elskar sína, svo elskar hann þá allt til enda Jóh. 13. v. 1. svo vér megum segja um hann, sem Naemi um Bóas: Sá madur hefur byrjad ad gjøra vel, hann léttir ei fyrr enn hann hefur þad fullgjørt, Ruth. 3 v. 18. Nær smidurinn hefur húsid uppbygt, og kann ei framar þar vid gjøra, svo gengur hann burt, en fyrir Gudi er þad ei þannveg, hann hefur ei einasta byggt oss í Módurlífi, heldur leidir oss sídan ígégnum verøldina, og yfirgéfur oss ecki, þar til hann leggur oss í skaut vorrar Módur, grøfina, þarfyrir segir Davíd: Drottinn! þú ert mitt traust, mín von í frá úngdóminum, á þig hefi eg treyst þegar í frá Módur lífi, þú hefur mig útleidt af minnar Módur lífi, þú burtkastar mér ecki í minni elli, og yfirgéfur mig ecki nær eg hrørna. Psálm. 71. v. 5.

O! Herra Jesú! þú trúfasti Frelsari, vér þockum þér og einninn fyrir þetta þitt Lífsins Ord á Daudastundunni, í hvorju þú þitt miskunarríka hjarta oss audsýnt hefur, og undirvísad, hvorsu þú, vor ypparsti Kennimadur, ber oss alltíd á þinu brjósti, og aldrei vilt yfirgéfa þá sem standa undir þínum krossi, og elska þig inn til daudans; Utrím af vorum hjörtum allt of mikillri sorg og áhyggju fyr-

ir vorri líkamlegri velferd og sérdeilis þeirri sorg, ad vér missum nockurs í ef vér þig elskum; Miklufremar þá styrk þú vora trú og lát þetta þitt annad ord á krossinum djúpt innskrifast í vor hjørtu, ad vér í allri vorri neyd meigum oss vid þad hugga; veit og einninn ad þetta þitt ord mætti oss ad elds glædum verda og upptendra í oss eina sannarlega elsku og kjærleika til náúngans! Hérum vyrdstu oss ad bænheyra, ó Jesú! fyrir þíns kjærleika skuld og sakir! Amen.

---

# Þridja Prédikun

út af

## Því þridja Kristí Ordi á Krossinum.

---

Lúc. 22. Kapítula. v. 42. 43.

En sá annar Ræníngi sagdi: Drottinn! minnstu mín, þá þú kémur í ríki þitt; og Jesús sagdi til hans: Sannlega segi eg

þér: í dag skalt þú vera med mér í Paradís.

## Inngángurinn.

Vér høfum heyrt þann daudans bodskap sem Spámadurinn Esaias bar fordum Konúnginum Ezechias: rádstafa þínu húsi, því þú skalt deya, en ecki lifa. Es. 38. v. 1. Látum nú sem vér værum komnir í hans stad, og þessi bodskapur væri oss byrtur af þvílíkum sendiboda, uppá hvørs sannsøgli vér mættum óbrigdanlega reida oss: Rádstafa þínu húsi, þú, þú, þú, skalt á þessari stundu deya en ecki lifa; hvørnin mundi oss verda vid þad? med hvílíku hjartalagi mundum vér á þad hlýda? og hvørnin mundi þá horfa til hid innra hjá oss? eg ætla, kjæru vinir! þess sé nú ecki audveldt ad géta hvørnin svoddan bod mundi gédjast oss. Vér meinum svoddan muni ei uppákoma, þad hafi eckért fár, vér deyum þó ecki svo snarlega, og er því vangétid hvørsu oss mundi verda vid svoddan óforvarandis tídindi. Vort egid hjarta dregur oss á tálar og oss þykir svo vænt um ad hræsna fyrir sjálfum oss, ad meiri er von, vér innbirlum oss ad ei mundi oss stórum bregda þar vid, heldur mundum vér fúsir daudanum taka. Þad er og ómøgulegt madur viti fyrir fram hvørsu hetjulega hann kunni ad deya, því vér erum óreyndir þar í og høfum þar svo lítid af ad segia; hitt er víst ad svodd-

an mundi einkum þar á ríða, hvørsu vor samvitska væri áſigkomin, og hvílíkur vor málsſtaður væri fyrir Guði. Sá boðſkapur, þú ſkalt deya og ecki lifa, má vera hið ſkélfilegaſta reiðarſlag í ſálu hins óguðlega. Hann má viſsulega álíta dauðann ſem einn böðul, er kominn ſé að hrífa hans ſál út af lík-amans fángélſi og færa hana til maklegra qvala og refsíngar út á aftökuſtaðinn. Orðið: þú ſkalt deya, er ſem til hans ſagt væri: nú er allt þitt yndi og eptirlæti á enda; þú ſkalt deya, það er: þú ſkalt mæta fyrir einum Dómara ſem þú hefur alla þína lífstíð til reiði reittann, og ei kann með mútum eður vélum að forblindaſt, ſem aðrir dómarar; fyr-ir einum Dómara ſem ſjer alla hluti og krefſt reikn-íngſkapar fyrir allt þitt tálſku athæfi, limſku-brögð og heimuglegar ſvívirðíngar ſálar þinnar. Nú ſkaltu áſamt hinum fordæmdu öndunum ſanna það, að hinn réttláti Guð er ſem einn fortærandi eldur. Slíkum mönnum kann það ei annað að vera enn dauðinn ſé rétt ógnarlegur. En þar á móti öllum þeim ſem eru Guði innlífaðir og ſegja kunna með Páló: Eg hefi góðri baráttu bariſt, behaldið trúnni og góðri ſamvitſku. 2. Tim. 4. v. 7. það kann ei hjá því að fara, að dauðinn ſé öllum þeim vel-kominn eður að minnſta koſti aldrei ſvo ógnarleg-ur. Sá boðſkapur: þú ſkalt deya, er ſem til þeirra ſagt væri: nú ſkaltu gánga útaf þeſsum eymdar-dal, þínir öfundarmenn ſkulu þér ei framar mein

gjøra, þú flitur nú í þá dýrdarvist hvar engin sorg er, heldur eilíf unadsemd, þinn brúdgumi er kominn ad innleida þig í brúdkaupid, Eliæ vagn er til reidu sem skal færa þína sál til himins. 2 Kongb. 2. v. 11. 13. Sálarinnar skickja, líkaminn, skal alleinasta um stundarsakir eptir verda. Hvilík sál kann fullørugg ad svara daudans bodi med þessum Jacobs ordum þá hann hafdi aptur sjed sinn Son Jóseph, Gen. 46. v. 30. Nú vil eg fegin deya; þad kostar meira enn lítid eitt fyrir manneskjuna ad tala þessi ord í fullri alvøru; fyrrenn vér þad af hjartans rót segja kunnum, meigum vér eiga harda orustu vid sjálfa oss, sjálfum oss afneita og slíta oss lausa af øllum þeim fjøtrum er halda oss í dróma; þad er eingin konst ad tala djarft um daudann, svo lengi madur ætlar hann heyri þad ecki, og segja: eg á ecki nema einusinni ad deya, eg hef ecki nema eitt líf ad annast, þá þad er burt, svo er þad ei meir til. Daudinn er ein vita skuld og er því betra, sem hún er fyrr lokin; ójá! þetta er mikid létt sagt, svo lengi madur ætlar daudinn sé lángt burtu, en þad hygg eg margir mundi ei vera svo stórordir, ef þeir vissu ad daudinn stædi afsíd-is í veggjarhorni og heyrdi á hjal þeirra, og kjæmi hann þá framm í sama bili og spyrdi, hvør sá væri er svo fús vildi deya, þá ætla eg flestir mundu hafa sig undan þegna og segja: þad voru aldrei mín ord. Þad er svo edli allra lifandi skepna ad

þær elska lífid; hinn vesælasti jardar madkur eing=
ir síg saman fyrir daudanum; margar mannesk=
jur viija lifa vid volædi og ørkumsl, já missa allt
af líkamanum hvad missast má, ef þeir einúngis
halda lífs anda í því er eptir verdur. Satan er
lýginnar Fadir, en í þessu sagdi hann satt: húd
fyrir húd, og allt hvad madurinn hefur, þá géfur
hann fyrir sitt líf, Job 2. v. 4. Eftveimur bestu vin=
um og ekta=persónum veitir þúnglega ad skilja, hví=
lík ángist má þad þá ei vera, þá sál og líkami
skulu slítast hvørt frá ødru, eptir margra ára un=
unarsamlega sambúd; en allt fyrir þetta segir þó
Jacob hér med rólegu hugarfari: nú vil eg feg=
inn deya; mun þessi gamli madur ei vitad hafa,
hvad þúngt þad væri ad deya? edur mun hann
hafa talad þvert um hug sér? Nei, hann géck nú
á grafarbackanum, og er því líklegt hann hafi bædi
fullreyndur verid í verøldinni, og laungu sídan vid
daudanum búist. Vér hljótum ad gjøra greinar=
mun milli einnrar eintómrar náttúrlegrar manneskju
og einnrar endurfæddrar. Allt hvad sagt er um
vidbjód fyrir daudanum, á einasta heima hjá einn=
ri náttúrlegri manneskju sem stjórnast af eiginn
þótta; en sá sem leidist af Guds Anda, heldur daud=
ann fyrir sinn besta vin og segir med Pauló
Phil. 1. v. 21. Daudinn er minn ávinníngur.
Þá nú holdleg skynsemi er helgud fyrir trúna, um
þá eptirkomandi dýrd og tekin til fánga af elskunni

til Kristum, svo er daudinn í aungvu vidbjódsleg-
ur; því hafa margir jafnvel trúadir undir eins
viljad og ecki viljad deya, svo þá hefur bædi hrillt
vid daudanum og lángad eptir honum og má þar
sjá strid á milli holdsins og andans; en því meir
sem holdid sigrast af andanum og trúnni, því held-
ur minkar hrædslan fyrir daudanum, og stækar
laungunin eptir því eilífa; þad kann ei ødruvísi ad
vera, ef manneskjan vildi stjórnast af trúnni, og med
hennar upplýstu augum, skoda þann jardneska hé-
góma. Hvør vill ecki lída íllt um stundarsakir, til
ad njóta á eptir margra gódra ára? Ef vér skelf-
umst ofmjøg fyrir daudanum, má þad ílla vera
ástadt fyrir sálunni, og er þess von, ad þad sé
fyrirdæmíngin sem ógnar og ofbýdur. Samt med
því vér høfum ætíd nockrar holdsins eptirstødvar
til baka, kann ei hjá því ad fara, ad vér berum
nockurn qvída fyrir daudanum. En þeir einir hafa
nád hinni hædstu trøppu kristilegrar fullkomnunar
í þessu lífi, sem jafnvel þó þeir sjái daudann fyrir
augunum, kunna med Jacobs hugprýdi ad seg-
ja: Nú vil eg feginn deya; þad er: nær þessi laung-
un orsakast ei af óþolinmædi heldur einúngis lyst
og fullvissu um þá eilífu dýrd og vegsemd. Þó
má einginn taka svo ord mín: ad eg rádi nockrum
ad æskja sér daudans, sem traudlega skédur án syndar,
utan madur segja kunni med Pauló: Mig láng-
ar af hjarta eptir ad skiljast hér frá og vera med

Kristó. Þá fólk æskir sér dauda, er tilgángurinn skjaldan þessháttar, heldur skédur þad annadhvørt af breiskleika, sem hjá Jónas; þá lundurinn vísnadi, edur þad skédur af leida undir þessa lífs byrdi, sem hja Elías, þá hann sá vondskunnar tilvøxt í Achabs húsi, 1 Kóngb. 19. v. 4. edur þad skédur af óþolinmædi í mótgánginum, sem þá Job óskadi betur hann aldrei fædst, edur og strax hefdi dáid, Job. 3. v. 3.

Veraldarinnar børn vilja svo tregt skilja vid sinn ríkdóm og tímanleg metórd, edur sleppa því vissa fyrir þad óvissa, en hid jardneska verdur aldrei rétt kristnum mønnum ad fótakéfli heldur miklu framar ad atnarfjøtrum edur vængjum, hvar med hann því léttúdugar upplyptir sér hér frá; heimsins gledi og metord eikur hónum því stærri eptirlaungun til þeirrar vegsemdar sem honum er fyrirbúin á himnum. Þannin var því háttad fyrir Jacob, hvørki føgnudur yfir ad fá sinn Son, edur Egyptalands metórd kunnu hónum leingur uppi ad halda, hann vissi svo grandt hvad honum eptir daudann var fyrirbúid. Hafi hann nú verid svo fús til ad deya, þá hann hafdi fundid Son sinn Jóseph, hvørsu má þá ei miklu framar ein ydrandi trúud sála, sem hefur fundid sinn Jesúm og umfadmar hann í trúnni, vera fús ad víkja hér frá til ad vera med honum eilíflega í Guds ríki; hún kann gjarnan segja med Jacob: Nú vil eg fegin deya,

og med Simeon: Drottinn! lát nú þinn þjón í fridi fara.

Snúum nú aptur til þess krossfesta Jesúm á Golgatha, og yfirvegum hans þridja lífsins ord. Hér finnum vér eina manneskju sem med øllum rétti vill og kann segja med Jacob: Nú vil eg fegin deya, nefnilega: Ræníngjann er héck vid Jesú sídu; hann var andvaralaus og ógudlegur, já einn fortapadur sonur sem lengi hafdi verid daudur í syndunum, en nú var hann kominn til umvendunar, nú hafdi Gud aptur fundid þennann fortapada són, sem Jacob sinn son Jóseph. Nú hafdi þessi ræníngi ei einasta feingid Jesúm ad siá, heldur og af hans munni fullvissu þar um ørlast, ad hann þann sama dag skyldi med honum vera í Paradís; nú var hann fús ad deya ei einasta søkum sinna íllgjørda verdskuldunar, heldur og lángadi hann nú þar eptir, og er eg viss um ad hann ei vildi vinna þad fyrir alla veraldarinnar dýrd ad lifa leingur, og þó einhvør hefdi viljad taka hann nidur af krossinum, mundi hann svarad hafa: nei, nú vil eg feginn deya, því eg hefi nú fundid minn Jesum, og skal í dag vera med hönum í Paradís. Hvørsu gledilegur er ecki daudinn einum trúndum manni þá hann færir hann strax sama dag, sama augnablik burt hédan med Jesú og til Jesúm, inní Paradís. Hafi einn deyandi ræníngi feingid þvílíka fullvissu um sína sálar velferd, hvør skyldi þá

skélfast fyrir daudanum, og ei segja med Jacob: Nú vil eg feiginn deya. Látum þá skélfast fyrir daudanum, sém einkis góds hafa sér ad vænta eptir daudann, og ei kunna ad hugga sig vid Jésú dauda; én eitt trúud sála, sem skal vera med Kristó jafnvel sama dag og augnablik, hvørju skyldi hún qvída? hvar skyldum vér heldur vera vilja enn med Kristó í Paradís; vélkominn vertu, ó daudi! og leid oss þángad. Látum oss þá af þessu þridja Lífsins Ordi á Daudastundunni oss til yfirvegunar taka:

1) Eins deyandi syndara hjártanléga andvarpan; og

2) Eins deyandi frelsara nádarríkt ansvar.

## Utleggíngin.

Hvad því fyrra viðvíkur: þá ér í þessum ordum tæníngjans: Drottinn! minnstu min þá þú kémur í ríki þitt, ad sjá og finna þá hluti sem oss virdast meiga mikid undarlegir og skjaldgeingnir; þad ér ad sönnu óvenjulegt ad heyra einn mórdíngja edur ræníngja bidja, þó er þad ei svó ad undra, því nær þeir eru í ángistinni kalla þeir. Esaí. 26. v. 16. Ogn daudans getur jafnvel útpressad eina bæn af þeirri allra forhærdustu manns=

éskju. Hilt er óvenjulegra, að hann hér tilbiður einn krossfestann mann, sém var í sömu fordæmíngu og hann, að hann nefnir hann Drottinn og Herra; á hvörjum eckért veglegt eður herlegt var að sjá; það sætir enn nú meiri undrum, að hann tileignar þeim eitt ríki, er ei hafði það hann kynni sínu höfði að að halla, eður hylja með sínn nakinn líkama, til hans segir hann: minnstu mín í þínu ríki. En það sem mest yfirtekur er það, að hann beiðist þessa á beggja þeirra dauðastundu, þó hann hefði hinn mektugasti Kóngur verið og mörg ríki átt, þá samt hefði það fyrir eckért komið, að beiðast þessa á hans dauðastundu, því þá dauðinn kémur, þá er það lokið með öll ríki, makt og veldi; en svoddan undrum sém það sætir með bænina sjálfa, þá er þó hitt hið undrunarlegasta að hún fær áheyrslu, að ein bæn sem dauðans ofboð alleina sýndist útpressað hafa af hjarta einnrar forherdtrar manneskju, skyldi svoddan náð finna. Hvörnin má þetta samqvæmt vera með Guðs orði? er segir Jóh. 9. v. 31. Guð bænheyrir ecki synduga; og þó þér útbreiðið yðar hendur allann daginn þá vil eg þó ecki heyra yður, því yðar hendur eru fullar að blóði. Es. 1. v. 15. Munu ei hondur þessarar manneskju hafa verið fullar af blóði? Guðs Andi vottar um hann, að hann hafi verið ræníngi, morðíngi og íllvirki, og sýna þeir titlar ánægjanlega að hann hefur verið réttur Helvítis

eldibrandur, ein ógudleg, samvitskulaus og blodþyrst manneskja, hin vidurstygilegasta bædi í Guds og manna augliti. Hann og hans stallbródir, hinn annar ræníngjinn, hafa verid rétt svarnir lagsmenn í Gudsforakti og allri vondsku, svo hann ei einasta med' øllum rétti hafdi fyrirgjørt lífinu, er hann og medkénnir segjandi: **vér medtókum hvad ockar gjørdir vóru verdar**, heldur hafdi og eptir Guds dómi fyrirgjørt sinni sálar velferd; þessi, segi eg, med sínar hendur svo fullar af blódi, já, saklausu blódi, og blódugum syndum, ødlast nád og bænheyrslu, og strax med einuri andvarpan fær fullvissu um eilífa sáluhjálp, þá sáluhjálp er einn annar varla kann ad afreka alla sína æfi. En þegar vér hugleidum Guds óbrigdulu fyrirheit, ad nær hinn ógudlegi snýr sér frá sínum syndum, skal hans synda ei framar minnst verda, Ezech. 18. v. 21. þá megum vér medkénna ad þetta sætir aungvum undrum, vér megum nú álíta hann sem einn ydrandi syndara, og er þá ei ad undra þótt hann yrdi bænheyrdur; því strax eptir þessi Esaiæ ord er fyrr greinir, þá talar Gud svoleidis: **Þvoid ydur, hreinsid ydur, takid ydar íllsku breytni í burt frá minum augum, látid af íllu, og lærid gott ad gjøra, komum sídan, og eigumst løg vid, Þó ad ydar syndir séu raudar sem blód, þá skulu þær snjóhvítar verda**, Es. 1. v. 18. Eg medkénni, ad hefdum vér ei Jesú ord og ansvar uppá

ræníngjans beidni, þá murdum vér því traudlega trúa kunna; ad hans umvendun hafi verid annad enn eintómis gálga- og dauda-ángist; þad er svo mjøg skjaldgjæft, ad sá sem alla sína æfi hefur lif- ad í gudleysi, og áfram anad í vitanlegum syndum, komist á daudastundunni til sannarlegrar hjartans umvendunar, og sá sem hyggur þad kunni hæglega ad ské, hann veit ei hvad ein sannarleg ydran er, edur makt syndarinnar, þá hún hefur feingid yfir- hønd. Eg neita ei, ad þad kann ad ské, og Gud vardveiti mig frá, ad gjøra hans almætti og misk- unsemi í umvendunarverki eins deyandi stór-syndara, minni enn vera byrjar, en þetta er víst, ad svodd- an ydrun er nærsta skjaldsjen og þartil heyrir eitt stórt Guds almætti; hér ad auki er hún nockud uggandi, svo þad er ærid torveldt bædi fyrir sjálf- ann þann ydrandi og þá er hann sjá, ad dæma hvørt ydranin er alvarleg edur ei, og hvørt hún kémur einasta af daudans hrædslu og slægd And- skotans, edur af Guds Anda og sønnum hjartans umskiptum. Og eg má segja, ad øll þau ydrunar- merki vér sjáum hjá þessum ræníngja, svo góð, svo mørg og svo stór sem þau annars eru, kynnu þó ecki ad gjøra mig fulltrúa um, ad hans ydr- an hafi sønn og flærdarlaus verid, hefdi eg ei ó- rekandi røk þar til í Jesú ansvari og hans alvitsku; en med því vér høfum ei tekid bréf þarfyrir af Kristó, ad svoddan skuli heimfærast uppá adra, er

tala kunna þeßum tæníngjans ordum á dauda-stundunni, þá er ei rádlegt ad einn reidi sig þar uppá, og ei mögulegt ad segja neitt víst um eins ydran, þó hann tali sömu ord og útvísi hin sömu ydrunarmerki. Því þad er ei væntanlegt ad sjá hér þá réttu bevísíng sannrar yrdunar, sem er hjartans og lifnadarins umbreytíng.

En ad koma aptur til ræníngjans, þá má þad fullnóg sjá af Krísti ordum, ad hans ydrun var hrein þótt hún sein væri; vér sjáum hjá honum eitt alvarlegt ángur yfir hans drýgdum syndum samt þeirra opinskára medkénníng í þeßum ordum: **vid medtökum Þad ockar gjordir eru verdar**, þad er: vid erum sjálfir orsök til ockar ófara, vid höfum daudann forþént; enn framar sjáum vér hjá honum húngur og eptirlaungun Guds nádar, og svoddan audmjúka hjartans bón, ad hann þorir ei ad mælast til nockurs hjá Gudi, og jafnvel ecki nefna sálu-hjálpina, en bidur einúngis ad Jesús vilji ecki med öllu útskúfa sér, sem fortöpudum syndara. **Drottinn! minnstú mín**, segir hann, hann vill eiga þad undir Jesú nádugum vilja, hvörsu vídt hann aumkar sig yfir svo óverdugann syndara, sem hann vildi segja, eg vil einskis bidja, eg þori eckért ad nefna, en mætti eg einasta njóta þeß allraminnsta dropa þinnar nádar, þá væri minni sálu borgid; minnstu mín ad eins, Drottinn! svo mun eg ei falla í vantraust og örvínglan.

En þad er ei hér med búid, því fyrir 'utan hans ángur, audmýkt, og fríviljuga medkénníng, finnum vér hjá honum ávexti ydrunarinnar, nefnilega: betrun lifnadarins ad því leiti sem hans eptirverandi stutta lífstíd kunni ad tilláta, samt elskuna til Guds og náúngans, þar hann med svoddan alvörugefni forsvarar Jesú æru og kappkostar ad frelsa sálu síns náúnga; svo hann hefur í sinni umvendan ei einasta leitad sinnar egin velferdar, heldur og haft Guds dýrd og náúngans velferd fyrir sjónum, þad er audsjed af þessum hans ordum til hins annars ræníngjans: og þú hrædist ecki Gud? sem vildi hann sagt hafa: ó, hvad talar þú! er þad ei nóg ad þessir sem hér standa umhverfis hæda hann? þeir ætla þeirra reikníngskapartíd sé lángt burtu, en þú! hvad talar þú? veitstu ecki ad þú ert nú staddur á lífsins jadri og helvítis backa, og átt innan fárra vetfánga ad mæta fyrir Guds dómstól? vid höfum í lífinu hvörki óttast Gud né menn, hvört óttast þú enn nú ecki Gud í daudanum? viltú ennnú hæda Guds Son? hvad ætlar þú fyrir þér? Hvad hefur þessi hinn saklausi gjört? þad er satt, hann má lída sama dauda og vid, en þar mismunar þó mikid millum hans og ockar; hugleidum, ad gángi oss ílla, þá höfum vid ei betra verdskuldad; en hvad hefur þessi gjört? hvad íllt er honum yfirbevísad? eg heyri miklu heldur ad hann hafi gjört öllum gott, svosem vid höfum gjört öllum íllt, og þó

viltú spotta hann! Hrædistú ecki Gud? þeinkir þú einúngis uppá nærverandi qvøl, og ei miklu framar uppá þá þér er fyrirbúin í helvíti? Vér sjáum hér af bædi vandlætíng fyrir Guds dýrd og náúngans kjærleika hjá þessum ræníngja; hann vildi sinn jafníngi og lagsmadur í því ad styggja Gud, mætti nú jafnt sem hann, med sannri ydran leita Guds dýrdar; hann vildi nú med gódu eptirdæmi í daudanum betra þá er hann hafdi hneixlad í lífinu; hann sem í lífinu hafdi verid einn ræníngi, er nú í daudanum einn lærimeistari; Golgatha er hans Musteri, krossinn hans prédikunarstóll, tilheyrendurnir, Gydíngar og heidíngar, textinn, Løgmálid og Evangelíum, hann lýsir yfir sjálfum sér og sínum stallbródur Løgmálsins hótunarstraffi, en snýr sér jafnframt til Evangelíum, og leitar sál sinni nádar og huggunar hjá Kristó, já, hann géfur Kristó hinn merkilegasta vitnisburd; Júdas vitnadi um Jesú sakleysi, en samvitskunnar qvøl neyddi hann þar til; Pílatí húsfrú vitnadi, en því ollu hennar órólegu draumar; Pílatus vitnadi og, en hann ætladi þar med ad koma sér úr málinu. Ordtækid segir: þad er íllum fró, ad vita annann í qvølunum, en því var ei svo háttad fyrir þessum ræníngja; þad vísar þessi hans lostugi og skýlausi vitnisburdur um Jesúm: þessi hefur aldrei nockud ósskickanlegt gjørt, sem vildi hann segja: þeir hafa hann áklagad og dæmt frá lífinu sem einn sakamann, en

eg sem einn sakamadur má medkénna, ad hann líd-ur hinn stærsta órétt, þá vid þar á móti lídum ei utan (hvad rétt) er. Vid þessa hans vitnun máttu allir Kristí Læresveinar, helst Pétur, Jacob, og Jóhannes skammast sín, því þessir sáu hans forkláran á fjallinu og þó afsóru, burtflúdu, afneitudu, hneixludu sig á honum; en ræníngjinn, sem ei hafdi séd hann utan í qvølum og pínu hángandi á krossinum, líkari madki enn manni, vottar fyrir øllum hans sakleysi; og hefur hér sannast Esaíæ spádómur: Þér munud þad reyna, segir Drottinn, ad mig skulu prísa villudýrin á mørkinni, drekarnir og strútsfuglarnir. Es. 43. v. 20.

Af øllu þessu er nú audséd ad ræníngjans umvendun hefur réttskickud verid; en hans trú er svo forundrunarleg, ad einn Guds madur hefur med øllum rétti sagt, þad svoddan trú kunni ei í skriftinni ad finnast; hann sá Jesúm hánga í því audvyrdilegasta tilstandi, og þó áleit hann hann ad vera Guds Son, vel mátti hann hafa tekid hann fyrir saklausann mann, en þad sætir mestum undrum, ad hann hélt hann undir eins fyrir allsvaldandi Gud, hann kallar hann sinn Drottinn, og sjer þó eckért á honum er herradæmi sýna megi; hann bidur hann minnast sín í sínu ríki, en hér var ei ad sjá merki til ríkis edur Kóngstignar, eckért hásæti utan krossinn, engin kóróna utan af þyrnum, engin veldis-sprúa, utan járn-naglarnir í gégnum hans hendur, enginn

purpuri utan blódid, aungvir hofþénarar utan qval=ararnir. Þar ad auki var þad ei sýnilegt þad kynni ad hjálpa ræníngjanum, þó Kristur hefdi haft tíu ríki til forráda, nú þá hann átti frá þeim ad deya; ó! hvad skørp eru ecki augu trúarinnar, og hvad vel sannast hér ecki Páls ord: Trúin er ør=uggt traust þeirra hluta sem madur sjer ecki. Ebr. 11. v. 1. Þanninn var nú ræníngjans trú ein óbrigdul fullvissa, ad Kristur midt í sinni forsmán og fyrirlitníngu hefdi eitt ríki til einvalds forráda í himninum, og vildi hann þar alleina minnast sín, svo væri sér borgid; Gydíngar høfdu lesid Ritn=íngarnar um Messíam, og þó héldu þeir Kristum fyrir svikara, en þessi athugalausa manneskja, sem í Ritníngunni nærsta lítid mun lesid hafa, er fród=ari um Kristí Persónu enn þeir allra vísustu meist=arar. Jesú eginn Lærisveinar, sem af hans lærdómi og kraptaverkum høfdu sannad hann ad vera Guds Son, hneixludu sig á honum, þá þeir sáu hans qvøl og dauda; vér meintum, segja þeir, ad hann mundi upprétta Israels ríki, þar vard eckért af, nú er hann daudur. Rétt í því sama vetfángi sem þeirra trú þannig útslocknar, þá qviknar ræníng=jans trú, nú kémur hann fyrst augunum á þad ríki sem þeim var frá sjónum horfid og trúir á einn krossfestann Gud. Eckért af þeim furdu verkum er skédu vid Jesú dauda, á sólinni, jørdinni, Muster=inu, bjørgunum, grøfunum, er ad mínum dómi vid

þessa ræníngjans trú samjafnandi, og var það bæði hið fyrsta og stærsta kraptaverk, er skêði við hans kross; mig undrar ei á Abrahams trú, við hvørn Guð sjálfur talaði; ei heldur á Mósis trú, er sá Guðs dýrð og dásamleg teikn, ei heldur á Postulanna trú, er Kristur prédikaði sjálfur í þeirra hjørtu; ei heldur á Høfuðsmannsins trú, er fyrst kom eptir þau tákn, sem skêðu í Jesú dauða. Mig furðar ei þó vér trúum, sem frá barns-beini erum uppfræddir í hans lærdómi, og vitum allt hvað hann oss til friðþægíngar gjørt hefur; Vitrínganna trú sem tilbáðu Jesúm, þá hann var eitt umkomulítið barn, var að sønnu stór, en þeir høfðu þó sjeð hans stjørnu í Austurvegi; En þessi ræníngi sem væntanlega lifað hefur í guðleysi, og aldrei sjeð Jesú kraptaverk, eður Jesúm sjálfann fyrr enn nú, sem einn uppheingjandi óbótamann, að hann þannig trúa skyldi, það yfirgeingur alla vora skynsemi; vér høfum ecki fundið þvílíka trú í Israel.

En hvørsu mun nú ræníginn þessa dýrmætu trú ødlast hafa? Því trúin er ecki mannanna verk, 2 Petr. 1. v. 1; án efa hefur Kristur sjálfur verkað í honum trúna, því það er hann sem trúna í oss uppbyrjar og fullkomnar, Ebr. 12. v. 2, en hvørnin þetta skêð hafði, hjá einnri inntil dauðans svo andvaralausri og ógudlegri manneskju, það er oss harla vanskilið, og varla verður móti því

haft, að í þessari trú er að finna nockuð óvenju-
legt, en jafnframt því kann eg ei að neita, að þau
venjulegu sáluhjálparinnar meðøl hafa hér einnig
tilstiðjandi verið; Af heyrninni kémur trúin, segir
Páluß Rom. 10; Það er að sønnu rétt líklegt
að ræninginn hafi áður fyrri ei haft stóra lyst til
Guðs orða, þó má vera hann hafi hér og þar
heyrt nockuð talað um Kristí kraptaverk og lær-
dóm, hvørju hann hefur þó lítinn gaum að géfið
í það sinn; en nú þá Guðs Andi tók að verka
yðrunina í hans hjarta, þá hefur hann ránkað við
því er hann áður heyrt hafði, má og vera að hann
í sínu fángelsi, hafi farið nockuð alvarlegar að
þeinkja til sinnar sálar, og einkum þann sama dag
íhugað, hvørsu háttað væri málefnum þessa manns
Jesú, er með honum átti að krossfestast, hann hef-
ur séð hans þolinmæði og hógværð móti sínum
óvinum, og víst heyrt hvað talað var um Jesú
ríki í þínghúsi Pílatí; hann hefur heyrt Jesú ræðu,
þá hann géck út til aftøku-staðarins, og endilega
hans innilegu bæn á krossinum fyrir sínum óvin-
um; eptir øllu þessu hefur hann þeinkt, og þá hef-
ur Guðs Andi, sem aldrei aflætur að verka í því
hjarta honum ei mótstendur, uppqveikt trúna í hans
sálu, og er því ei undarlegt þó hann bænheyrslu
øðlaðist; hans bæn var þar að auki nærsta auð-
mjúk: Drottinn! minnstu mín þá þú kém-
ur í ríki þitt, sem vildi hann sagt hafa: eg veit,

Drottinn! þín qvøl tekur snart enda, og þú inngengur í þína dýrd, æ! minnstu mín þá þar gengur vel, eg er nú í sømu fordæmíngu sem þú, þó ójafnt sé fyrir ockur ástadt, þar eg er sekur, en þú saklaus, en láttu þó þá lucku sem mér hlotnast hefur, midt í minni ólucku, ad hánga þér vid sídu, láttu hana greida mér óverdugum veg til þinnar nádar, ad eg mætti verda hinn lítilfjørlegasti í þínu ríki. Látum oss ei skammast vor, kristnir menn! ad læra þessi sømu bænar ord af einum krossfestum óbótamanni; minnstu mín, Drottinn! til hins besta, Jesú! minnstu mín í þínu ríki; Gud gæfi vér vildum þeinkja nockud framar á vorn Skapara í vorum úngdómi, svo þá verøldin snýr vid oss bakinu, mennirnir gleyma oss og sjálfir vér søkum sóttarmagnsins gleymum oss, ad Gud þá vor minnast vildi søkum sinna miskunsemda, og vor hjørtu ødlast mætti þad huggunarríka andsvar, sem hér féck ræníngiun: **Sannlega segi eg þér, í dag skaltu vera med mér í Paradís,** og vér viljum oss nú til yfirvegunar taka í þeirri sídari greininni. Varla hafdi rænínginn sleppt ordinu, þá Kristí ansvar var tilbúid; Gud er alltíd fús ad heyra vora bæn um þá andlegu hlutina, þá hún framkémur af trúnni; hann bad Jesúm ei annars enn ad minnast sín, en Jesús svaradi: eg minnist þín ei alleina, heldur vil eg strax taka þig med mér inn í Paradís. Nú vard þessi ræníngi einn heilagur ræníngi og

þetta rán var þad besta er hann nockurn tíma framid hafdi; Absalon stal fordum Israels barna hjörtum med sínu vináttu og kjærleiks yfirskyni, 2 Sam. 15. v. 6. en þessi stal Jesú hjarta med sinni trú og audmýkt. Hér töludu tveir ræníngjar til Jesúm, sá eini spottadi, en sá annar bad hann, og mætti undarlegt þykja, ad hann ei svaradi þeim bádum, og ofbodadi hinum med Helvíti, þá hann bodadi þessum Himnaríki; æ! nei, því var ecki svo varid fyrir Kristó, hann var ei kominn til ad dæma veröldina, heldur til ad gjöra syndarana sáluhólpna, en ad fordæma þá forherdtu er ecki hans verk, þeir gjöra þad sjálfir, og eru alla-reidu dæmdir. Jesús hafdi nú svo leingi þegjandi heyrt hin sáru spottyrdi qvalaranna, en svo snart nockur taladi til hans um nád og fyrirgéfníng gétur hann ecki ordanna bundist. Því segir hann og hjá Esaíam: *Þad skal ské, ad fyrr enn þeir kalla, þá vil eg svara, og medan þeir enn nú tala, vil eg heyra.* Es. 65. v. 24. Hann segir ei til hans: þú hefur offrad Satan alla þína lífdaga, en nú ad daudinn situr þér á vörunum, nú skal eg vera tilreidu; nei, vinur! gack til þess sem þú hefur svo lengi og trúlega þjónad, láttu hann taka þig inn í sitt ríki; nei, þetta ordar ei Jesús, heldur segir hann; **Sannlega segi eg þér, í dag skaltu vera med mér í Paradís**, þad er: svo sannarlega sem eg er Guds Son og heimsins Frelsari, svo

sannarlegá skaltu hjá mér vera; huggunar tíkari orda, kann einn deyandi syndari sér aldrei ad vænta; ó! hvörsu gladur mátti nú ei ræníngian deya. Þetta er þad fyrirheit og Testamentum sem Jesús hefur øllum trúudum gésid hjá Jóhannem 12. v. 26. Hvar sem eg er, Þar skal og minn Þénari vera, og í þeim 17. Kap. v. 24. segir hann: Fadir! eg vil ad Þeir sem Þú hefur géfid mér, skuli vera Þar sem eg er; og hvør er sá sem ei vill gjarnan vera med Jesú? Þad hefur gledilegt ræníngjanum verid ad heyra þetta ord: Í dag skaltu vera med mér í Paradís. Nú strax ádur sólin undirgeingur, skaltu med mér, ei í nockra jardneska Paradís, heldur sjálfann himininn og dýrd útvaldra; líklegt er hann hafi nú talid hvørt augnalik, einkum eptir þad Jesús var vidskilinn, og innilega lángad eptir daudanum, hann hafi án efa feginn lidid, ad þeir bryti hans bein svo hann því fyrr kynni komast burtu, og vera med Jesú í Paradís.

Nú, þetta var hid þridja lífsins ord á daudastundunni; en mun þad alleina tilheyra ræníngjanum? Onei, allt hvad Jesús taladi á sinni daudastundu, þad taladi hann til vor allra; eg vil fátt tala um þad huggunartraust sem þessi ord innihalda, því hvør einn ydrandi syndari, jafnvel hinn ófródasti, kann þad sér ad tileigna, og hafa margir á sinni daudastundu fundid stærri hugsvølun í þessari grein Ritníngarinnar enn nockrum ødrum;

já, sumir hafa og um þad bedid ad þeir á dauda-stundunni væri einkanlega minntir á þessi ord; sér-hvør taki þau því til sín og geymi í einu sann-ydrandi, en ei andvaralausu hjarta, og brúki þau, sem vopn og verju mót andskotans freistíngum þá hann vill ofbjóda sálunni, med stærd og fjølda ill-gjørdanna. Hér er og huggun fyrir allar fáràdar manneskjur; látum oss ei hugfallast þó vér lídum hér; Paradís fylgir á eptir, þar skulum vér gleyma allskonar armædu, þar eigum vér ad vera med vor-um Jesú, þad er vissulega satt, segir **Paulus**: ad **þolum** vér med honum, svo munum vér og sídar med honum ríkja, deyum vér med honum, þa munum vér og med honum lifa. 2 Tím. 2. v. 11. 12.

En látum oss af þessu ordi læra þá advør-un ad vér eigi misbrúkum þessa dýrmætu huggun, svo læknisdómurinn verdi oss ei banvænn, sem øll-um þeim er brúka þetta dæmi til andvaraleysis, og í því trausti undandraga ydrunina og gánga djarf-lega framm í einni synd eptir adra, í þeirri óvissu von, ad þeir géti ætíd med ræníngjanum umvendt sér á daudastundunni, og vid eina andvarpan strax muni finna hjá Gudi nád og fyrirgéfníng. Víst er þetta dæmi einn órekandi vottur um þann ó-mælanlega krapt Guds miskunsemda, sem og ein gyld roksemd, ad ein hrein ydran kann aldrei ad vera ofsein, en þetta er og svo allt hvad vér kunn-

um þar af að álíkta; en uppá þá álíktun að ana fram í syndinni og þeinkja: mín ydran skal ecki bregðast á dauðastundunni, það má kallast hin aumk-unarlegasta glópska; eg vildi að sönnu ecki fyrir allt veraldarinnar gull, að þetta ræníngjans dæmi væri burtu úr Ritníngunni, og mørg ein ángráð sál mun ei á dauðastundunni vi'ja missa þá hugg-un fyrir øll veraldar metorð; en aungvu að síð-ur er eg mikið hræddur um, að þetta dæmi sem er svo ypparlegt í sjálfu sér, sé orsøk til margra for-dæmíngar. Jesús hefur með orði og eiði vottað ræníngjans sáluhjálp, en þar er næsta vallt uppá að ætla, að allir þeir verði hólpnir sem stóla uppá sagt eptirdæmi, því margir af þeim syndga rétt uppá náðina, og gjøra (svo að segja) leik að Guðs miskunsemi.

Eg vil gjarnan eptirgéfa, að þetta eptirdæmi sé einum syndara svo hjálpvænlegt sem vera kann, en hvað viltu þar af álíkta? Kjæri! án efa þetta, að eins og ræníngínn beið til síðasta tíma, og hlaut ei að síður náð og miskun, svo kann eg og. O, manneskja! hvað þeinkir þú? en ef þú deyr hastar-lega, og fær ei stund til ydrunar? nóg eru dæmi þar til; það kann bæði að ské náttúrlega og ept-ir Guðs réttvísri álíktan, fyrir það þú hefur stól-að uppá þína sóttar = sæng; og lát vera, hvað þó ei er, að þú sért viss um að leggjast á sótt-ar = sængina, þá, eru, það margir sem ei ætla í

fyrstu að sjúkdómurinn muni þá til dauða draga, en missa ræuuna fyrr enn þeir sjálfir afvita; hvað stoðar þá dæmi ræníngjans? Já, márgir verða svó undirlagðir af verkium, að þeir gleyma bæði Guði og sjálfum sér, hvað stoðar þá dæmi ræníngjans? Trú mér, að á sóttar-sænginni er óþægilegur ydrunar-tími; hugleið, að til sannrar ydrunar útheimtast allir sálarinnar kraptar, það er ei gjört með einni kaldri bæn og andvarpi, dæm svo með sjálfum þér, hvört einn sjúkur, sem alla sína æfi, hefur ógudlega lifað, er vel fallinn til að ydrast af hjarta; látum oss þeinkja, hvörsu hæglega svo kann að falla fyrir manneskjunni, að hennar hugarángur sé eintómis ángist og qvíði fyrir eilífri fyrirdæmíng; hennar trú á Kristum eintómis innbirlíng, og hennar laungun til náðarinnar ein hóldleg gyrnd eilífrar farsældar.

En látum sem allt þetta gángi eptir þinni tilætlan; seg mér þó, hvar Guð hefur géfið þér fyrirheit þar um, að þú gétir ydrast nær þú vilt; þú segir vel, að Guðs náð skuli það verka; en hvar hefur þú það, að Guð vilji standa þér til reiðu á dauðastundunni, þá þú þverúðarsamlega hefur alla þína æfi mótstaðið hans náðarverkunum, og jafnvel vísvitandi freistað hans, með að reiða þig uppá þessa síðustu stund? Lát sem þessi ræníngi hafi verið þúsundsinnum verri enn þú ert, en gjæt þess, að slíkt er þér framar til skélf-

íngar enn huggunar, því hann viſsi eckért ádur um Jeſúm, og lét þó ſtrax ſkipaſt vid, þá Guds Andi vitjadi hans; þú þarámóti hefur frá únga aldri haft Guds ord, og fundid hjá þér Guds Anda hræríngar; þú hefur brúkad medøl ſáluhjálparinnar, og opt verid kominn á umvendunar-veg, þó hefur þú alltíd mótþróanlega kaſtad Guds áminníngum á bak þér aptur, hvørſu kanntu þá ad jafna þér ſaman vid ræníngjann? O! þad er lángtum verr áſtadt fyrir þér. Þú ſegir; Nú, nú, hvørſu ſem þad er, edur ei, þá kémur þó Guds miſkunſemi einhvørn tíma til ad gjøra verkan; rétt er þad, og ſæll er ſá ſem eigi þverſkallaſt á móti Gudi, og eflauſt er þad, ad gétir þú gjørt eins alvarlega ydrun og ræníngin, nýtur þú og ſømu nádar, en þad er høfudſtyckid, og hvarfrá viltu taka hana; þó ſein brúdur heiti einuſinni þeim hennar bidur; þá kémur hann ſídan optar í þeirri von ad hún máſké taki ſinnaſkipti, ſamt er hann ſjálfrádur hvørt hann vill apturkoma. Hvørſu opt hefur þinn Jeſús feingid nei hjá þér! og hafi hann á ſtundum fengid já, þá hefur þú alltíd ſvikid hann; ſýn mér bréf fyrir því, hvad opt hann vilji aptur til þín koma, ſvo ſem þú hefur leikid þér ad, ad fráviſa honum; Ræníngjans ord gétur þú ad ſønnu eptir honum haft, en hans ydrandi hjarta verdur þú ad taka hjá Gudi; þad ſkilur ſvo mikid milli ræníngjans og þín; eg kynni ſegja: ad Andſkotinn

var þann tíð nærsta ugglaus, hann hafði aldrei vitað þvílíkt dæmi, og hélt það því ei mögulegt að hann mundi missa svoddan eina guðlausa sál uppá síðkastið; en trú mér, að Ánskotinn eptir þetta dæmi er orðinn viðsjálari enn áður; eg kynni að segja: að þetta var Jesú Píslardagur, sem hann með nockru sérdeilis dæmi vildi gjöra merkilegann; það sem þann dag skéði, skéður ei hvörn dag; Kristur deyði þann dag, en hann deyr aldrei optar; eg kynni enn að sega sem fyrr, að þetta dæmi er eitt kraptaverk; viltu þá bíða þess, að Guð gjöri kraptaverk, til að snúa þér þverbrotnum syndara? Vér sinnum að Postulinn Páll umvendtist við eina raust af himni, því bíður þú þá ei þess, að Guð ogsvo þannveg til þín talar; Daníel sat óskaðaður í ljónagrösinni, viltu þá og gánga í eitt ljóna-bæli í sama trausti. Í þeim líkamlegu hlutum viltu ecki reiða þig uppá eitt eður annað dæmi, sem kann að hafa tekist, en í þínum sáluhjálpar efnum stólar þú þó þar uppá, að þvílíkt einusinni luckast hefur; Ef þú sæir hundrað menn leggja úti eina ófæru, og allir tortínust utan einn, vildir þú uppá það eina dæmi þar á eptir fara? Eg meina, nei; hvarfyrir viltu þá í þínum sáluhjálpar efnum byggja alleina uppá þetta dæmi; eður seg mér, hvarfyrir skal dæmi þess eina ræníngja sem yðraðist, svo mjög svæfa þig í andvaraleysinu? og ei þarámót dæmi hins annars miklu framar hræða þig frá forherðíngu?

Gjerdu ecki berlega, hvørsu Jesús hefur fyrir þér sorgad, med einu huggunar eptirdæmi á eina sídu, og á þá adra med einu vidvørunar dæmi, hvørsu hált þad er, ad stóla uppa þann sídasta tíma.

J einu ordi ad segja, þá eru þad ei eptirdæmi heldur loford sem vér egum ad reida oss uppá; sýn mér þá nockurt Guds fyrirheit, hvar med hann lofad hefur ad géfa þér nád til ydrunar jafnvel uppá þitt hid sídasta, þá þú opt hefur Guds nád forkastad og forhérdt sjálfann þig; þú segir, hér er einn eidur til ræníngjans: Sannlega segi eg þér, í dag skaltu vera med mér í Paradís; en eg skal sýna þér annann eid, ad þá madur lengi hefur Guds nád foraktad, þá sver Gud í sinni reidi, (segir Páls): þeir skulu ecki koma til minnar hvíldar, Ebr. 3. v. 11. þar fyrir gjørir hann þá áminníng samastadar: Þá þú í dag heyrir ord Drottins, svo forherd ecki þitt hjarta, v. 7. 8. Hugleidid því ord Drottins: af því eg kalla, og þér viljid ecki, eg útrétti mína hønd, og enginn géfur þar gaum ad, þér hafnid mínu rádi, og viljid ecki mína hyrtíng (gæt nú vel ad, Guds Ord, Guds Hønd, Guds Rád, Guds Hyrtíng, hefur þú ei haft allt þetta fernt)? Nú vel, svo vil eg hlæa ad ydur þá ólucka kémur, sem annar stormur, og naud og ángist yfir ydur fellur, þá munu þeir hrópa til mín, en eg mun ecki svar géfa, þeir munu árla leita mín, og ecki finna, því

þeir høtudu vísdóm, og ótta Drottins vildu þeir ecki hafa, þeir vildu ei hafa mín ráð og løstudu mínar hyrtíngar. Ordsqvidar. Bókar. 1. v. 23. ogsvo víd:

Drottinn Jesú! Vér þockum þér af hjarta fyrir þetta þitt Lífsins Ord, og þá sætu huggun sem þú oss þarí géfid hefur; géf ad af þessari þinni svó augljósri bevisíng uppá þína miskunsemi vid syndarana, megi í oss upptendrast ein sønn elska til þín, vardveit oss einn og sérhvørn frá ræníngjans synd, smán, og dauda; en géf oss øllum í tíma hans ydrun, trú og sáluhjálp; vardveit oss frá þeirri forherdíngu, ad vér stólum uppá ræníngjans eptirdæmi, edur undandrøgum vort apturhvarf frá syndinni, hvar med vort ydrunar-verk verdur svo miklu torveldara; Lát oss ad lyktum deya med ræníngjans andvarp í munnínum: Drottinn Jesú! minnstu mín til hins besta; og lát oss svo fara hédan med hans hugsvølun í sálunni: Í dag skaltu vera med mér í Paradís. Amen.

---

# Fjórda Prédikun
út af
## Því fjórda Kristí Ordi á Krossinum.

Matth: 27 Kapítula. v. 46.

Og nærri níundu stundu kalladi Jesús hárri roddu, og sagdi: Eli, Eli, lama sabachtaní, þad er: Gud minn! Gud minn! hvarfyrir hefur þú yfirgéfid mig?

## Inngángurinn.

Af øllum þeim greinum Ritníngarinnar sem vitna um Guds stóra miskunar=hjarta, finnst þar eingin í gamla Testamentinu, og jafnvel allri Biblíunni, sem er huggunar=ríkari sorgbitnum sálum enn ord Drottins hjá Esaías er svo hljóda: Es. 49. v. 15, 16. Hvørt kann konan nockud ad gleyma sínu barni, svo hún sjái ecki aumur á Syni síns qvidar og þó hún gleymi því, þá vil eg þó ecki forgleyma þér; sjá þú! eg hefi teiknad þig á hádar mínar hendur.

Hin sorgbitna Síon edur Guds kirkja hafdi í næsta versi svo aumkunarlega klagad yfir sinni

hjartans ángist, og sagt: **Drottinn hefur yfirgéfid mig, Drottinn hefur forgleymt mér;** hér uppá svarar nú Drottinn, sem vildi hann segja: því talar þú þannig? Kann nockud ein Módir ad forgleyma sínu barni? uppá hid fyrra ordid: Herrann hefur yfirgéfid mig, svarar hann ecki, því þad er vel møgulegt ad Drottinn um stund og tíma kunni ad forláta sín børn, edur (réttara ad segja) sýnast ad forláta þau, þá hann hylur sitt andlit fyrir þeim, en þad er ómøgulegt ad hann forgleymi þeim eitt augnablik, þar fyrir undrar Drottinn sig hér ei heldur yfir þessari Síons kløgun: Drottinn hefur forlátid mig; en hitt er hún segir: Drottinn hefur forgleymt mér, þad finnst honum allt of nær sér gengid; hann leggur og orsøkina til, hvarfyrir þad er ómøgulegt, því, segir hann: eg hefi teiknad þig í bádar mínar hendur; hann samlíkir sinni vidqvæmu elsku til vor, vid þá elsku er ein módir hefur til þess barns hún ber á brjósti; vel má þad ské ad ein gód módir reidist vøxnu barni, þá þad hegdar sér illa, en hér brúkast ordid um þad barn, sem nýlega er komid af módur-lífi, því kann hún aunganveginn ad gleyma, þad er komid frá einum stad undir hennar hjarta, og liggur allt ofþúngt þar á, til ad gleyma því; en einkum auglýsir Drottinn, hvørsu ómøgulegt honum er ad gleyma sínum børnum, med þessum ordum: **Því eg hefi teiknad þig í bádar mínar hendur,** sem

vildi hann segja: hefdi eg ætlad mér ad gleyma Þér, því mundi eg Þá hafa innskrifad Þig í minar hendur? og hvad ætti eg þá ad gjøra af mínum høndum, ef eg vildi gleyma þér, því þú stendur mér þar æ fyrir sjónum? Ordid í høfud túngumálinu merkir handar-lófann, og sýnist hér meint til þeirra blessudu handanna, sem á krossinum voru gégnumboradar, þar hefur hann oss teiknad, ei med krít edur bleki, heldur med sínu eigin blódi; ei med penna heldur med járn-nøglum, ad hann aldrei kunni ad gleyma oss; og líka sem Davíd segir: gleymi eg þér Jerúsalem, svo verdi minni hægri hendi forgleymt, Ps. 137. v. 5; svo vill og Drottinn hér segja: þú þarft ecki ad vera hræddur um ad eg gleymi þér, svo lengi eg ei gleymi minni hægri hendi, já, bádum þeim, hvar þú stendur teiknud. Vendum oss nú til þess krossfesta Jesúm á Golgatha, og þá fáum vér ad líta þær útþøndu hendurnar, í hvørjar hann hefur oss teiknad, þar fáum vér ad líta hann sem svoleidis hefur lofad aldrei ad yfirgéfa oss. En hvørnin heyrum vér nú af hans egin munni, ad hann sjálfur sé yfirgéfinn? ad hann sjálfur í stærstu hjartans ángist hrópar: **Gud minn! Gud minn! hvarfyrir hefir þú yfirgéfid mig?** Mætti oss ei hér vid fallast hugur? Mættum vér ei hér út af þeinkja svo med sjálfum oss: ef Gud kunni ad yfirgéfa sinn eingétinn Son, og þad í hans

stærstu neyd, þá hann mest þurfti síns Födurs hjálpar vid, hvörsu mögulegt er þad þá ei ad hann forgleyma kunni oss, sínum óhlýdnu og óverdugu börnum; nei aungvanveginn, heldur þar þvert ímót, søkum þess ad Jesús var nú yfirgéfinn, þá er þad hreint ómögulegt ad hann kunni oss ad yfirgéfa, já svo ómögulegt sem þad er, ad hann kunni sínum egin Syni ad forgleyma, þar hann situr til hans hægri handar, svo ómögulegt er þad ad hann kunni ad forgleyma sínum börnum. Pér merkid þá, mínir elskanlegir! af því fáu er eg sagt hefi, ad þad fjórda ord Kristí á krossinum er eitt nærsta viktugt ord, sem mikid hefur í sér fólgid; svo beisk sem þau ord voru Jesú, svo sæt eru þau oss, þau mega líkjast vid staf Móísis sem vard ad ógnarlegum höggormi, þá Móses kastadi honum frá sér, svo hann vard hræddur og flýdi fyrir honum, enn þá hann eptir Drottins skipan greip um hans hala, vard hann aptur ad staf í hans hendi, hvarmed hann sídan gjördi mörg furduverk; þessi Jesú ord eru og í sannleika svo ógnarleg, ad vér megum skélfast fyrir þeim eins og Móíses og þeinkja: hafi þad svo tilgengid fyrir Jesú, hafi honum legid vid sjálft ad örvænta, og hafi hann verid af Gudi yfirgéfinn, ó! svo er þad úti med oss; hvör má þá kunna ad hjálpa oss? En tokum vér þessi ord í vorrar trúar hendur, þá munu þau verda vorri trú ad stirkvum studníngs staf, og vorum hjörtum til

sætustu hugsvølunar. Látum oss þá yfirvega hid fjórda lífsins ord á daudastundunni: Gud minn! Gud minn! hvarfyrir hefur þú yfirgéfid mig. Hvør ord vér álítum:

1) sem forundrunarleg og markverdug,
2) sem skélfileg, enn þó huggunarsamleg ord.

Þarí høfum vér ad hugleida:

1) Hans aumkunarlega kall.
2) Hans sárlegu umqvørtun.

## Útleggíngin.

Ad vera hjálparlaus í neydinni er þúngt, en ad vera vinalaus er næstum þýngra, þó er hid þúngbærasta af øllu þessu, ad vera aldeilis vonarlaus. Davíd var hjálparlaus og hafdi varla einn vin, en hann var ei vonarlaus; hann hafdi fyrirheit þarum, ad hans Gud vildi hann ei yfirgéfa, þessvegna segir hann: Fadir minn og Módir yfirgáfu mig, en þú Drottinn annadist mig, Ps. 27. v. 10. Enn þá hans hørmúng vard svo stór, ad honum fannst Drottinn hefdi sig ogsvo yfirgéfid, þá hrópar hann sárgrætilega á þennann hátt: O, Drotrinn! hvørsu lengi vilt þú svo øldúngis forgleyma mér, og hvørsu lengi byrgir þú þitt andlit fyrir mér? Psálm. 13. v. 2. Hefur Gud þá forgleymt nádugur ad vera, og af reidi sína miskunsemi

un innilukt? Ps. 77. v. 10. Þannig var því háttad fyrir Davíds Syni vorum Endurlausnara, hann var í sinni pínu ei einasta hjálparlaus, þar var enginn sem hans søk ad sér tæki; hann einn trad vínpressuna, og þar var enginn af fólkinu med honum, Es. 63. v. 3. Hann var og einninn nær því vinalaus, því hans eiginn Lærisveinar hofdu ei einúngis yfirgéfid hann, heldur og afneitad, og hneixlad sig á honum; hvørugt þetta lætur hann þó á sér heyra; en þá Gud hafdi hér á ofan svipt hann allri huggun og tilsinníng sinnar nádar, þad er: þá Gud hafdi hann forlátid, þad var hid sárasta af øllu því er hann lída mátti, þad kom honum, sem híngad til í allri sinni pínu hafdi þagad sem lamb, þad kom honum til, ei einasta ad klaga þar yfir, heldur og géfa neyd sína til kynna med megnum hljódum. Vér álítum svo í fyrstu, þetta hans aumkunarlega kall: Gud minn! Gud minn! hvarfyrir hefur Þú yfirgéfid mig? Nú yfirstód Jesú sterasta neyd, og uppfylltist hér Spádómur Esaíæ: Eg skygndist í kríngum mig og þar var enginn hjálpari; eg var í skélfingu og enginn studdi mig, heldur vard minn armleggur ad hjálpa mér og mín reidi, hún studdi mig. Es. 63. v. 5. Jesús sá hér ei annad enn þad sem mátti vera til ángurs; liti hann nidur fyrir sig, þá var þar ad sønnu hans Módir, en fyrir því hennar sál var nú ørmædd af sorg, svo gat þad ei

annað enn vakið hans pínu, Gyðíngar stóðu þar og enn nú og spottuðu hann; liti hann uppfyrir sig, þá var þar ei annað enn hin formyrkvaða sól; himininn sjálfur var reiður, eínginn Engill var nú sem vildi styrkja hann. Hann hafði hér eíngrar huggunar að vænta, utan af sínum himnesska Föður, svo hinn eingétni Sonurinn mátti nú segja, sem forðum hinn fortapaði Son: eg vil uppstanda og fara til Föður húsa; Lúc. 15. v. 18. Eg veit þó, að hann mun miskuna sig yfir mig; en hér voru og dyrnar aptur lokaðar, og engin huggun að finna, og eru hér framkomin vötn Ezechíelis Spámanns sem urðu æ dýpri og dýpri, og gengu honum loks yfir höfuðið, svo hann náði ei botni, og mátti annaðhvert synda eður druckna, Ezech. 47. v. 3—5. Jesú pína stóð nú og sem hæðst, svo hann mátti hrópa um hjálp og segja: Drottinn! vatnið gengur inn að minni sálu. Viltu sjá, syndug manneskja! hvað þínar íllgjörðir hafa kostað Jesúm, viltu rétt sjá Guðs straungu reiði yfir syndinni, þá lít þínum augum híngað, lít ei á það spott eður högg sem Jesús leið og jafnvel ei á hans beisku og blóðuga dauða; allt þetta var sem eckért að reikna á móti því sem hann leið á sálunni í grasgarðinum, þá hann sagði: mín sála er hrygg allt til dauða, og nú á krossinum þá hann hrópaði: **Guð minn! Guð minn! hvarfyrir hefur þú yfirgéfið mig?** Það eru þau orð sem eg

ætla að leggja útaf í dag, en jafnframt kann 'eg ei að neita, að svo opt sem eg skal um þau höndla þá skédur það æ með hrædslu og ótta; því þetta orð Kristí á krossinum, er ei einasta eitt skélfilegt heldur og

Eitt forundrunarlegt orð, já, svo forundrunarlegt, að það kann aldrei fullskírt að verða fyrir mannlegri skynsemi edur fullvel útskírast af mannlegri túngu. Hérum má hinn vísasti segja með Davíd: það er mér ofhátt, eg sæ það ecki skilið. Ps. 139. v. 6. Hvør mun þora að ætla það sé audskilið með hvørjum hætti Guð hafi kunnað yfirgéfa Guð? og hvørsu að Jesús, sem sjálfur var sannur Guð í einni óuppleysanlegri einíngu, kunni yfir því að klaga, að hann væri af Gudi yfirgéfinn? þá hann með sama hlaut að yfirgéfa sjálfann sig, því hann, Fadirinn og heilagur Andi eru eitt, og einn sannur Guð, og hann þar að auki sem Guð er við manndóminn samteingdur með einu óendanlegu og ósundurslítanlegu sambandi; Hvørninn kunni hann þá að vera af Gudi yfirgéfinn? var hann þá sjálfur ecki lengur Guð? og ef hann héck á krossinum sem eintómis manneskja, hvað stodar oss þá hans pína? Vér heyrum svo marga klaga yfir veröldinni að hún sé svo fölsk, yfir tímunum að þeir séu svo vondir, mønnunum, að þeir séu svo ótryggvir, og þess háttar fleira; en það heyrist skjaldan að nockur klagi yfir sjálfum sér,

ad hann sé svo vondur, og enn þá sídur ad hann sig sjálfann yfirgéfid hafi; Og sjá! þetta er þó þad sem Jesús hér yfir klagar. Gud var yfirgéfinn af Gudi, og þat er þó einastá einn Gud. Hvør fær þetta gripid? hvør þorir ad léisa úr þessu? Svo mikid er þó víst og oss vitanlegt, ad á Jesú, þá hann þetta taladi, hefur ad vísu þýngri qvøl legid, enn ad nockur mannéskja kynni þad ad skilja, miklu sídur med ordum útmála; Gud vardveiti oss þarfrá ad komast nockurntíma ad fullum skilníngi um qvalir fordæmdra, því þad kann ei ad ské utan med égin reynslu; þarfyrir fáum vér og aldrei med ordum til fulls útsagt, hvad þad var sem Jesús í Gethsemani og hér á Golgatha leid i sinni sálu. Þá hinn sæli Lútherus eitt sinn átti fyrir høndum ad leggja út af þessum ordum, hélt hann sér í nockra daga inniluktum frá ødru fólki, en þá nockrir dagar høfdu svo lidid fram, ad ekkért heyrdist til hans í húsinu og hann hvørki lauk upp edur ansadi þeim er á dyrnar kløppudu edur til hans kølludu, svo undrudust menn um hann og brutu lokkins dyrnar upp; fannst hann þá sitjandi í því innsta herbergi og studdi hønd undir kinn, hafandi fyrir sér sína Biblíu med þessum ordum uppslégnum: **Gud minn! Gud minn! hvarfyrir hefur þú yfirgéfid mig?** og þá hann var adspurdur því hann héldi sig þanninn inniluktann, svaradi hann nockud snøgglega:

meinid þid þad sé svo hægt ad koma sér nidur í því, ad Gud er af Gudi yfirgéfinn? Hann hefur og sídan sagt, ad hann aldrei án nockurskonar qvída hafi sér fyrir hendur tekid útskíring þessara orda; og víst er þad, ad vor skilníngur verdur likt sem frá sér numinn, þá vér nidurstígum í þennann grunnlausa leindardóm; og þá vér loks þykjumst ad nockruleiti skilja og viljum útfæra med ordum þad vér meinum oss grípid hafa, þá verdur oss hreint ordaskortur. O hvílík dýpt audæfanna og Guds speki. Rom. 11. v. 33. Brunnur allrar huggunar, er hér huggunarlaus, einasta þessvegna ad vér mættum huggun ødlast. Þessi Kristí ord eru þá svo undrunarverd og óskiljanleg sem sagt er, en aungvu ad sídur liggur oss mesta makt á ad yfirvega þau, því eg má segja, ad af øllu því hann leid, þá eru þessi, annars skélfilegu ord, oss hin huggunarríkustu; hefdi hann ei lidid þá bitru Helvítis ángist er vér sjálfir lída áttum fyrir vorar syndir, þá hefdi øll ønnur hans qvøl verid ónóg til ad stilla Guds réttlæti; hvørt hann hefur meira lidid á sálunni í Gethsemane edur á Golgatha kann eg ei víst ad segja, nema ad því leiti ad hann leid þar alleina á sálunni, þá hafdi enginn høndur á hann lagt, hin ónáttúrlega qvøl sálarinnar var þad alleina sem gjørdi svo ónáttúrlega verkun í hans líkama, ad hans sveiti var sem blódhnicklar þeir ed féllu á jørdina. En hér á kross-

inum leið hann ei alleina eins mikið á sálunni, heldur sýnist og að hér hafi hans qvøl varað leng-ur, hann var hér og ørmæddur, en ei kom neinn Eingill til að styrkja hann; jafnframt leið hann hér þá allrastærstu qvøl á líkamanum. Þar stríddi hann að sønnu undir byrdi syndanna, Guds reiði, Løgmálsins bølvan og Helvítis angist, en hér stríddi hann ei að eins við allt þetta, heldur og þaradauk við ørvænting og mistraust um sjálfann sig, um Guds náð, og linun sinnar þjáníngar; eg segi ecki hér hafi verið hugarvíl, heldur stríð við hugarvíl og ørvænting; því um þessi Jesú orð á madur að hugsa og tala með stórri vareigð. Eg segi og, að Jesús bæði á sál og líkama hafi liðið alla þá sárustu píslar er verða mátti, hvað þó er svo að skilja, að líkamans qvøl, svo stór sem hún var, varð honum hér ei svo mjøg óbærileg, sokum þess er lá á sálunni. Ein manneskja sem er klipin með glóandi taungum, mundi ei stórt til þess finna, þó ein fluga undir eins stíngi hann annarstaðar; Vor Frelsari leið nú svo mikið af Satans glóandi taungum og píum á sinni sálu í þessar 3 stundir liðlángar, að hann fyrir því ei stórt fundið hefur til útvortis þjáníngar; allt eins og sálarinnar føgn-uður hjá píslarvottunum gjørði það, að þeir tíð-um sættu nærsta lítið um það sem lá á líkamanum, svo skéður það og einninn fyrir þeim sem er í stórri sálarángist, að hann lætur ecki á sér festa

neinar útvortis meinsemdir. En engin manneskja ífrá fyrstu sköpun inn til dómadags, hefur kunnad edur mun kunna þvílíka sálar qvöl ad líða sem Jesús hér leid, hvøred pressadi útaf hans munni þessi þúngu andvørpunar ord: **Gud minn! Gud minn! hvarfyrir hefur þú yfirgéfid mig?** Vér høfum svoleidis nóckud athugad hvørsu þessi ord eru forundrunarleg, nú viljum vér þarnæst med fám ordum þad til íhugunar færa, hvørsu þau eru einninn næsta markverdug.

1) Þad eru svo margar kríngumstædur sem gjøra þessi ord svo mjøg merkileg og eptirtektaverd. Þad finnst fyrir mørgum hundrad árum spádómur um þau hjá Davíd, Sálminum 22. hvør Sálmur ad svo klárlega talar um Kristí pínu, allt eins og Davíd sjálfur hefdi verid þar nálægur, og séd hvørsu allt tilgéck. Hann byrjast med þessum ordum: **Gud minn! Gud minn! hvarfyrir yfirgafstu mig,** og med því Davíd hefur byrjad á þessu, sem er líkasem hædin og dýptin af hans þjáníngu, og þad sem í hans qvøl og pínu allt annad yfirgéck; svo hefur og einninn Davíds Son Kristur viljad med hárri røddu úthrópa þessi ord, uppá þad sérhvør vita skyldi; ad allur Sálmurinn um sig høndladi. Ad ég tali ei um hvørsu merkilegt þad er, ad Gydíngar høfdu til sids, hvørn morgun þá þeir óffrudu, ad lesa þennann 22 Davíds Sálm; og er yfirskriftin á hoønum þessi: Sálm-

ur Davíds fyrir ad syngja, útaf þeirri Hindínn; sem árla var veidd; og var þess meiri von ad Gydíngar hefdu vaknad loks hér vid, og sannfærdir ordid um sína rángsleitni. En hvad mundi þó þetta hafa hjá þeim verkad? án efa þad sama sem Guds ord verkar enn nú hjá hinum forherdtu; þeir hlóu og spottudust þar ad, heitir þad. og søgdu: bídum, látum sjá hvørt Elías kémur ad taka hann ofan.

2) Hvørsu merkileg þessi ord eru, sjáum vér enn framar þaraf, ad hvørki Mattheus né Marcus hafa dyrfst ad umbreyta þeim, edur útleggja þau á þeirra egid túngumál, án þess ad framfæra þau í sama máli sem Jesús þau taladi, nefnilega: því Sýrlendska, hvad þó allskjaldan er venja þeirra; fyrir þessum Jesú ordum alleina bera þeir þá lotníngu, ad eptirláta oss þau á sømu túngu sem hann þau taladi; og víst hefdum vér ei annars feingid skilid, hvad hinum forherdtu Gydíngum hafi gengid til þeirra hádyrda er strax hér á eptir fylgdu: Látum sjá hvørt Elías kémur ad hjálpa honum.

3) Markverdug eru einninn þessi ord af sinni nidurradan, því þau standa midt í midid. Í hinum þremur undanførnum ordum sorgar Jesús alleina fyrir ødrum, en í þessu og hinum eptirkomandi, álítur hann sjálfann sig og sinn eginn hag; hérmed hefur hann kénnt oss hvørnin vér skulum

ofs til daudans búa, hvarum talad er útaf því ødru ordinu. Héradsuk hefur Jesús ei ad eins í lífinu, heldur og á sínni daudastundu, med þessara Sjø Orda innihaldi og nidurradan sýnt oss, hvorsu hans gjædsku hefur æ verid meir um adra hugad enn sjálfann sig, og þarmed stadfest sitt bod til vor fyrir Páls munn, Cor. 10. 14. Enginn leiti þess sem hans er, heldur sérhvør þess, sem annars er.

4) Framar þessu þá eru þessi Jesú ord nærsta merkileg, søkum þess lánga tíma, er leid frá því hann taladi hin ønnur ordin, og hafa þad verid ad minnsta kosti heilar þrjár stundir. Þad má ráda af Gudspjallamønnunum, ad bædi þau þrjú fyrstu og þau þrjú sídustu ord hefur hann talad nærstum því í einu strikloti; en í millum þess þridja og fjórda ords, hefur verid lángur stans, stór kyrrd, og djúp sorg á allar sídur, því þá skédu þau stóru undur, ad sólin formyrkvadist yfir allt landid; en í þær þrjár stundir hefur Jesú sála átt í þeirri ógnarlegustu orustu, sem svo hefur nærri honum gengid, ad hann alla þá tíd hefur aungvu ordi uppkomid, fyrrenn hann fékk andrúm þá sólin tók aptur ad lýsa. Allir hafa, ad vonum, í sogdum býsnum verid í kyrrd og þøgn, og gétur þess ei, ad neitt sérdeilis gjørst hafi alla þá tíd. En varla var býsnunum og skélfingunni lokid fyrr enn illvyrkjarnir aptur tóku til sinnar fyrri ydju, sem ek-

ért hefdi í ordid, svo lítid hjálpa Guds ord og táku hja forherdtum manneskjum.

5) Eru þessi ord harla merkileg søkum hinnar stóru sólarinnar formyrkvunar, sem var þeirra undanfari, og gjørdi þau svo ofbodsleg. Þessi formyrkvun var ei einasta aldeilis ónáttúrleg, því þá stód túnglid í fyllíngu, heldur skédi hún og svo gjørsamlega, því þar stendur ad sólin hafi misst sitt skin, og myrkur gjørdist yfir allt landid. Nefnda formyrkvan kann eg ei svo mjøg ad álíta sem Guds reidis-teikn yfir Gydíngum, ei heldur ad Gud hafi þar med sýna viljad, ad Persónan sem leid væri ei einúngis madur, heldur sannur Gud, allt þetta kann ad hafa sín líkindi, en þau eru þó ei fullnóg, því hvarfyrir mundi þá ei sólarinnar formyrkvan hafa skéd sem hin ønnur teiknin vid Kristí dauda? hitt ætla eg, ad þessi sólar formyrkvan hafi verid ein útvortis afmálan uppá Jesú innvortis qvøl, sem gaf ad merkja, ad nú lægi svoddan pína á hans sál sem enginn kynni ad skynja edur skíra. Hér voru nú þær tvær stóru Sólir formyrkvadar, og þad med svoddan formyrkvan sem aldrei hefur skéd og aldrei heldur mun ské. Sú náttúrlega Sólin misti hér sitt skin, hvad aldrei náttúrlega skédur utan med þeim hætti ad túnglid byrgir fyrir oss hennar geisla, þessi hennar furdanlega formyrkvan, var aptur ein þýdíng uppá vora réttlætis Sól sem nú ogsvo var formyrkvud, þá ljós Guds

andlitis var fyrir honum hulid, og Guds reidis dreggjum steipti yfir hann; allt hvad Andskotinn megnar, og má yfir þeim fordæmdu, þad mátti Jesús hér lída; Allar vorar myrkvú syndir, øll Guds reidi yfir þeim, øll Andskotans makt yfir þrælum syndanna, allt þetta setti sig ímillum hans sálar og Guds nádarríku huggunar; Ecki er heldur ólíkleg sú meiníng nockurra af enum gømlu lærifedrum, ad midt í þessu myrkri hafi ein mergd af Helvítis árum sveimad fyrir hans augum til ad skélfa hann, því eflaust hefur Andskotinn ecki setid sig nú úr færi ad steipa honum í hugarvíl og ørvænting; en hvad þarum hefur verid edur ei, þá var formyrkvum Guds nádarljóss í sálunni, og sjónarmissir gudlegrar huggunar, einasta sú sára qvøl er hann hér yfir klagar; svo engi á henni stód, gat hann ecki talad, en nú ad hann tók ad finna nockurn léttir fyrir hjartanu og honum lítid tók ad byrta fyrir augum, þá kallar hann hárri raustu: **Gud minn! Gud minn! því hefur þú yfirgéfid mig?** Sem vildi hann segja: O! þetta voru þúngbærar og lángar þrjár stundir; hvornin kunnir þú ad láta mig svo leingi vera í þeirri ángist; en Gudi sé lof, nú er hún svovídt á enda; nú vil eg gjarnan deya. Og um níundu stund, kalladi Jesús hárri røddu, segir textinn. O! þá níundu stund! lát aldrei syndug manneskja þá óstund yfir þig koma, ad þú gleymir þessari þinni endurlausnarastund,

hún var honum rétt ein myrkra stund, og Helvítis makt, en ofs er hún ordin ein lífsins stund, og sáluhjálpar-kraptur, því á þessari sinni daudastundu innsigladi hann allar sínar píslir, og undir eins vora sáluhjálp.

6) Ad sídustu eru þessi ord harla merkileg af því megna hrópi, því Gudspjalla-madurinn segir ei einasta ad hann hafi kallad, heldur og hann hafi kallad med hárri roddu, hvarmed Jesús hefur ei einasta viljad sýna, hvad skélfilega ángist hann hafi útstadid, heldur og, þá hefur hann svo þessi, sem þau hin sídustu ord med megnu kalli og hárri raustu framborid, til bevísíngar þarum, ad hann ei, sem adrar deyandi manneskjur, af hvørjum mál og raust plagar ad draga, af nockrum vanmátt dáid hafi, heldur sjálfur sitt líf aflagt.

Og er þad nærsta eptirtektaverdt, ad David í sínum ádurnefnda 22 Sálmi, hvar hann ítrekar þessi Kristí ord: **Gud minn! Gud minn! hvarfyrir hefur þú yfirgéfid mig?** þar segir hann í hinu þridja versi: minn Gud! á deginum kalla 'eg til þín, og hértil brúkar hann eitt ord sem þýdir ljóns øskur; Ljónid øskrar, segir Spámadurinn, hvør skyldi ei skélfast. Amos. 3. v. 8. Jósúa hrópadi einusinni, og sólin stód kyrr. Jos. 10. v. 13. O! heyrid þér himnar! Guds Son hrópar; þad er furda ad náttúrunnar kraptar fá hér stadist, ad allir Einglar koma ei til hjálpar, og allar lifandi sképnur verda ei andvana vid

þetta hróp. En hafi nú hrópid verid svo skélfilegt, svo var þad sem hann hrópadi yfir, þó enn þá skélfilegra, og er þad hid sídara er vér viljum yfirvega, og álíta þessi ord sem skélfileg og ógnarleg. Vér høfum heyrt hans aumkunarlega kall, látum oss nú heyra

Í annann máta hans hryggilegu umqvørtun og þá neyd er hann klagar yfir: **Gud minn! Gud minn! því hefur þú yfirgéfid mig?** Sjá! hér er atridid af øllum Kristí píslum, og megum vér bædi tala og hugsa þar um med stærstu vareigd. Á eina sídu megum vér ei þeinkja ad þetta hafi einúngis verid ein freistni fyrir Jesú, svo hann hafi þó raunar ei verid yfirgéfinn; Nei aungvanveginn, hinn sannordi Jesús segir ei hlutina ødrvís enn þeir eru, þad er ei hans ásetníngur ad gjøra sínar píslir stærri í vorum augum enn þær voru í sjálfu sér; hann var virkilega af Gudi yfirgéfinn, og sú qvøl var stærri enn vor húgskot fái þad gripid edur vor túnga útmálad; þá vér á sídan komum í þann himneska Há-skóla, mun Jesús skíra oss best þar frá; þá munum vér skilja þad til fulls. Á þá adra sídu megum vér vel varast ad þeinkja, þad Gud hafi hér svoleidis yfirgéfid Jesúm, ad hann sjálfur ei hafi verid Gud, þá hann þetta taladi, edur ad samteingíng þeirrar guddómlegu og manndómlegu náttúru hafi hér aldeilis uppleist verid. O! nei! Gud komi til!

Þessvegna er Kristí pína svo krøptug, ad það var sannur Guð sem leið; sálin sem hann fól Guði á hendur var Guðs Sonar sál, hans líkami sem lá í grøfinni var Guðs Sonar líkami, hans úthellta blóð, var ei að eins einnrar manneskju, heldur og Guðs Sonar blóð, og væri ei svo, þá væri kraptur Kristí pínu harla lítill. Því segir Páll: Guð var í Kristó og forlíkaði heiminn við sjálfann sig. 2 Cor. 5. v. 19. Sjáum vér svo hér af, að sú sálar-ángist er hann qvartar hér um, var Guðs Sonar sálar-ángist, því annars hefði hún oss að litlu gagni orðið.

En hvað egum vér þá að meina hér um? Eg fæ það ei að øllu leiti sagt, því það er ógrípanlegt, þó kann eg fyrir víst að segja þetta, að Guð hefur hann yfirgéfið fyrst með því, að svipta hann allri guðlegri huggun og tilfinníng Guðs kærleika, þarnæst með því, að bæta ofan á þennann sviptir qvalafullum tilfinníngum í sálunni.

Hvað því fyrra viðvíkur, þá hafði Jesús í sínni pínu haft innvortis hugsvølun og gleði í sálunni, með fullvissu um Guðs kjærleika, og því leið hann þær bitru píslir án efasemi og hugar-víls, en þá hann átti til þess að finna hvað allrar veraldarinnar syndir voru þúngar, er hann hafði uppá sig tekið, og ásamt þeim bera allt syndanna straff, Guðs reiði og grimd Andskotans, þá mátti hann sviptast øllu því, er kunni létta undir þessa byrði,

því annars hefdi ei Jesús allt það lidid er vér líða áttum. Munu nockud þeir fordæmdu í Helvíti hafa ljós Guds andlitis, edur smeck hans nádar? Nei, líka sem hann í sínum þorsta féck ei einn vatnsdropa ad svala sinni túngu, heldur gall og edik, sem jók framar þorstann, svo féck hann í sinni sálarángist ecki einn dropa huggunar af sínum himneska Födur, og ecki eitt ans uppá alla hans andvarpan, heldur miklu framar fann hann ei utan reidi og straff, í stadin fyrir hægd og hugsvølun; nú átti Jesús ad standa í vorn stad, því mátti Gud ei ødruvísi gjøra vid hann, enn hann vildi gjøra vid oss, eptir sínu stránga réttlæti, ef vér sjálfir lidid hefdum. Hér var ástadt fyrir Jesú, sem þeim manni, ed staddur er í dimmu húsi, fullu af gersemum, ad hann hefur eckért gott þar af fyrir dimmunni; vorar óteljandi syndir, þeirra straff, og Guds reidi, hafa hér umkríngt Jesúm sem þykt myrkur og þoka, svo þó hann væri Guds elskulegur Son, þá kunni hann hvørki ad sjá það, né til þess finna. Hérysir klagar hann sjálfur fyrir Davíds munn: óteljanleg qvalrædi hafa umkríngt mig, mínar syndir, þær høndludu mig, svo eg kann ecki ad sjá, og mitt hjarta, það hefur yfirgéfid mig, Psálm. 40. v. 13. Í þessum ordum útskírir hann sjálfur, hvarí þad var falid, ad hann var af Gudi yfirgéfinn; þetta voru þeir súrustu dropparnir og rétt dreggjarnar af Guds reidis kaleik, ad Gud var ordinn hans strángi

dómari, það var honum óbærilegt, og þaryfir klagar hann; æ minn Guð! hvørſu hefur þú nú gétað, og það ſvo lengi, yfirgéfið mig!

Hvað því ſíðara viðvíkur, ſem er hvað hann mátti líða á ſálunni, auk þeſsa ſviptirs guðlegrar huggunar, þá var það ſyndarinnar beiſkleiki og brodd-ur af løgmálsins bølvan, því nú var hann ein bøl-van orðin vor vegna, hann fann til Andſkotans heiptar, fordæmíngarinnar hørku og helvítis elds; í einu orði, hann fann til þeſs ſem vér aldrei kunn-um til að finna, eður að ſkynja í þeſsu líſi, einn fordæmdur kynni oſs betur þarfrá að ſegja enn nock-ur lifandi maður; hann fann til ſyndarinnar beiſk-leika, ei á þann hátt, ſem ſyndarinn í ſínu ydrunar-verki, heldur ſem þeir fordæmdu. Hann fann og til Guðs reiði; en mundi þá Guð reiðſt hafa við ſinn eiginn Son? Nei, í øllu þeſsu var Jeſús Guðs elſkulegur Sonur, en þeſsa ſína elſku huldi nú Guð fyrir honum, og høndlaði nú ei øðruvíſi við ſinn Son, enn einn ſtrángur dómari, ſem krefſt fulls betalíngs ſkuldarinnar án nockrar uppgjafar.

Að hann og liðið hafi fyrirdæmíngu, mun víſaſt þykja ofhardt að qveðið, en það er ecki; eður því mundi það hardara, enn það Páll ſegir: að hann hafi orð-ið ein bølvan fyrir oſs. Gal. 3. v. 13. Miklu framar er þetta vor ſtærſta huggun; vei oſs aum-um manneſkjum, ef Jeſús hefði ei liðið allt það vér áttum að líða. Hegníngin hefur á honum legið að

vér hefdum fridinn; Es. 53. v. 8. Og ef hann þad leid, svo mátti þad vera nú strax; eptir þessar þrjár stundir lidnar sagdi hann: **Þad er fullkomnad**; máské einhvør vilji segja: hvorsu mátti hann med þessari sinni pínu, sem ei varadi utan þrjár stundir, Gudi fullnustu gjøra? vildi Gud láta sér þar med lynda, þá kynni hann láta hvørn einn af oss lída Helvítis píslir í þrjár stundir, og svo væri þarmed búid þó qvalirnar væru aldrei svo bitrar, þad kynni vera þad sama, þrjár stundir lída skjótt.

En gæt þess, ó manneskjá! ad hér er ødru máli ad gégna fyrir oss; hann var óendanleg persóna, og því er hvørt augnablik hans pínu af óendanlegum krapti; þad er og eingum manni møgulegt ad lída þad allraminnsta af því er Kristur leid, án þess ad falla í syndsamlega ørvænting, því er þad, ad píslir fordæmdra fá aungann enda, og þeir géta aldrei fullnægt Guds réttlæti, ad þeir syndga sifeldt á móti Gudi med ørvæntingunni sem er hin stærsta af øllum syndum; þar var enginn hvørki á himni edur jørdu, sem eitt augnablik þola kunni þvílíkar qvalir utan alleina almáttugur Guds Son; ad Andskotinn í þessari Helvítis - ángist hafi freistad hans til ørvæntíngar, eins og hann ádur gjørt hafdi á eydimørkinni, er ósefanlegt, en ad Jesús hafi ei þar af sigrast látid, sýna þessi hans ord: **Gud minn! Gud minn!** Hann ei einasta kallar og vonar til Guds, heldur og hefur trúartraust

til hans sem síns Guds; hann áleit hann, í øllu þessu, sem einn réttlátann dómara, einn heilagann Gud, og þó samt sinn Gud, er ad sønnu hefdi sig yfirgéfid í þessari hørdu orustu, en mundi þó ei útskúfa sér eilíflega. En mun nú Jesús ei hafa vitad þetta fyrir, og þarfyrir med þessum ordum segja viljad: þess hafdi eg ecki vænt af þér, minn Gud! ad þú mundir þannig med mig fara, ad yfirgéfa mig svo! O! nei, þar kom eckért fram vid hann utan hvad ádur var af þeirri heilegu Þrenníngu, og þessvegna sjálfum honum, yfir sjálfum honum ályktad; enn sídur sagdi Jesús þetta af óþolinmædi, edur ad hann vildi gánga í dóm vid Gud, æ nei! hann hafdi ádur sagt: **Þó ecki minn, heldur verdi þinn vilji,** heldur vildi hann hérmed sýna oss, hvørsu óbærilega qvøl hann hefdi tekid úr í þessar þrjár stundir, hvad oss hefdi aldrei í hug komid, hefdum vér ei heyrt þad af sjálfs Jesú munni. Hann spyr þarum, uppá þad vér alvarlega hugleidum, hvørsu því sé háttad ad vera af Gudi yfirgéfinn; hann spyr: hvar fyrir? svo vér skulum þreyfa hendinni í vorn eginn barm, og þeinkja svo med sjálfum oss: ó minn Jesú! hvarfyrir ertu yfirgéfinn, utan fyrir vora skuld? fyrir þad vér høfum yfirgéfid Gud, fyrir þad vorar syndir hafa gjørt adskilnad í millum Guds og vor, Es. 59. v. 2. Vér høfum ei einasta í Adam, heldur og í eigin persónu yfirgéfid Gud, og áttum því eilíflega frá hon-

um að útskúfast, hefðir þú, vor borgunar-maður, ei verið í vorn stað yfirgéfinn; þessvegna, Drottinn Jesú! svo lengi vér nú ecki yfirgéfum þig, kann Guð ei að yfirgéfa oss, því það er af honum svarið: að hvør sem á þig trúir skuli aldrei fortapast, heldur hafa það eilífa líf, Jóh. 3. v. 16.

Vér høfum svo nærst komist réttri meiníngu þessa spursmáls. Látum oss nú enn framar íhuga þá helstu huggun og lærdóma, er vér af þessu hans orði draga kunnum.

Svo skélfilegt sem þetta orð var fyrir Kristum, svo huggunarríkt er það fyrir oss. Vér skulum aldrei að eilífu verða af Gudi yfirgéfnir, svo lengi vér í lifandi trú holdum oss til hans; Séum vér neyðstaddir, svo oss sýnist útgjørt um oss, þá er þó ei svo; því vér høfum hans orð: Eg em hjá þér í neyðinni, eg vil þér þaðan útryckja, og þig vegsamlegann gjøra. Ps. 91. v. 15. Já þá allir vinir og øll veroldin hefur yfirgéfið oss, þá heitir það þó fyrir oss sem Postulanum Páli: þeir yfirgáfu mig allir, en Drottinn stóð hjá mér og styrkti mig. 2 Tím. 4. v. 16. og sem fyrir Davíð: Faðir minn og Móðir yfirgáfu mig, en þú, Drottinn! annaðist mig. Ps. 27. v. 10. Og ei einasta þetta, heldur høfum vér útaf þessu Jesú orði enn þá aðri gleði og huggun, sem er: að þá þar kann jafnvel að að koma, að oss sýnist, sem vér séum einninn af Gudi yfirgéfnir, á freistíngar tím-

anum, svo vér finnum aungva huggun, eður heilags Anda verkan í sálunni og ætlüm oss þessvegna stadda í sömu neyd sem Jesús hér, jafnvel þó vér séum það ecki, og þykjumst því med sama rétti hafa ad klaga sem hann: **Minn Gud! því hefur þú svo yfirgefid mig?** edur sem Job: sjá! þó eg kalli, þá heyrir hann mig þó ecki, hvarfyrir byrgir þú þitt andlit og heldur mig fyrir þinn óvin? Job, 3. v. 24. Og er það víst, ad slíkt eru þær herfileguſtu qvalir sem einu Guds barni kunna til ad falla, en þó eru það margir sem slíkt hafa mátt reyna, það er Guds verk ad svoddan uppáfellur í þeirra ydrunar bardaga, svo öll óklárindi sem eru í þeirra hjörtum samansafnud, megi líkt sem frá botni upprætast; því ega Guds börn lángtum hardara í sínu ydrunar-verki enn heimsins börn, þá koma þeim jafnvel fyrir sjónir þær syndir er þau aldrei þecktu né þeckt hefdu, nema Gud med þvílíkum stormi hefdi uppvægt þeirra samvitskur. Já, það skédur og svo þá, sem lengi hafa í trúnni smackad, hvad sætur Drottinn er og fundid í þeirra sálum, ljós, líf og gledi heilags Anda, það skédur þá, segi eg, allt í einu, ad þetta verdur sem einn draumur í þeirra hugskots augum, þeir trúa ei ad þeir hafi nockurn tíma haft það, heldur ætla ad Andskotinn þar med hafi verid ad gabba þá, þeir sjá nú ei utan eintómis audn í þeirra sálum, en finna aungva hægd edur hugsvöl-

un, þá þeinkja þeir, Gud hafi víst yfirgéfid þá; og er þetta þad sem Ritníngin svo opt nefnir Helvíti, Helvítis Port og Belíals becki; en þessi freistni kann aungvum til ad falla, utan Guds bornum, því þeir ógudlegu háfa aldrei smackad Guds kjærleika, og kunna því ei ad sakna háns, edur hryggjast vid háns missir, þeir sakna ei utan líkamlégs munadar; en þessi søknudur og sturlan ec einasta merki Guds barna, og plagar Andskotinn, þá svo er ástadt, ad innskjóta þeim vondum hugsunum um Gud, og þeirra sáluhjálp. Í slíku tilstandi, segi ég, finnum vér huggun í þessu ordi Jesú, já tvøfalda huggun; þad fyrst, ad hann sjálfur hefur mátt reyna hvad þúngt þad er, ad vera yfirgéfinn af Gudi, þéssvegna samkíniſt hann vorum breiskleika, og bidur fyrir oss; þarnæst, ad hann vill freisa oss af neydinni, því hann hefur med sínum dauda og ángist tekid broddinn frá vorum dauda og vorri ángist; svo þó vér rásum í myrkvum dal og daudans skugga, þá er Drottinn hjá oss, hans vøndur og stáfur hugga oss, Ps. 23. v. 4. En falli þad oss svo þúngt, þá oss alleina sýnist ad Gud hafi oss yfirgéfid, ó! hvílík ofbodsleg ángist má þad vera, þá þad skédur virkilega, en þad héndir ei adra enn þverbrotna gudleysíngja, um þá kunnum vér heldur ad segja, ad þeir séu yfirgéfnir af Gudi á sama hátt og Jésús vak, ad hann ei ad eins feli sig fyrir þeim og snúi vid þeim bakinu, heldur og aldeilis

svipti þá sinni náðar=náðist; þó er þetta ein ólucka sem þeir ei finna hér vikið til, utan svo sé, að Guð láti þeirra samvitsku uppvakna, og við þessa ógnar qvøl sem einn eld, gæti frelsað þá; með øðru móti finna þeir ecki í þessu lífi, hvað það sé að vera af Guði yfirgéfinn, en þar í mót munu þeir á síðan, því sárara til þess finna, um alla eilífð. Vei þeim, segir Drottinn, nær eg er frá þeim vikinn, Hós. 9. v. 12. Hvað óþólandi það er, að vera svo af Guði yfirgéfinn, kann Cain að segja, sem flackaði fyrir utan ró með nagandi samvitsku, það kann hinn örvinglaði Júdas að segja, sem leitaði huggunar í snørunni, og hljóp út í eldinn, svo hann skyldi ecki brenna sig, já það kunna þeir fordæmdu bést að segja, sem eru eilíflega útilókaðir frá Guðs blíða andlitis ljósi; því svo segir um þá ógudlegu; Deut. 31. v. 17. Í þann tíma mun mín reiði geysileg verða yfir þeim, og eg mun yfirgéfa þá, og byrgja mitt andlit fyrir þeim, svo að þeir skulu foreyddir verða.

Vor lærdómur útaf þessu Jesú orði skal vera sá, að vér ei einasta þaraf hugleiðum, hvað mikið Jesúm hafi kostað vor endurlausn, að hann þannig var yfirgéfinn af Guði vor vegna, heldur og einninn að vér tökum oss vara, að yfirgéfa Guð, og að þeir sem hafa yfirgéfið Guð, leiti Drottins í tíma, á meðann hann er að finna, og kalli á hann á meðan hann er nálægur. Hug=

leid, syndug manneskja! hvad þad hefur kostad Kristum ad frelsa sálu þína, viltu nú í stadinn yfirgéfa hann? Viltu nú mótþróanlega hafna þeirri huggun, ad Jesús var fyrir þína skuld yfirgéfinn? Gjættu ad, hvad þú gjørir, þú yfirgéfur hann, þá lifandi uppsprettu, og hvad fær þú aptur? Harla lítid, eitt stycki brauds, einn hnefa bygg=mjøls, segir Drottinn. Ezech. 13. v. 19. Einn svaladryck af ófrjálsu vatni. Ordsqv. B. 9. v. 17. Eina augnalyst, eitt fánýtt hrós fyrir mønnum, já slétt eckért, ó! hvílík eymd og ólucka mun hér á eptir fylgja uppá sídkastid; ef Guds Son mátti svo mikid lída fyrir annara syndir, hvørsu mun þad þá gánga ydur, þá ydar egin syndir koma yfir ydar høfud; hafi hónum um lítinn tíma verid óbærilegt ad vera af Gudi yfirgéfinn, hvørsu mun þá ydur vegna sem slíkt þola megid um alla eilífd? Þér sætid nú ad sønnu ecki þarum, hvørt Drottinn yfirgéfur ydur, edur ecki, þér finnid harla lítid til þess, já ydur þætti vænst um ad Gud léti ydur aldeilis kyrra, og skipti sér eckért af ydur; en hvørsu vill þad fara, þá þér skulud eilíflega útrekast frá hans augsýn? Allir þeir sem frá þér víkja, munu fyrirfarast, þú glatar þeim øllum, sem hóranir drýgja á móti þér, segir Davíd. Ps. 73. v. 27. Nei, syndug manneskja! heyr þó hvørsu Jesús hrópar, fyrir þínar sakir: Gud minn! Gud minn! því hefur þú yfirgéfid mig?

Sé þad nú hjá þér nockur vidurkénníng til Jesúm hérfyrir og nockur rækt til þinnar egin sálar; þá yfirgéf nú og afneita, øllu því er kann ad halda þér aptur, ſvo ad þú gétur ei ſtadfaſtlegá fylgt þínum Jeſú; hald þér ſídan faſt vid hann, og ſeg í þínu hjarta: eg ſleppi þér ecki fyrr enn þú bleſsar mig; trú þú mér, hann mun þá aldrei ſleppa þér, hvørki hér í tímanum, né ſídar í eilífdinni.

O Herra Jeſú! vér reidum oſs þá uppá þetta þitt ord, yfirgéf oſs aldrei í vorri neyd, og gleym oſs aldrei í vorri ſorg; vér þøckum þér af innſta hjarta, fyrir þetta þitt ord, og þær hugganir og lærdóma er vér þarí ødlaſt høfum; þú hefur ſvo dýrt keipt oſs, því ſkyldir þú þá ei eiga oſs? þú hefur ſvo dýru borgad oſs, ad þú mátt vel bíhalda oſs. Vor trúfaſti Gud! þú hefur fyrir vora ſkuld yfirgéfid þinn eingétinn Son, nú bidjum vér þig fyrir hans ſkuld, yfirgéf oſs ecki. Herra Jeſú! þú ſem varſt yfirgéfinn, ſvo vér aldrei yrdum yfirgéfnir, vardveit oſs fyrir allskonar ſynd, hvarmed vér bædi yfirgéfum þig, og þú neydiſt til ad yfirgéfa oſs; vér reidum oſs uppá þína miſkun, og ſannſøgli, ad þú aldrei ſláir hendinni af oſs, helſt í vorri

síduſtu neyd, þá allir adrir hafa yfirgéf- id oſs, ſtattu þá hjá oſs med þínum krapti, og innleid oſs i þína dýrd, hvar vér aldrei framar kunnum þig ad yfir- géfa, edur þú oſs, ad eilífu! Amen.

# Fimmta Prédikun

út af

## Því fimmta Kriſtí Ordi á Kroſsinum.

Jóh. 19 Kapítula. v. 28. 29.

Eptir þad, þá Jeſús ſá, ad allt var nú fullkomnad og ad ſkriftin yrdi upp- fylld, þá ſagdi hann: Mig þyrſtir; og þar ſtód eitt kér, fullt af ediki, en þeir fylltu einn njardar-vøtt med edik, logdu hann um yſop, og báru þad ad hans munni.

## Inngángurinn.

Þad var ein undarleg lyſt, og furdanlegur þorſti er David eitt ſinn feck, þar var eckért ſem

honum kunni ad svala utan vatn, og eckért vatn smackadist honum, utan vatnid, undan borgarhlidinu í Bethlehem; hann sagdi: hvør vill sækja mér ad drecka af þeim brunni í Bethlehem undan borgarhlidinu, 2 Sam. 23. v. 15. Philistearnir voru innfallnir í hans land, og høfdu ásamt ødrum í borginni inntekid hans fædíngarstad Bethlehem, svo þetta vatn var ei audfengid. Varla er þad ad ætla þetta hafi verid líkamlegur þorsti; því skyldi David, einn Kongúng þyrsta eptir vatni í einu landi, hvar þad var yfirfljótanlegt vín, og látum vera, hann hefdi meir langad í vatn enn vín, gat hann þá ei feingid þad med hægra móti annarstadar í einu landi sem var fullt af heilnæmum vatnsbrunnum? Nei, David hefur hvørki haft hér náttúrlegann þorsta né meint til náttúrlégs vatns, því þá nockrir kappar høfdu óformerkt brotist eptir þessu vatni, vildi hann þad ei drecka, heldur hellti því á jørdina; hvarmed (sem nockrir meina) hann gaf tilkynna sinn þorsta og gyrnd eptir fríun síns fædíngar-stadar, svo þessi brunnur undir borgarhlidinu mætti sér og sínum mønnum opinn standa; edur og, hvad mér þykir líklegra, þá hefur hann hér lengra sjed framm í veginn, ei til sjálfrar borginnar, heldur þess er á sínum tíma í henni ské skyldi, til þess lífsins vatns Jesúm, Guds og Davíds Sonar, er í Bethlehem fædast skyldi; þessari meiníngu til styrkíngar finn eg þad vida, ad

Davíd hefur sína eptirlángan, þorsta kallad, og sína eptirlángan til Guds, þorsta eptir vatni; líka sem Hjørturinn kallar eptir fersku vatni, svo kallar mín sála, Gud! til þín; mína sálu þyrstir eptir Gudi, eptir þeim lifandi Gudi, hvønær mun eg þángad komast, þad eg sjái Guds andlit. Í þessum ordum viljum vèr til inngángs hugleida:

1) Davíds þórsta, og
2) Davíds svaladryck.

Vidvíkjandi því fyrra, þá segir hann: mína sál þyrstir; Sálin hefur sín tilfelli og umbreytíngar, eins vel sem líkaminn, líkaminn kann ad verda þjádur af erfidi, sálin af sorg. Eg er svo mæddur af andvarpan, segir Davíd. Ps. 6. v. 7. Líkamann kann ad húngra, sálin hefur og sitt húngur, ecki eptir mat heldur eptir Guds ords huggun; sjá þú! segir Drottinn, ad eg vil senda húngur inn í landid, ecki eptir braudi, heldur ordi Drottins. Amos. 8. v. 11. Eins sem líkamann þyrstir optlega, svo þyrstir og sálina, og þad med ýmsu móti, þar er einslags þorsti í sálum ógudlegra, og annarslags í sálum Guds barna; Ætti sérhvør med Davíd ad segja eptir hvørju hann þyrstir, þá mundi margur undarlegur þorsti uppkoma; einn þyrstir í blód síns náúnga, einn annann í hans braud, hinn þridja med Bileam, eptir Balachs gulli og silfri, stórum ordstýr og metordum,

hinn fjórda þyrstir eptir vatni, eptir því stolna vatni. Ordskv. b. 9. v. 17. honum er ecki nóg ad drecka vatn af sínum eginn brunni, heldur geng- ur hann med saurlífis bruna í sálunni. Suma þyrstir, en þeir vita ei sjálfir eptir hvørju, þad vita þeir þó, ad þá býdur vid øllu sem ecki er syndsamlegt, þeir inndrecka ránglætid, sem vatn. Job. 15. v. 16. Þeir eru eins og hinn vatns- sjúki, því meir hann dreckur, því meir þyrstir hann, syndin er ei sem annad er svalar, heldur má um hana segja sem vatnid í Samaría, hvør þar af dreckur hann þyrstir aptur. Jóh. 4. v. 13.

Um þorsta Guds barna er þad ødru máli ad gégna, þau draga ecki dulur á hann; hvørjum sem brúdurin mætir, þeim segir hún, eptir hvørjum hana þyrstir, hún fyrirverdur sig ei ad játa fyrir þeim, ad hún sé sjúk af elsku til síns vinar Jesúm; þá sálina þyrstir eptir Guds ordi og hluttekníng Kristí forþénustu í hans blódi, þad er sá heilsusamlegi þorsti er Kristur umtalar. Matth. 5. v. 6. Sæl- ir eru þeir sem húngra og þyrsta eptit réttlæt- inu, því þeir skulu saddir verda. Þannin var nú Davíds þorsti, er hann svo tídt umrædir í sínum Sálmum, til merkis þar um ad hans laungun til Guds nádar hefur alvarleg verid. Jesús er þad óendanlega góda af hvørjum hans børn verda aldrei fullsodd, fyrr enn þau um sídir mettast af hans andlitis sjón ad eilífu, en þángad til þyrstir

þau sífeldt eptir honum, veröldin með öllum sínum gæðum, er þeim sem einn full dammur, það er Guð sem þau girnast öllu framar, þau segja með Davíð: *Nær eg hefi þig að eins, Drottinn! þá hyrði eg hvörki um himin né jörð, og þó mitt líf og sál vanmegnist,' þá ertu þó alltíð mitt hjartans traust og hlutskipti.* Ps. 73. v. 25. 26. og er það svo stuttlega úttalað um Davíðs þorsta. Nú fylgir:

2) Hvað það var sem hann lángaði svo eptir; það er auðsært af hans orðum: *Mína sál þyrstir eptir Guði; nær mun eg þángað komast, að eg sjái Guðs andlit?* Fyrir þetta Guðs andlit má skiljast Jesús, sem hjá Esaíam kallast Guðs andlit, og engill Guðs andlitis. Esaí. 8. v. 9. Eður sem aðrir meina, þá lángaði Davíð hér eptir Musterinu, því hann var nú landflótta, og þessvegna útilokaður frá Guðs þjónustugjörð, og frá Jerúsalems Musteri sem var það einasta í allri veröldinni; en að gánga inn í Musterið, var kallað að gánga inn fyrir Guðs andlit, og opinberast fyrir Drottni; því segir Davíð í öðrum stað: *Eins þá bið eg af Drottni, það eg mætti blífa í húsi Drottins alla mína lífdaga, til að sjái þá ágjætu þjónustugjörð Drottins og að vitja hans Musteris.* Ps. 27. v. 4. Það hann nú í þessum stað kallar að sjá þá ágjætu þjónustugjörð Drottins, það kallar hann í hinum að skoða Guðs andlit;

án efa hefur hann og sjed hér leingra fram, og þjónustugjørdin í Jerúsalem hefur verid honum sem einn spegill uppá þá eilífu Gudsþjónustugjørd í himninum; med einu ordi, hann lángadi af øllu hjarta eptir ad sjá sinn Gud, bædi í lífinu og eptir lífid. O! hvørsu sælir eru þeir sem á sídan skulu líta Guds andlit; en þeir eru og sælir, hvørra sálir hér þyrstir eptir Gudi; til þeirra segir Drottinn: allir þér sem þyrstir erud, komid híngad til vatnsins og kaupid án peninga og fyrir eckért, bædi vín og mjólk. Esaí. 55. v. 1.

Komum vær nú aptur til Jesúm ad heyra eitt lífsins ord af hans munni á daudastundunni, þá finnum vér ein merkileg umskipti á ordin, ad hann sem eina trúada sálu gjarnan þyrstir eptir, hann sem kallar til sín alla þyrsta og lofar þeim svølun, hann, segi eg, er nú sjálfur þyrstur, og hvørsu má hann þá endurnæra adra? Vér høfum strax heyrt, um þorsta einnrar manneskju, en nú heyrum vér í textanum, hvørsu sjálfur Gud einninn qvartar um þorsta; mun hér ei sýnast mega ad líka sem David þyrsti eptir Gudi, svo þyrsti Gud ogsvo eptir oss. Æ minn Jesú! því skyldi eigi þinn þorsti uppvekja vorn þorsta? Komid mínir elskanlegir; látum oss í dag med helgum þorsta og gudlegri eptirlángan yfirvega þennann Jesú þorsta; mína sálu, segir David, þyrstir eptir Gudi, eptir þeim lifandi Gudi; látum oss umbreyta

hér einu ordi, og segja hvør í sínu hjarta: mína sál þyrstir eptir Gudi, eptir þeim deyandi Gudi; komid þá, þér þyrstu sálir! og heyrid ydar Jesúm, sem einn hjørt, kallandi eptir fersku vatni, hann mun aptur á móti heyra ydar sálir, þá þér kallid eptir Gudi á ydar daudastundu. Vér viljum svo út af þessu fimmta lífsins ordi á daudastundunni, oss til yfirvegunar taka:

1) Þann bitra og blóduga þorsta sem vor Frelsari qvartar yfir.

2) Þann bitra og beiska dryck sem hans óvinir honum gáfu.

## Utleggíngin.

Þad er ei ad undra, þó þann nm sídir megi þyrsta sem borid hefur hita og þúnga dagsins, og stadid í hørku-erfidi án allrar hvíldar og svølunar, edur ad strídsmadurinn leiti sér vøkvunar sem lengi hefur mædst í þúngum bardaga; og því skyldi þá undra ad vor Frelsari, qvartar hér svo aumkunarlega yfir sínum þorsta, þá hann þannig hafdi borid hita og þúnga dagsins; en hvada þúnga þá kristinn madur? Þad segir oss Pétur: hann bar allar vorar syndir á sínum líkama uppá krossinn. 1 Pét. 2. v. 24, nefnilega: þá óþolandi

byrdi undir hvørri enginn annar gat risíd. Davíd géck lotinn og mjøg bjúgur undir sínum eginn syndum, Ps. 38. v. 7. hvad þá Jesús undir allrar veraldarinnar syndum, og þar á ofan, Løgmálsins bølvan; en hér var hitinn ei léttari enn byrdin, ei einasta middegis-hiti sólarinnar í hvørjum hann héck allsnakinn, heldur og einkum Guds reidi-eldur og Helvítis ángist; já, hann bar ei einasta hita og þúnga dagsins, heldur og næturinnar, hans pína byrjadist med blódsveitanum í Gethsemane qvøldinu ádur, sídan var hann alla nóttina hrakinn frá einum til annars, og strax daginn eptir var hann sleginn, spottadur, húdstríktur, þyrnumkrýndur, og ýmislega píndur, inntil þess nú ad hérum þrjár stundir voru lidnar frá hádegi. Hvada undur, segi eg, ad hann qvartar um þorsta, eptir þvílíkann hita og þúnga dagsins og næturinnar? Hvada undur ad hann, sem ofaná allar þær qvalir er lán á hans líkama, hafdi ei einasta qvøldinu ádur strídt vid þá bitru sálarángist, heldur og nú, sem vér heyrdum nærst, í heilar þrjár stundir hafdi stadid í þeirri ákøfustu orustu, vid Guds reidi og makt Helvítis, hvada undur, segi eg, ad hann af svo margfaldri pínu og lángvarandi erfidi umsídir vanmegnast, ad hans túnga lodir vid hans góm, og hans kraptar eru uppþornadir sem skurm. Ps. 22. 16. Þá Samson hafdi yfirunnid sína óvini, og fellt svo marga med einum asnakjálka,

þá þyrsti hann svo mjøg ad hann kalladi og sagdi: Drottinn! þú hefur géfid þessa miklu heill fyrir hønd þíns þénara, og sjá! nú hlýt eg ad deya af þorsta. Dóm. b. 15. v. 18. Nú var hid mesta og versta yfirstadid fyrir Jesú, nú hafdi hann høggormsins høfud í sundurmolad, nú átti hann eptir eitt augnablik ad berjast vid hinn sídasta óvin, daudann. Hann mátti því vel segja med Samson: Drottinn! þú hefur géfid svo mikla heill og þad øllum mønnum, fyrir mína hønd, en sjá! nú má eg deya af þorsta, og er þetta þad hann vill sagt hafa med þessu sínu fimmta ordi: **Mig þyrstir.**

Af øllum limnm á Kristí líkama var enginn eptir, sem hafdi komist hjá hinni stærstu qvøl nema túngan og augun; med túngunni hafdi hann híngad til huggad adra og endurnært þá voludu; med henni hafdi hann bedid fyrir sínum óvinum, med henni hafdi hann gladt ræníngjann, huggad sína Módur og ákallad sinn Fødur; en uppá þad, ad enginn hans limur skyldi ósærdur eptir verda, svo áttu nú hans augu snart ad bresta, formyrkvast og apturlokast í daudanum; og hans túnga, mundi hún ei ogsvo eiga ad lída? jú eflaust, og þad einkanlega. Því sé þar nockur af vorum líkamans limum syndugur, þá er þad túngan, hvør opt í sér hefur eina verøld fulla af ránglæti, sem Jacob ad ordi kémst. Jac. 3. v. 6. Og því skyldi hann þá ei á sinni túngu lída, fyrir þær mørgu og þúngu

ſyndir er vér med túngunni drýgjum og drýgt hofum? Nú var og hans túnga ſvo uppþornud ad hann gat varla ſagt þeſsi ord: **mig þyrſtir**, og þar á ofan plágadiſt hún enn framar af þeim beiſka ſvaladryck.

Hvad því fyrra vidvíkur, ſem var hans bitri þorſti, þá átti nú vor Frelſari ogſvo ad reyna, hvad þad er ad þyrſta, hann er ordinn oſs ad øllu likur, ad ſyndinni frátekinni, hann er freiſtadur á allann hátt uppá þad, hann ſampínaſt kunni vorum eymdum, ſegir Páalus Ebr. 2. v. 17. Ebr. 5. v. 2. Húngur reyndi hann, þá hann faſtadi í 40 daga og 40 nætur. Matth. 4. v. 2. Þorſta hafdi hann og ádur reynt, þá hann vegmódur ſettiſt nidur vid brunninn í Samaría og bad um vatn ad drecka. Jóh. 4. v. 6. En nú er hans þorſti því miklu þúngbærari enn þá, ad hann ecki á koſt eins vatnsdryckjar, hann ſem þó hefur tilbúid øll vøtn, og ſvalandi brunna ſem Davíd ſegir: Drottinn! Þú lætur brunnana uppſpretta í dølunum, og árnar framfljóta millum fjallanna, ſvo øll dýr á mørkinni drecki, og villudýr ſløckvi ſinn þorſta. Pſ. 104. v. 10. 11. Hann ſem tviſvar í eydimørkinni lét øllum Iſraels børnum vatn uppſpretta af einum ſteini. 2 Móſ. b. 17. v. 6. og 4 Móſ. b. 20. v. 8. hann má nú ſjálfann þyrſta. O! þú uppſpretta allrar nádar og brunnur allrar miſkunar og hjálpræðis! ertu

nú ordin sem ein uppþornud eydimörk? Þú sem snérir vatni í vín í Cana fær þú nú sjálfur ecki einn vatnsdropa? En, æ minn Jesú! eg veit ad þad er til minnar hugsvølunar og endurnæríngar; þá þú sjálfur ecki kunnir ad fá einn vatnsdryck hefur þú géfid oss lífsins vatn, þig vantadi allt, svo oss vantadi eckért. Látum oss nú yfirvega þennann Jesú þorsta: fyrst sem náttúrlegann og ei svo mjøg undarlegann, þarnæst sem andlegann og yfrid merkilegann.

Náttúrlegur var þessi Jesú þorsti, því hann hafdi náttúrlegar orsakir; þorsti kémur af hita í líkamanum, þúngu erfidi, laungum vøkum og miklum svita, einninn af hrygd og ángist, því hryggt géd uppþurkar beinin, segir Salomon. Ordsqv. b. 17. v. 22. Því er þad og, ad óbótamenn undir andlátid plagar ad sækja mikill þorsti; allar nefndar orsakir, hafa hér adfylgst hjá Jesú. Hann hafdi nú svo lengi vakad, haft þúngt erfidi, og úthellt miklum sveita í grasgardinum, samt blódi í húdstrokunni og á krossinum, svo ei var ad undra þó hann væri nú mjøg þyrstur ordinn. Þó voru innvortis þær helstu orsakir til hans þorsta, einn þrefaldur eldur sem uppþurkadi allann vøkva, nefnilega: eldur ángistarinnar, er gjørdi hans sálu hryggva allt í daudann; Guds reidi, sem er fortærandi eldur ígegn syndunum, er hann hafdi uppá sig tekid, og Helvítis eldur, er svo hárdt píndi hans sálu í þær þrjár stundir

hann héck á krossinum; og þá ólídanlegur þorsti er eitt af bitrustu píslum fordæmdra, sem votta ord þess ríka manns til Abrahams: Send Lazarum, ad hann drepi hinn fremsta síns fíngurs í vatn og kjæli túngu mína, því eg qvelst í þessum loga. Lúc. 16. v. 24. svo segi eg, er þad ei ad undra, ad Jesús sem vor vegna átti fordæmínguna ad lída, mátti ogsvo þola þessa tegund fordæmíngarinnar. Nær vér nú samanberum allar þessar kríngumstædur, er þad allramest ad undra, ad Jesús enn nú gat hrært túnguna. Hvørsu ólídandi pína ad þorstinn er, mega þeir veiku best segja, því þeir qvarta meir yfir honum enn øllu ødru í þeirra sjúkdómi; þad vótta og søgurnar, ad þorstinn hefur tídt verid brúkadur sem píslarfæri til ad hafa sannar søgur af óbótamønnum, og þó þeir hafi vid eckért annad viljad undan láta, þá hafa þeir gjørt þad hér vid, og hafa þeir ei aktad daudann, ef þeir alleina feingi ad drecka; þanninn hefur nú Jesú þorsti verid, og sýnist sem hann þessvegna hafi gleymt øllu því er á honum lá. Nærst þeirri Helvítis qvøl og pínu sem kom honum til ad kalla hástøfum: **Gud minn! Gud minn! Því hefur þú yfirgéfid mig?** var þar eckért sem hann yfir qvartadi, utan þorstinn alleina, eins og hann annadhvørt væri einn partur af qvølum Helvítis, edur og nærst þeim hin þýngsta af sínum píslum; þó var þetta ei hin einasta

orsøk hans umqvørtunar, því hann sem var eitt lamb er þegir, þá það er klippt, hefdi og lidid umyrdalaust þessa qvøl sem allar hinar; en Guds Andi sjálfur leggur hér til eina adra viktuga orsøk, sem er: ad skriftin skyldi uppfyllast. Þá sagdi hann: **Mig þyrstir;** Allt var fullkomnad, það er, allt var skéd, sem ské skyldi, fyrir utan þetta, þar var í skriftinni fyrirspád ei einasta um hans þorsta, sem annars af kríngumstædunum sérhvør vita mátti, — skriftarinnar uppfylling þarí framkomin, var og øllum audsjen, — heldur og einninn hafdi ritníngin fyrirspád um hans dryck, því Davíd segir útþrycktilega undir Kristí Persónu: *þeir gáfu mér gall ad eta, og edik ad drecka í mínum mikla þorsta.* Svo nú þessi ritníng ogsvo uppfyllast skyldi, hlaut Jesús ad qvarta yfir sínum þorsta, því þarvid leiddist strídsmadurinn til ad bjóda honúm edikid, sem annars traudlega skéd hefdi. Hann hafdi alltaf skriftina fyrir augum; hann vildi ei ad hinn minnsti skérfur af votri syndasekt væri eptir ógoldinn, edur einn minnsti púnktur af Løgmálinu óuppfylltur, og þetta var það eina sem vantadi á ritníngarinnar uppfylling, ad því leiti sem hún uppfyllast átti fyrir hans dauda.

Í annann stad høfum vér ad álíta Kristí þorsta, sem audlegann og yfrid merkilegann; Það er ómøgulegt, hefur einn af lærifedrunum sagt, ad Jesús skyldi qvarta yfir þorsta, líkt sem einnri

líkamlegri þjáníng, hann sem leid allt annad svó þolinmódlega, því mundi hann ei eins lídid hafa þennann þorsta, ef þar hefdi ei verid nockud annad undir fólgid? og því skyldi hann qværta um þorsta, þar hann þó vissi, ad hjá þessum miskunarlausu manneskjum var eingrar svølunar ad vænta, hann vissi og, ad nú vóru ei utan eitt edur tvø augnablik, þángad til hann frelsast skyldi frá þorstanum, og øllum ødrum písllum: og eg má segja enn framar, ad þó þad hefdi verid svølun ad fá, og vín í bodum, þá hefdi hann þad ei druckid, en edikid drack hann; hann hafdi sagt qvøldinu ádur: ad hann mundi ei drecka af vínvidar ávexti fyrrenn í Guds ríki. Lúc. 22. v. 18. Hann var kominn hér til ad lída, en ei til ad láta sig hressa; hann var allareidu þyrstur ordinn þá hann kom uppá Golgatha, þá budu þeir honum sama dryck, en hann vildi ecki drecka, því mundi hann nú meir lánga þarí, nú þá allt var fullkomnad? átti hann nú fyrst ad syrgja fyrir sinni túngu? nei, þessi þorsti hefur nockud stærra í sér fólgid; ordin hafa einkum til vor tølud verid, og útvísa líkann þorsta, þeim er Davíd hafdi; hann þyrsti eptir sínum Gudi, en hér þyrstir nú Davíds Son, hér þyrstir sjálfann Gud, eptir oss og vorri sáluhjálp. Hér var stór eptirlángan hjá Jesú ad fullkomna endurlausnarverkid, ad fullkomna þad, er nú var nærstum því fullkomnad; því nær sem einn ferdamadur kém-

ur sínu takmarki, því meir lengist honum, svo leingdist og Jesú því framar, því nær sem hann var sínum dauda. Hann hafdi ádur sagt til Lærisveinanna: Mig hefur af hjarta eptirlángad að eta þetta Páska-Lamb með ydur. Lúc. 22. v. 15. En nú þyrstir hann ennþá ákaflegar eptir þeim sídsta dropa í kaleiknum er fyrir hann var áskeinktur, þeim kaleik er hann í gjær hrylti svo mjøg vid. Í þessum kaleik var nú eptir einn dropi, sem var daudans sídasti stíngur, eptir hvørjum hann nú svo mjog lángadi. Hann hafdi ádur sagt: Það er minn matur að gjøra hans vilja sem mig sendi. Jóh. 4. v. 34. Það var hans matur, en það var og sannarlega hans dryckur, hann þyrsti þareptir að gjøra allt hvað hans Fadir hafdi ályktad hann skyldi gjøra, svo hann, þá því var vel aflokid, kynni því gladari að fela hønum sína sálu á hendur; hann þyrsti eptir endurnæríng sinnar sálar, er nú hafdi plágast af Guds reidi-eldi, og þyrsti því eptir þeim himnesku vellystínganna straumum. Ps. 36. v. 9. En umfram allt þyrsti hann eptir vorri sáluhjálp, hún var það uppsetta takmark allra hans písla, og enn nú, þar hann er í himninum, er hún hans matur, hans dryckur og hans gledi; því segir Augustínus: sá dryckurinn sem þú umbidur, minn Jesú! er sannarlega eckért annad enn mín endurlausn.

Nú fylgir í annann máta að athúga Kristí

beiska dryck, þarum talar vor texti svo: og þar stód eitt kér fullt af ediki, en þeir fylltu einn njardarvøtt med edik, løgdu hann um ysop, og héldu því fyrir munn honum. Hvarfyrir ad hér vid Kristí kross hafi ediks=kér tilreidu verid, þarum hafa þeir lærdu tvær meiníngar. Nockrir meina ad á aftøkustadnum Golgatha hafi alltíd stadid eitt kér med edik, þó ei til þess ad neinn skyldi drecka þaraf, heldur hins, ad ef nockur sem af skyldi takast féll í ómeginn søkum þess qvalrædis er á honum lá, þá var strax borid á hann edik med svampinum, svo hann raknadi vid, og finndi því heldur til daudans. Adrir meina, ad med því enu rómversku Strídsfólki var fyrirbodid ad drecka vín, og hvørjum í þess stad géfinn einn viss mælir af ediki, er þeir áttu ad blanda med vatni sér til dryckjar, svo hafi strídsmennirnir er voru ad krossfestíngunni, og sídan héldu þar vakt, haft þángad med sér í kérum þéssi dryckjar=faung. Físt og nocknrn ad vita hvad ýsop er, med hvørju Jóhannes hér segir: ad þeir hafi njardarvøttinn uppréttt, enn Mattheus og Marcus, segja þeir hafi gjørt þad med reir, þá er ýsopid einn veikur og stuttur ávøxtur sem eptir ritníngarinnar tilvísan, ei á ad reiknast medal grasa edur jurta, heldur medal trjánna, því þar stendur: Salómon taladi um trén, ífrá Cedró í Libanon (sem því hædsta) og inntil ýsops, er vex útúr veggjum (sem

þess lægstá), þad er sumra meiníng ad njardar-vötturinn hafi verid festur vid reirinn med ýsops-stäungli sem ödru bandi; en á þvílíku rídur oss eckert; einasta skal þetta edik og ysop minna oss þar á, ad í Gamla = Testamentinu átti Páska-Lambid ad etast med ediki, og þess blód stöckvast á dyrastólpana med ysops = sópum. Guds Andi hefur hàft sinn vissann tilgáng, jafnvel í þeim hlutum er einskis verdir finnast; hér sjáum vér þad sanna Páska-lamb fyrir oss slátrad, hér sjáum vér brúkad vid þess slátrun bædi edik og ysop. Í hreinsun þeirra spitelsku var og brúkad ysop, og Davíd talar þar um í sinni syndu hreinsun; allt þetta bendir oss til þess ýsops er brúkad var vid Kristí dauda, og nær vor ydrunar-tár eru sem edik, þá er trúin sem ysop er réttir oss upp ad Jesú munni, ad vér hreinsiistum frá vorra synda líkþrá.

Þeir fylltu einn njardar-vött med ediki stendur þar; merkilegt er þad, ad þeir einusinni ádur höfdu bodid honum sama dryck, og þá vildi hann ei drecka; en nú þá þeir bjóda honum hann aptur tekur hann vid honum. Marcus segir: ad þá hann kom fyrst uppá Golgatha, hafi þeir gefid honum myrrhu í víni ad drecka, og ætla nockrir, ad Gydíngar hafi verid vanir ad gefa þeim slíkt er aflífast áttu, annadhvört af medaumkvan til ad styrkja þá, edur og af hardbrystni, ad þeir leng-

ur ſkyldi endaſt til ad þola qvalirnar, ellegar ſem adrir meina, til ád deyfá þeirra ſanſa og tilſinníngu, hvar ad líta ord Salómonis: géf þeim ſterkann dryck er aflífaſt ſkulu, og vín ſyrgjandi ſálum ſvo þeir drecki, og gleymi eymd ſinni og hugſi ecki framar til ſinnar ólucku; Ordsqv. b. 31. v. 6. 7. Þetta myrrhu-vín høfdu þeir, ſem Mattheus vottar: blandad med galli, og er þar audſjen fólſka þeſsara íllhreyſíngja mót Jeſú, en þá vildi hann þad ei drecka; nú ad þrem ſtundum lidnum koma þeir aptur med ſama dryck, edur máſké tómt edik, ſem hann medtók; í þeſsu hvørutveggju hefur Kriſtur haft ſinn tilgáng; þá vildi hann ei drecka, hvørt heldur þad vera átti hans ſvaladryckur, edur dryckur til ad flýta hans daudaſtundu; ſvølun gyrntiſt hann ei, því hann var þángad kominn til ad líða allskonar pínu; hann vildi ei heldur ſtitta ſitt líf, því hans vilji var ad líða ſvo lengi hans Fødur þóknadiſt; enn ſídur vildi hann drecka þar af, til ad deyfa ſína ſanſa og tilfinníng, því honum byrjadi ei einaſta ad líða píſslirnar heldur og ad marki til þeirra finna; þeſsara orſaka vegna vildi hann ei í þad ſinn drecka; en nú, þá allt er fullkomnad og yfirſtadid, ad undanteknum þeſsum beiſka dryck, þá mega þeir koma med hann, nú vill hann drecka, þó ei ſér til nockrar ſtyrktar edur ſvølunar, heldur var þetta ſem hinn ſídaſti dropi í hans áſkeinkta píſlar-kaleik, því

strax þá hann hafdi edikid til sín tekid, sagdi hann: Pad er fullkomnad.

Jafnframt þessu þá rennum snøggvast áuga voru til grimdar þessara íllvyrkja; þad sannast á þeim er Salómon segir: þeir ógudlegu eru grimmir jafnvel þá þeir vilja sýnast miskunsamir; þad átti ad heita gódvild ad svala honum, þá hann þyrsti; strax sem hann kallar hleypur einn af þeim til; en þeir hefdu ei verid svo vidlátnir, hefdi hér eitt gott verk átt ad gjørast. Mattheus segir: þeir gáfu honum edik med galli; svoddan eru veraldarinnar gáfur, og géfi hún oss einn dryck, þá er þar alltíd nóckud gall á botninum; allt hvad menn jafnvel kaupa dýrum dómum, er rauniar fullt af beyskju; í veraldarinnar metordum, ríkidæmi, og munadi er þar jafnan gall og edik. Hér smackar hún af hunángi og lofar øllu gódu, enn eptir á fær þú ad finna smeckinn af Gallinu. Gud hafdi sjálfur innleidt Gydíngana í eitt land sem flaut af mjólk og hunángi, en til þacklætis þarfyrir, skeinkja þeir nú á fyrir hann gall og edik; svo launar verøldin Gudi hans velgjørnínga, þá hann veitir hennar sonum metord, ríkdóm og góda daga, svo brúka þeir þessar hans gáfur til hervopna á móti honum, med; þeim reita þeir hann til reidi; fyrir ríkdóm þacka þeir honum med prakt og vellyst, fyrir upphefd og metord, med metnad og hofmód, fyrir vøld og herradæmi, med ad forakta

hans orð, og undirþryckja sinn náúnga. Hérysir klagar Gud, hjá Spámanninum segjandi: eg hefi upphafið þá, og þeir eru fallnir frá mér, vey þeim skaðsømu børnum sem yfirgéfa Drottinn. Es. 1. v. 4. Sjálfir Gydíngar mega vel samlíkjast við edik, sem að sønnu er vín, en það skémmt og súrt, þó í fyrstu hafi gott verið; þeir voru fyrrum Guðs egið fólk og hans víngarður, en nú voru þeir þyrnar orðnir og ecki víntré, þeir báru honum súr vínber og Gomorrhæ epli. 5 b. Mósis. 32. v. 32; nú var það á þeim uppfyllt er Móses hafði fyrirspáð, 5 Mós. b. 32. v. 33. *Þeirra vín er drekanna eytur og grimmrar nøðru gall.* En ásøkum ei Gydíngana svo, að vér gleymum sjálfum oss, gætum þess jafnframt hvørt vér munum taka þeim mikið fram, og það skal vera vor lærdómur hér útaf.

Jesúm þyrstir ei lengur líkamlega þar hann er í dýrðinni, en hann þyrstir andlega, hann þyrstir eptir þinni yfirbót og sáluhjálp, syndugur maður! hvað hefur þú géfið honum að drecka? Hvørsu lengi hefur þú látið hann þyrsta forgéfins, hvað opt hefur þú heyrt hann qvarta yfir þessum sínum þorsta og eckért skeitt þar um; hugleið innvyrðuglega hvørt þú hefur ei géfið honum gall og edik að drecka; hvør ein synd þú drýgir er honum súrt edik, og hvør syndsamleg vellyst einn galldryckur; viljir þú svala honum, þá bjóð honum

annad sem hann lángar eptir, ber honum þócknan=legt dryckjar=offur, en þad eru tár sannrar ydrun=ar fyrir þín afbrot. Einn af þeim gømlu Læri=fedrum hefur kallad þvílík tár, Englanna vín, en eg má segja: þau eru Kristí vín; þú hefur svo tídt heitid honum víni og hunángi, lofad honum bót og betran í þinni ydran, bæn, kirkjugaungu, og sakramentis medtekníngu, þú hefur hlaupid til, sem qvalararnir, eins og þú vildir svala honum, en þad hefur ei verid annad enn einn njardar=vøttur uppfylltur med gall og edik, og þó þú hafir nock=ud útvortis gott gjørt, þá hefur þad verid bland=ad med galli og ediki, þú hefur framar leitad þíns hróss þar med, enn Guds dýrdar, þú hefur gjørt þad framar af hræsni enn einlægu hjarta=lagi.

Gydíngar gáfu Jesú einusinni gall og edik, létu svo lída á milli, og komu med þad aptur; spegla þig hér í syndugur madur! í fyrra sinni skeitti Jesús ei um þad, en í seinna sinni tók hann vid því, gjæt vel ad þú breytir ei héri eptir Gydíngunum, og sértu eitt sinn aflátinn ad skeinkja fyrir hann gall og edik, þá kom ei optar þar med, því þá verdur þitt hid sídara, verra hinu fyrra. Lúc. 11. v. 26. Jesús hefur máské í fyrstu haldid þér þad til góda, en komir þú á ný med þennann dryck, verdur hann þér sjáifum ad bannvænnri ólifjan.

Þeinkid hér uppá þér vínsvelgjarar, þér sem er=

ud kappar vín ad drecka, og stridsmenn til dryckjuskapar, sem Drottinn kallar ydur; Es. 5. v. 22. Vey ydur segir Drottinn; speiglid ydur í þessum Jesú þorsta, og sjáid hvørsu ótæpt þér á skeinkid fyrir hann gall og edik, þá þér sitjid vid fløskuna fram á nótt, inntil vínid loggar í ydur; ef þér egi viknid hér vid, þá þeinkid þó til þeiss ríka manns í Helvíti; hann hafdi lifad í alskyns vellyst og óhófi, sem þér nú gjørid, en nú þyrstir hann, enn nú á þessari stundu er hans óp hid sama: eg qvelst í þessum loga. Lúc. 16. v. 23 24. Svo þyrstir þá Jesús enn nú, ó þér syndarar! hann þyrstir eptir þinni yfirbót og Guds ótta, þú fáfengilegi! eptir þinni medaumkunarsemi, þú hardúdugi! eptir þínu bindindi, þú dryckjurútari! eptir þínu hreinlífi, þú saurlífisbúkur! hann hefur þyrst svo lengi, gæt ad þér fyrr enn hann segir: þad er fullkomnad, fyrr enn þín syndamæling er uppfyllt, og þinn dómur skal uppsegjast, nefnilega þessi: eg var þyrstur, og þér gáfud mér ei ad drecka, farid frá mér bølvadir í eilífann eld. Matth. 25. v. 41. 42.

Enn nú eitt ord til lærdóms; enn nú segir Jesús: **mig þyrstir**, já hann þyrstir enn nú í hans limum; þar gengur svo margur fáráдur, húngradur og þyrstur Jesú limur, sem þyrstir eptir hjálp, huggun og bænheyrslu, þeink, kristin sála! ad þad er þinn Jesús, sem hér þyrstir, því svo segir hann útþryckilega: húngradur var eg, og þér gáfud mér

að eta, þyrstur, og þér gáfuð mér að drecka, géstur, og þér hýstuð mig, og svo framvegis, því hvað þér gjørðuð einum af þessum mínum minnstu brædrum, það gjørðuð þér mér. Matth. 25. v. 35—40. Þá vér nú svølum þessum hans trúandi limum, þá svølum vér sjálfum honum, ó! svo látið þá ecki ydar krúsir aptur fyrir þeim, látið hina, sem ei eru Jesú limir, heldur í missa, dragið heldur nockuð af ydar munaði, látið heldur skorta uppá hvað annað enn þetta, því hvør sem géfur einum af þessum, einn bikar af køldu vatni í mínu nafni (að skilja, nær vér ei høfum annað betra til), það mun honum ei verda ólaunað, segir Kristur. Matth. 10. v. 42. Þeir gáfu Jesú edik undir daudann, minnst þess, ó madur! edik verdur og þinn sídasti dryckur í verøldinni, þó aldrei hafir þú haft svo mikið hunáng í þínu lífi, þeink því til þessa ediks, og haf þig í hófi í þinni velgeingni, að nær hinn súri bikar kémur þér að høndum, þá megir þú finna hugsvølun í þessu Jesú ediki, að líkasem það var hans ed sídasta, svo kunnir þú að hugsa með þér, Gudi sé lof, nú er það snart á enda, verøldin gétur nú ei lengur druckið mér til, nú skal eg í stadinn fyrir mara-vatn, dryckjast með vellystínganna straumum; þann heilsusamlega kaleik vil eg medtaka, og nafn Drottins vegsama. Ps. 116. v. 13. Ei að eins skal Jesú dryckur heldur og hans þorsti oss til lær-

dóms péna; hann qvartadi ei fyrr um þorstann, enn hann hafdi í þrjár heilar stundir útstadid þá hørdu ángist, er kom honum til ad hrópa: Gud minn! Gud minn! því hefur þú yfirgéfid mig? Þar á eptir þyrsti hann; þann rétta sálarþorsta eptir Guds nád, fær þú ei, kristinn madur! nema þú ádur hafir smackad syndarinnar beyskju, og staddur verid sem í Helvítis qverkum, þú fær hann ei fyrr enn þú ert uppvaknadur med ángist og skélfíng, og sjer þad myrkur er þín sála sveimar í; þú mátt ádur frá þér kasta øllu fals-trausti, og andvaraleysi; þá kémur fyrst þorstinn eptir Jesú, þeirri lifandi vatnsins uppsprettu; vér sjáum ad sønnu uppsprettuna fyrr, en skeytum ei þar um, því vér erum ei þyrstir, en þá verdur hvor dropinn oss sætari enn hunáng; en medan þú enn nú hefur þína lyst í syndinni, og þig þyrstir eptir heiminum, hans hégóma glisi og dárlegu athæfi, já svo lengi þú álítur þad ei med leida og vidbjód, svo lengi, segi eg, máttu sýna þig svo gudhræddann sem þú villt, þú mátt tala svo mikid um þinn þorsta eptir Jesú, og laungun til þess himneska; en hvad hjálpar slíkt? Trú mér, einn upplýstur sannkristinn, hann ángrast og grætur yfir þér, þá hann sjer þig, hann formerkir ad ennú er þar ecki innkominn í þitt hjarta nockur smeckur lífsins vatns-strauma, enginn neisti af þeim hjálpsamlega eldinum, og eckért húngur

edur þorsti eptir því sannarlega góda. Nei hvar sá þorsti er innifyrir, þar verdur veroldin beisk sem gall-blandad edik, hennar dáraskapur og glens verdur þeim manni vidbjódslegt.

Ad sídustu er þetta Jesú ord oss eitt huggunar-ord; ef fiskjarins gall kunni ad bæta Tobiæ til lækníngar svo hans augu upplukust. Tob. 11. v. 13, svo kann og þetta Jesú gall og edik, ad vera oss til læknisdóms og vorum sálum til hugsvølunar, vitandi, ad Jesús med þessum sínum bitra þorsta og beiska dryck, sem øllu odru er hann leid, hefur betalad fyrir vorar syndir; hann hefur smackad þann beiska dryck ad vér mættum sjá og smacka, hvad sætur Drottinn er, hann mátti þyrsta, uppá þad hann frelsadi oss frá þeim eilífa þorsta; honum var í sínum þorsta synjad allrar svølunar, uppá þad vér í voru sídasta daudans ómeigi fáum gudlega svølun og endurnæríng, og þángad komustum hvar oss aldrei meir skal húngra edur þyrsta.

Vér þockum þér þá, Drottinn Jesú! fyrir þetta þitt lífsins ord, fyrir þann þorsta er þú leidst vor vegna, og þann dryck, er þú mættir útdrecka til vorrar sáluhjálpar. Gef ad þetta þitt ord hafi þá sáluhjálplega verkan í vorum hjørtum, ad vér, einn og sérhvør segja kunnum med Da-

vid: mína sálu þyrstir eptir Gudi, eptir þeim lifanda Gudi; þú hefur lofad, ó Herra! ad sedja þá sem húngrar og þyrstir eptir réttlætinu, gef oss ad eins þorstann því þá er oss til reidu svølunin. Vardveit oss nádarsamlega ad vér aldrei framar bjódum þér gall og edik, og hafi þad hendt oss ad undanførnu, svo slá á þann harda klett vors hjarta, ad hann megi vatn af sér gefa, og vér kunnum frambera fyrir þig, til dryckjar-offurs, sannarleg ydrunartár; endurnær oss svo med þíns Anda hugsvølun, ad þau beinin gladvær verdi er þú hefur sundurmarid. Og þá oss ad lyktum á vorri daudastundu eptir þér þyrstir, lát oss þá, ó Jesú! fyrir þíns þorsta sakir, ei verda med galli og ediki dryckjada, eptir vorri verdskuldan, heldur lát einn huggunardrópa, einn drópa af forsmeck þess himneska sætleika falla á vora túngu og vorar sálir, ad vér þá gladir segja kunnum: þad er fullkomnad; Fadir! í þínar hendur fel eg minn Anda. Amen.

---

# Sjötta Prédikun
út af
# Því ſiotta Kriſtí Ordi á Kroſsinum.

Jóh. 19 Kapítula. v. 30.

En þá Jeſús hafdi edikid til ſín tekid, ſagdi hann: þad er fullkomnad.

## Inngángurinn.

Í upphafi þá madurinn var ſkapadur, ødladiſt hann alla hluti, því hann var ſkapadur eptir Guds mind í fullkomnum heilagleika og réttlæti. En øllu því tapadi hann þarímót í ſyndafallinu; þar miſtum vér Guds mind og alla vora vegſemd; en allt hvad vér miſtum þar, kunnum vér aptur ad fá í Kriſtó, hann er oſs af Gudi géfinn til réttlætis, helgunar, og endurlauſnar. 1 Cor. 1. v. 30. Sumt þad vér miſt høfdum fáum vér aptur hér í lifi, en í hinu ødru lífi, fáum vér þad alltſaman og enn þá lángtum meira og betra; alla vora breſti hefur Kriſtur bætt, í honum alleina er upphaf og endir vorrar ſáluhjálpar; því ſegir Poſtulinn Páls: Ebr. 12. v. 2. Látum oſs

líta til Jesúm, þéss uppbyrjara og fullkomnará trúarinnar. Ei megum vér í þessu lífi Jesúm líta med vorum líkamans augum, því hánn býr í einu ljósi er einginn fær tilkomist. 1 Tím. 6. v. 16. Skýid hefur tekid hann burt frá vorum augum. Post. G. 1. v. 9. Vér gaungum hér í trúnni, en ecki í skoduninni, sem Páll segir: 2 Cor. 5. v. 7. En hér merkir ad líta til Jesúm, þad sama sem ad trúa á hann, og hafa hann sér fyrir sjónum bædi í trúnni og í líferninu.

1) Í trúnni lítum vér til háns sem vors einásta læknirs og lausnara; þá Ísraels börn vóru bitin af þeim brennandi høggormum, svo litu þau, med því nær hálfdaudum augum, upp til eyrórmsins, og urdu heilbrygd. Aldrei kann samvitskann svó ad plága einn syndara sem er hugsjúkur um sína velferd, ad hann ei hugsvølun finni, þá hann í trúnni lítur upp til þéss hángandi eyrorms, hins krossfestá Jesúm, sem segir: Eg er madkur enn ecki madur. Ps. 22. v. 7. En slíkt má ei vera ein køld og hvikul, heldur stødug og grandgjæfileg sjón. O hvílíkt volædi! menn heyra um Kristí píslir og dauda, hann er þeim sem afmáladur fyrir augunum, og þeir vikna eckert þarvid; þessi ord, Jesús Guds Sonur er krossfestur, hefur sveittst blódinu, er sleginn, húdstrýktur, spottadur, og svo framvegis; þessi allra furdanlegustu ord, segi eg, eru ordin svo almennileg ad þad eru fáir sem um

þaú skeyta heldur enn eckért sé, lángt sídur þacka þarfyrir edur gledja sig þar vid. Mundi Jesús þad hafa ætlad þá hann leid fyrir oss? Já ad vísu, og mannanna ópacklæti var ei hid minnsta af hans píslum; hann fyrirsá þá tíd, ad menn mundu heyra um sína pínu án nockurrar sorgar edur gledi, og á sama augnabliki þeinkja alleina uppá veraldarinnar hégóma og vellystíngar. Frá svoddan køldu og lauslegu tilliti til Jesúm, rædur Postulinn oss í áminnstum ordum, þar hann segir: látum oss med þolinmædi líta til Jesúm; þad er: látum oss aldrei sleppa honum frá vorum trúar-augum, edur (eptir høfud-textans eginlegri merkíngu) látum oss svo á hann líta ad vér ei lítum til nockurs annars; þó er oss hérmed ei bannad ad líta til sjálfra vor, ad líta á vorn hág, vort embætti og vora velferd; einn Stýrimadur sjer vel eptir øllu sem framfer á skipinu, en hefur þó aldrei augun af Kompásnum edur línunni sem hann siglir eptir. Eins egum vér ad breyta á vorri siglíngu yfir haf þessarar veraldar, nefnilega: ad hafa vor augu nú til þessa, nú til hins er voru kalli vidvíkur, en þó alljafnt med trúarinnar augum og hjartans eptirlángan sjá til Jesúm; og líkt sem sá eini endi á sirklinum hleypur allt í kríng, en hinn annar skal alltíd standa fastur í midjunni, svo mega og vorir þánkar ad sønnu gánga umkríng í verøldinni, en í øllu þessu má hinn annar

armur sirkilsins, sem er vor trú og elska til Jesúm, vera fastur og óhrærandi, í voru hjarta, sem einum midpúnkt, svo vér aldrei sleppum Jesú þadan, hvad mikid sem vér høfum ad sýsla og hvørt ósz gengur med edur mót; þetta er ad líta til Kristum, sem eins læknirs og Frelsara.

2) Eigum vér ad líta til hans sem vörs forgaungumanns; hans heila líferni á ad vera ósz sem eitt munstur, hvareptir vér egum eptir fremsta megni ad móta allt vört framferdi. Málarinn horfir stødugt og lengi á þá Persónu er hann vill uppmála, inntil hennar ásýnd verdur honum tilfulls innprentud, sídan dregur hann mýndina upp; og gjørir hana smámsaman æ líkari Persónunni; svo skulum vér og í vorri hegdan, horfa stødugt á Jesúm, ad vér smámsaman meir og meir fáum lagad vort sinni eptir hans sinni, og ósz innpréntad hans audmýkt, hógværd, þolinmædi og heilagleika, og dag frá degi kunnum meir og meir ad endurnýast eptir hans ímynd hér í ófullkomlegleikanum, þartil vér á sídan hönum og hans forklárada líkama samlíkir verdá munum í dýrdinni. Róm. 8. v. 29. 1 Jóh. 3 2.

Endilega skulum vér og til hans líta sem uppbyrjara og fullkomnara trúarinnar. Hann er sá sem trúna í ósz uppreisir, plántar og verkar, því svo ómøgulegt sem þad er ad sjá sólina á himninum án sólarinnar, svo er þad og ómøgulegt ad

trúa á Kristum, án hans eginn verkunar; hann hefur ei að eins gefið oss það, er vér skulum trúa á, það er að skilja, sína forþénustu, dauða og réttlæti, eður það, fyrir hvört vér trúa kunnum, nefnilega: sitt orð og sinn Anda, heldur má hann þar á ofan géfa oss krapta til að trúa; hann er trúarinnar upphaf og grundvöllur; en það er oss ei nóg að hann tendrar trúna í oss, að hann vísar oss á veginn, allt eins og vér sjálfir úr því rata kynnum; ó! ef hann ei fylgdi oss áfram þennann veg, mundum vér fljótt missa aptur götuna; hinn litli trúarneisti mundi fljótt kjæfast við eina mótlætisbáru og hinn fyrsta drópa freistínganna. Jesús er þá ogsvo trúarinnar fullkomnari, hann skilur ei við sitt trúarverk í oss hálfbúið, hann sleppir oss ecki fyrrenn hann hefur meðtekið oss til sinnar dýrðar. Í einu orði að ségja: hann er trúarinnar uppbyrjari, því hann géfur oss trúna, og hennar fullkomnari því hann géfur oss sáluhjálpina sem er trúarinnar endalok.

Þarfyrir, þá vör kristinndómur vill gjörast oss þúngbær, og oss finnst erfidt að trúa, eður viðblífa í trúnni til endaloka, ó! látum oss þá ei líta til sjálfra vor, því þá er útgjort um oss, heldur lítum upp til Jesúm, þess uppbyrjara og fullkomnara trúarinnar; hann sem hefur uppbyrjað í oss það góða verkið, mun það og fullkomna; líkasem hann í sínu endurlausnar-verki ei fyrr hætti,

enn hann á krossinum til vor segja kunni: **Þad er fullkomnad**, svo vill hann og í voru sáluhjálpar-verki ei fyrr vidskilja, enn hann hefur þad fullkomnad; svo þad sem **Jacob** sagdi vid hann: eg sleppi þér ecki fyrr enn þú blessar mig. 1 Mós. b. 32. v. 26. þad vill hann og segja til vor, ad hann sleppi oss ecki fyrr enn hann hefir blessad oss.

Komid nú aptur med mér, elskuleg Guds børn! uppá fjallid **Golgatha**; lítid nú upp til Jesúm, þess uppbyrjara og fullkómnara trúarinnar. Hann gjørdi góda uppbyrjan til vorrar endurlausnar í sínum gétnadi og fædíngu, í sínum lifnadi og pínu framhéllt hann allt af því sama, og skildist ei fyrr vid endurlausnar-verkid enn hann hafdi þad í daudanum fullkomnad, undir eins og hann endadi sitt líf, endadi hann og vora sáluhjálp. Komid þá í dag og heyrid þad fagnadarsæla ord, sem Jesús talar á krossinum, hvarmed hann lýsir fyrir øllum sínui gledilegu sigurvinníng segjandi: **Þad er fullkomnad**; híngad til hefur nærri því hvørt eitt hans ord verid mjøg sorgarlegt, en þetta ord er harla gledilegt bædi fyrir hann og oss, hann hefur bædi byrjad vel og endt vel; en, kjæru vinir! hafid þér og svo byrjad vel ad heyra med andakt, þau sídusta Jesú ord, svo endid nú og svo vel, og heyrid í dag hans pínu endalok, inntil vér þessunæst heyra fáum hans blessudu æfi-lok; þér menn í **Sichem**, heyrid mig ad Gud heyri ydur.

Dóm. b. 9. v. 7. Heyrid hvørſu hann fullkomnadi vora endurlauſn, þá hann endti ſitt líf, og verid víſsir um, ad hann mun og ſvo fullkomna ydar ſáluhjálp, þá ydar líf er fullkomnad.

Vér høfum þá í dag ad yfirvega þetta ſæta lífsins ord, á lífsins ſíduſtu andláts ſtundu:

1) Sem eitt fullviſsu og hughreyſtingar ord.

2) Sem eitt ſigurhróſs- og ſigurvinníngar ord.

3) Sem eina lucku-óſk til vor allra.

## Utleggíngin.

Þetta Jeſú ord er vér í dag yfirvegum, er í þvi griſka høfudtúngumáli eitt einaſta ord, en í voru máli ſýniſt þad ad vera þrjú ord, þad er fullkomnad; þad er eitt lítid ord, en þar hjá hid allragledilegaſta af øllum Kriſtí ordum, og jafnvel í allri Ritníngunni; þad er lítid ord, en hvad mikla mædu, hádúngar og píſlir hefur Jeſús ei mátt lída, hvad miklu blódi hefur hann ei mátt úthella fyrr enn hann ſegja kunni þetta einaſta ord: þad er fullkomnad. Í meir enn fjøgur þúsund ár høfdu allir Spámenn einaſta þartil ſigtad, ad þad um ſérhvørs þeirra ſpádóm fyrir ſig ſeg-

jaſt mætti; nú er og þetta fullkomnað og framkomið; þarfyrir veitti Jesú ſvo torveldt fyrir ſína pínu, að útleggja ſpádómana fyrir ſínum Lærísveinum á meðan ſvo mikið, já, það helſta var enn þá ógjørt. En ſtrax eptir hans pínu, ſtrax ſama daginn og hann uppreis, heitir það: hann útlagði fyrir þeim ritníngarnar þær af honum voru, og tók til frá Móſe og øllum Spámønnum. Lúc. 24. v. 27. Þetta litla orð er og ſannarléga eitt krøptugt og voldugt orð, ſem undir eins hræra kunni himin, jørðu og Helvíti; himininn heyrði það með velþóknan, því nú var hans Herra friðþægður. Jørðin mátti heyra það með gleði, því nú var henni friður afrekaður, Helvíti mátti bifaſt þarvið, því þeſs makt var nú til enda, og Satan ſkélfaſt, því nú var hans haus ſundurmarinn; aldrei hefur hann, ſem ſjálfur er hið undirſtødulegá orð Føðursins, nockurt orð talað, ſem hans Føður var þócknanlegra, gleðilegra fyrir hann ſjálfann, yndislegra Englunum, ſáluhjálplegra mønnunum og hræðilegra djøflunum, enn þetta litla orð, **Það er fullkomnað**, ſem aungvu að ſíður er ſvo ſtórt og fullkomið orð, að í því alleina, ſem annari nyt, er innilukt øll Biblían.

En hvað er hér þá fullkomnað? Það eru í fyrſtu allir ſpádómar og fyrirmyndanir þeſs gamla Teſtamentis; hvørsvegna það er fyrſt eitt fullvißu orð, hvarmeð Jeſús undir andlátið vildi gjøra

oss vissa þarum, ad hann nú hefdi þad allt uppfyllt, er hann uppfylla skyldi á sínum hérvist-ar-døgum.

Hvad er þad meira sem er fullkomnad? þád er hans pína; nú hafdi hann lidid svo mikid og margt sem hann átti og kunni ad lída; þessvegna er þad í annann máta eitt sigurvinníngar ord, hvarmed hann yfirlýsir og hrósar sigri þaryfir, ad sín pína sé nú vel afstadin. Hvad er þá enn meira fullkomnad? þad er vor endurlausn og sálu-hjálp, hvarfyrir þad, í þridja máta, er ein lucku-ósk til vor allra.

Vér høfum svo ad yfirvega þetta Jesú ord: J fyrstu sem eitt fullvissu ord, því þarmed er oss af hans eginn munni, vissa og stadfestíng þarum gésin, ad þar væri nú eckért framar er hann líða ætti, og aungvu væri framar um hans pínu fyrirspád enn nú væri framkomid; þad er og des-anlegt, ad Jesús gjørdi eckért sem ei væri ádur fyrirspád, og eckert var um hann fyrirspád, sem hann ecki gjørdi; og þad vildi verda allt of lángt, já ómøgulegt ad greina alla Spádómana um Jesúm í því gamla Testamenti, og sýna allra þeirra upp-fyllíng; vildum vér ransaka Ritnínguna og fletta Biblíunni frá upphafi til enda, mundum vér aungva bók, og fá blød, finna í því gamla Testamenti, hvar ei er talad edur spád um Jesús, annadhvort med berum ordum, edur og ljósum fyrirmindunum,

sem allt er framkomid. Medal þeirra fjøgra Gudspjallamanna, sem hafa skrifad um Jesú manndómsteckníng, hans líferni, kraptaverk, pínu og dauda, hefur Mattheus verid hinn athugasamasti í ad vitna til spádómanna, og vid sérhvad merkilegt sett þessconar vísbendíng: þetta skédi svo ad uppfylltist hvad sagt er fyrir Spámanninn; og finnst í hans Gudspjalla bók, (hafi eg rétt adgjætt), ad hann þetta gjørt hefur í þrjátíu og tvær reisur, helst eptir þad hann er kominn til ad tala um Kristí pínu, hvar alleina hann hefur níusinnum vitnad til Spámannanna. Ef þú villt vita hvørninn Kristur átti ad fángast, þá hefur Spámadurinn sagt: ad hann skyldi forrádast og seljast; villtu vita hvad hann átti ad kosta, þá er verdid útþryckilega tilgreint: þrjátíu silfur peníngar; hvartil voru þessir peníngar ætladir? Spámadurinn svarar: til ad kaupa fyrir þá akur. Zach. 11. v. 12. 13. Villtu vita hver hann skyldi forráda, þad hefur David sagt: minn vinur sá er át mitt braud. Ps. 41 v. 10. Hvad átti ad verda af hinum ødrum hans Lærisveinum? Partil svarar Zacharías fyrirfram: þá hyrdirinn er sleginn, skulu saudirnir tvístrast; Zach. 13. v. 7. Máské þeir hefdu ei svo hrækt í Jesú andlit, hefdi ei Esaías ádur sagt: Mína ásjónu byrgdi eg ecki fyrir forsmán og hrákum. Esa. 50. v. 6, enda er Mattheus ecki seinn ad leggja þartil sitt venjulega vidtæki: þetta skédi svo uppfylltist, og

s. fr. Í einu ordi, Jesús í sinni pínu géck varla svo nockurt fótmál ad þarum væri ei spád; hans dauddagi er fyrirsagdur, ad hengjast uppá tréd; med hværjum átti hann þar ad hánga? Ritníngin segir: medal íllvirkja er hann reiknadur; hvad munu þeir gjøra af hans klædum? Spámadurinn svarar: á minn kyrtil løgdu þeir hlutkésti; þeir hefdu víst brotid hans bein eins og rænìngjanna, hefdi ei Ritníngin sagt: Egi skulud þér brjóta nockurt hans bein. 2 Mós. b. 12. v. 46. Þeir mundu ei hafa gégnumstúngid hans sídu, hefdi ei Spámadurinn sagt: þeir munu sjá mig, hvørn þeir hafa ígégnum stúngid; Zach. 12. v. 10. Í stuttu máli: allt hvad Jesús gjørdi, leid og taladi, þad var fyrirspád, og allt hvad fyrir var spád, þad uppfylltist. Og þá allt var nú skéd, utan þad eina, ad drecka edikid, hvar um Davíd hafdi ádur spád: þeir gáfu mér edik ad drecka í mínum þorsta. Ps. 69. v. 22. þá minnist Jesús sjálfur þar á med sinni umqvørtun yfir þorstanum er vér síost heyrdum. En mundi þá Jesús ei kunna ad umbera þennann þorsta þegjandi sem allt annad? Ojú, en hitt kunni hann ei ad þola, ad hinn minnsti púnktur Ritníngarinnar skyldi óuppfylltur eptir verda; þá nú þetta var skéd, og hann háfdi eptirþeinkt, ad nú var ei neitt eptir óuppfyllt, þá sagdi hann: Þad er fullkomnad; géfandi oss þarmed fullvissu þarum, ad nu væri eckért ept

ir, er hann vor vegna lída ætti, heldur mætti hann nú med gódri samvitsku uppgéfa sinn Anda. Svo er þá í þessu eina Jesú ordi, sem í einum litlum púnkt, allt þad uppfyllt og innifalid, sem svo margir Spámenn í svo mørgum bókum, og í svo mørg hundrud ár talad hafa; ei er þad undur ad þeir kunnu þvílíkt fyrir ad segja, því Gud er alvitur, sem fyrir þá taladi, hann er og almáttugur, svo þetta og allt annad er hann sagt hefur, hlýtur loks á sínum tíma ad framkoma; hitt er undarlegra, ad Gydíngar sem þó vissu Ritníngarnar, gátu nú ei sjed, ad Jesús var sá fyrirheitni Messías, þar þó allt í honum fullkomnadist, sem um Messíam var spád og talad. En hvad skal eg tala um spádómana, því ei ad eins þeir, heldur og allar fyrirmyndanir þess gamla Testamentis voru nú uppfylltar. Vér høfum heyrt um Isaac, þann hlýdna son síns fødurs, þá hann bar brennividinn á bakinu, og géck med Abraham uppá fjallid Moría, til ad offra, og þar var eckért offur utan hann sjálfur. 1 Mós. b. 22. v. 2. Hér er Jesús ef sínum Fødur til offurs útgéfinn fyrir allar veraldarinnar syndir, og mátti í sama máta bera sinn kross uppá fjallid Golgatha; høfum vér ei heyrt, hvørsu Jóseph var seldur af sínum brædrum, einkum sínum bródur Júda, hvar eptir hann ratadi í stórar naudir, en vard um sídir upphafinn til stórrar æru, og settur Kónginum Pharaoni til hægri handar?

1 B. Mós. 37. v. 26, ítem Kap. 40. v. 20. 21. Høfum vér ei lesid um eyrorminn. 4 B. Mósis. 21. v. 8. 9. hvad Jesús heimfærir uppá sjálfann sig, þar hann segir: Líkasem Móises upphóf høggorminn á eydimørku, svo byrjar Mannsins Syni upp ad hefjast, ad allir þeir sem á hann trúa fortapist ecki, heldur hafi eilíft líf. Jóh. 3. v. 14. 15. Um Paska-lambid høfum vér heyrt sem slátrast átti, þess kjøt etast, og þess blód varna mord-englinum, og hvør kann ad upptelja allar þær mørgu fyrirmyndanir hins gamla Testamentis, einkum þær margháttudu fórnir ed allar einmidt uppá hann sigtudu, sem er sú fullkomna fórnin; og er þad merkilegt, ad rétt á þessum sama degi og sømu stundu er Jesús taladi þessi ord á krossinum, um þridju stundu eptir hádegi, voru Prestarnir allareidu í forgardi Musterisins teknir til ad slátra Páska-lømbunum, og á sømu tíd sem þeir enn nú voru ad fara med skugg-ann, rétt undir eins hrópadi Jesús: Þad er fullkomnad, hvarmed hann gaf til kynna, ad allt svoddan skuggaverk væri nú til enda, þad gyldti nú ei lengur, né væri nein Gudsþjónusta. Í sama sinn rifnadi og fortjaldid í Musterinu, til merkis þarum, ad Gud sem bjó þarfyrir innann í helgidóminum, flytti sig nú út þadan, og hefdi ei lengur þócknan á þeirri levitisku þjónustugjørd.

Vér høfum svo heyrt, hvørsu þetta er eitt fullvissu

og fullkomnunar ord, nú viljum vér þarnæst, og í annann máta álíta þetta ord sem eitt figurvinníngar ord, med hvørju Jesús lýsti sigri yfir øllum sínum óvinum; nú var ei einasta skriftin med øllum sínum spádómum og fyrirmyndunum uppfyllt, heldur og hans qvalir fullendadar; hann gledur sig nú, ad þetta allt er yfirstadid; nú høfdu allar hans hørmúngar og harmqvæli fengid gód og farsæl endalok; en hvør fær upptalid allar hans píslir á sál og líkama? Hvør fær skilid, enn sídur sagt, hvad miklar og bitrar þær voru? sem þó vera verdur ef vér rétt grípa skulum, hvad gledilegt þad var fyrir Jesúm, ad hann nú segja kunni: Þad er fullkomnad; hans píslir eru ad vísu til enda, en vorar hugsanir þarum, kunna aungvann enda ad finna. Eg vil med Postulanum Páli innibinda allar hans þjáníngar í þessu ordi nidurlægíng; hann nidurlægdi sig sálfann, segir hann. Phil. 2, v. 8. og því dýpri sem þessi hans nidurlægíng vard, því stærri urdu og hans qvalir, og svo lengi hún varadi, varadi ogsvo hans pína; ó! hvørsu skélfileg nidurlægíng er ekki þad, ad hann, einn eilífur allsvaldandi Gud, skyldi verda ein aum og fyrirlitleg manneskja! og þó var þetta ei utan inngángurinn til hans nidurlægíngar og pínu; edur, ef þú ei villt láta þad nidurlægíng heita (med því hans nidurlægíng skyldi vera til enda, þá hans upphafníngar-stand byrjadist, en hann er enn nú

madur og undir eins háttlofadur Gud ad eilífu): svo athuga þú, med hvørjum hætti hann vard madur, og hvílíkur madur hann vard; hefdi hann ordid einn einvaldskóngur, og drottnad yfir Kóngum og maktar-mønnum, samt hefdi þad mátt kallast ein ærid djúp nidurlægíng, því hvad er ein manneskja móti Gudi ad reikna, edur sképnan á móti Skaparanum; millum hins allra veglegasta Kon-úngs, og hins aumasta þurfamanns er þó vissulega meiri jøfnudur, því bádir eru þeir menn, af sama edli, og af einu blódi komnir; en á milli Guds og manneskjunnar er eckért líkt, og engin samjøfnudur. Þó var því ei þannveg háttad fyrir Kristó, heldur var hann hin fátækasta, vesælasta, og fyrirlitlegasta manneskja, sem jordin hefur nockru sinni borid, fólksins spott, og mannanna fyrirlitníng. Ps. 22. v. 7. Og hvílík nidurlægíng var þad ei fyrir himnanna Herra og Drottinn dýrdarinnar, ad verda fólksins spott, og Skaparann ad verda fyrirlitníng sképnunnar! Gydíngar, Prestar, strídsmenn, alþýda, já øll veraldin spottadi hann og píndi sem hinn versta íllrædismann, já lángtum meir, því enginn spottadi þá tvo íllvyrkja er med honum voru krossfestir, en allir gjørdu sér ad skyldu ad spotta, pína og plága hann, sem hinn allraversta, med øllu því þeir gátu tilfundid; ad eg ei tali um hid allra þúngbærasta af øllum hans píslum, nefnilega: þær innvortis qvalir og Helvítis ángist sem hann leid;

þá vér, segi eg, allt þetta athugum, fáum vér að nockru leiti nærri gétið, hvørsu gledilegt það hafi verið fyrir hann, að hann mátti nú segja: Það er fullkomnað; nú var hans niðurlæging enduð, og hans upphafning skyldi byrjast; híngað til hafði Andskotinn gjört allt það til er hann gat, sínum grimmu jagthundum hafði hann øllum samann á hann sigað, til að pína hans líkama, og sjálfur hafði hann qvalið hans sálu; en nú var það fullkomnað; nú kunni ei Andskotinn lengur að ná til hans, héryfir gleður hann sig, og líktsem hælist yfir Andskotanum, að nú géti hann ei lengur qvalið sig. Gyðíngar høfðu og svo allt híngað til ecki setið sig úr færi, þeir hofðu nú nógu lengi spottað, brýrlað, barið og slegið; en nú var það fullkomnað; þegar Samson hafði sigur fengið yfir sínum óvinum, kallaði hann hátt, segjandi: sjá! þar liggja þeir í hrúgu. Dóm. b. 15. v. 16. Hvílíkt var nú það sigurhróp er Jesús lét hér af sér heyra; áður þá hans pína byrjaðist, óskaði hann svo heitt og hjartanlega að sá tími væri liðinn, að þessi kaleikur mætti frá sér takast; hann hrópaði nockru áður svo aumkunarlega: Guð minn! Guð minn! Því hefur þú yfirgéfið mig? Nú þar í mót hrósar hann sínum sigri svo gledilega, Það er fullkomnað; fullkomnuð er mín pína, fullkomnað er mitt erindi, og fullkomnaður er minn sigur. En má það ei sýnast, að Jesús hér gleðji

sig fyrir tímann, og hrósi sigri ádur enn strídinu er lokid? Hann átti enn nú einn óvin eptir, sem var daudinn; þad var ei nóg hann leid fyrir oss, heldur átti hann og svo, ad deya fyrir oss, þess=vegna, svo lengi sem hann ei var daudur, kunni hann ecki ad segja: **Þad er fullkomnad.** Þó Jesús hefdi adra sína óvini yfirunnid, þá var þó enn nú sá eptir, sem ad vísu vildi yfirvinna hann, og hvørsu kunni hann þá hér sigri ad hrósa? Já þad sýnist svoleidis, kiæru vinir! en þad er þó ei raunar svo; ad sønnu heyrdi daudinn til Jesú pínu, en þar jafnframt var hann þad minnsta, Jes=ús óttadist hann nú øldúngis ecki, hann hafdi alla=reidu útstadid þad sem var lángtum þýngra, hann áleit nú ei framar daudann, sem sinn óvin heldur sem einn gódann vin, sem nú skyldi koma og leysa hann af øllum sínum eymdum, bendir, og segir honum því til, ad nú megi hann koma, nú sé øllu aflokid. Einn hershøfdíngi hefur fulla orsøk, ad hrópa sigur þá høfudbardaginn er unninn, og hinn mesti partur óvinanna felldur og á flótta rekinn, þó fáeinir megi eptirstanda, því þá er sigurinn viss, og eckért framar ad óttast; eins var því og hér háttad fyrir Jesú; **Júdith** hrópadi sigur þá **Hólóphernis** høfud var afhøggvid, því þá vissi hún sínu fólki vísann sigurinn; Júd. b. 13. Jesú hardasta stríd, sem hann átti vid Helvítis makt, í þær þrjár stundir sem sólin var formyrk=

ud, var nú yfirstadid, hans óvina flocks-foríngi Andskotinn var sigradur, hann hafdi maktina tekid frá þeim sem daudans makt hafdi. Ebr. 2. v. 14. og hvad var þá framar daudinn sjálfur? Sjófarendur sem hrakist hafa í laungu og mædusömu sjó-volki, nær þeir umsídir sjá höfnina, er þeir sækja til, þá fagna þeir og gledjast; því þeir sjá og vita ad höfnin er þeim vís, þó þeir enn þá séu ei í hana komnir; nú hafdi Jesús siglt yfir þad blóduga haf sinna písla, hann sjer nú höfnina, hvar hann skyldi lenda og leysast af öllum eymdum; hans himneska Födurs hönd var sú tryggva höfn, í hvörri hans sála skyldi hvílast; þá hann þarfyrir sá daudann fyrir höndum, hinn sídasta vindblæ er skyldi bera hann inn á höfnina, þá hrópar hann af gledi: Þad er fullkomnad; til lucku þá, ó Jesú! med þessa pína sigurvinníng; til lucku ad þú mátt nú inngánga í þína dýrd; til lucku ad þú hefur þessu þínu verki svo vel aflokid, og átt nú framar eckért ad lída; óskum vér þannveg Jesú til lucku med hans sigurvinníng, svo vill hann miklu-framar óska oss til lucku, med þá sæluvon sem oss þarvid er afrekud. Því viljum vér

Í þridja máta álíta þetta hans ord sem lucku-ósk til vor; hans pína er ei ad eins til enda, heldur og vor fyrirdæmíng, vor skúld er betölud, vór fridþæging fullkomnud, vor qvittering undirskrifud med Jesú blódi, allt hvad Guds reidi og

réttlœti útkrafdi til vorrar ſáluhjálpar, er uppfyllt og fullkomnad, þá handſkriftina ſem móti oſs var, hafdi nú Kriſtur neglt á kroſsinn. Gal. 3. v. 13. Vorum vér ádur hladnir ſyndum og yfirtrodſl-um, þá var hann þad Guds lamb, ſem bar ver-aldarinnar ſyndir, Jóh. 1. v. 29. Vorum vér ſkuldum hladnir, þá er nú viſsulega ei hinn minnſti ſkérſur eptir af þeim, er hann ei hafi betalad; vel ſé oſs, ad þad er nú allt fullkomnad, og vér vid allar ſkuldir og ſektir lauſir ordnir, ſvo lengi vér í ſannri trú høldum oſs vid Jeſúm, erum og lifum í honum fyrir trúna, því þar er eckért fordœman-legt á þeim ſem eru í Kriſtó Jeſú, ſegir Paulus Róm. 8. v. 1. og enn aptur: Med einnri offran hefur hann fullkomna gjørt, þá ſem helgadir verda. Ebr. 10. v. 14. Jeſús hefur ecki einaſta fullkomn-ad allt fyrir oſs, heldur hefur hann og gjørt oſs fullkomna, og fullkomlega frelſad; Þad er fullkomn-ad; hann vill ſegja: mitt blód átti ad hreinſa ydur af øllum ydar ſyndum, og þad er ſkéd, allt mitt blód er úthellt. Eg átti ad bera bølvanina fyrir ydur, þad er og ſkéd: ég er ordin ein bølvan, háng-andi hér á kroſsinum; fyrirdœminguna átti eg ad lída í ydar ſtad, þad er allt ſkéd, eg hefi verid af Gudi yfirgéfinn; eg átti ad uppfylla Løgmálid fyrir ydur, þad er ſkéd, eg hefi ecki á allri minni lífstíd yfirtrodid eitt af þeſs bodordum; minn Gud! mín ſamvitſka, og hvad meira er! mínir óvinir, Pí-

latus, Heródes og Júdas, þeir allir vóttu mitt sakleysi, eg skyldi ogsvo deya fyrir ydur; nú vel, það skal ogsvo ské á þessu augnabliki; allt er fullkomnad, svo þetta ord er ei einasta eitt sigur- hróss ord fyrir Jesú, heldur og fyrir oss; vér meg- um því segja med Postulanum: hvør vill ásaka, hvør vill fordæma? Kristur er hér sem dáinn er fyrir oss, Róm. 8. v. 33. Daudi, hvar er þinn broddur? Helvíti, hvar er þinn sigur? 1 Cor. 15. Um veraldarinnar skøpun stendur þar: ad Gud hafi á þeim sjøunda degi fullkomnad sín verk. 1 Mós. b. 2. v. 2. Um veraldarinnar endurlausn, heitir þad og í dag, ad Jesús hafi hana á þeim degi full- komnad; svo fullkomin sem nú veraldarinnar skøpun og Guds handaverk eru, ad þar vantar eckért uppá og Gud hefur ei sídan þurft ad skapa nockud nýtt, heldur alleina halda því vid er hann skápad hafdi, allt eins fullkomin er og veraldarinnar endurlausn, svo þar er eckért annad, er vér þurfum, til vorrar sáluhjálpar, enn sá krossfesti Jesús; þetta Jesú ord: **Það er fullkomnad**, er sem eitt innsiglan allra hans písla; í hans opnu undum høfum vér eitt bréf uppá vora sáluhjálp, og þetta ord er sem signet þarfyrir, ad vér megum oss því framar þar uppá reida; þad er, þar ad auk, oss øllum eitt sætt hugg- unar ord, hvarvid vér kunnum ad gledja oss bædi í lífi og dauda, því ásamt hans pínu er nú vor endurlausn fullkomnud, hvad vér oss til lærdóms

enn framar viljum yfirvega; og er oss þad ei nóg-
ur lærdómur, ad Kristur hefur fullkomnad vora
sáluhjálp? Látum oss þarfyrir ei leita sáluhjálpar
í nockru ødru enn honum, Póst. G. 4. v. 12. Bøl-
vadur sé sá, sem setur holdid fyrir sinn arm, Jer.
17. v. 5. Og sá er tapadur sem vill minka Jesú
forþénustu, og meina hana ei ánægjanléga, sá sem
hjá Jesú krossi vill uppsetja nockurt annad frid-
þægíngar medal, edur nockur annann himna-stiga
uppreisa vill med sinu egin réttlæti, Jesú verdskuld-
an til nidurdreps. Jesús fullkomnadi þad hann
byrjadi, þad er oss nógur lærdómur; gjørum eins,
þad er ei nóg ad vér byrjum vel, heldur fullendum
vel, ei nóg ad vér byrjum í andanum og fullkomn-
um í holdinu, Gal. 3. v. 3. heldur séum trúir allt
til enda, Opinb. B. 2. v. 10. og verkum vora
sáluhjálp án afláts med ugg og ótta, Phil. 2. v.
12. Og er þad vor stadfesti í því góda sem á síd-
an skal kórónast. Jesús hefur fullkomnad sína pínu,
og framar vill hann ei lída, þad er oss þá nógur
lærdómur ad vér ei á ný pínum hann; ad sønnu situr
hann nú í sinni dýrd, og kann ei sem þann tíd nock-
ud framar ad lída; en aungvu ad sídur, svo framt
þú hættir ei þínu vondu athæfi, syndugur madur!
þá gjørir þú svo mikid sem í þínu valdi stendur, í
því ad pína Jesú ad nýu. Paulus segir: Ebr.
6. v. 6. ad þeir aptur krossfesti Guds Son sjálf-
um sér og haldi hann fyrir skimp; sjálfum hon-

um kanntu þad ei ad gjøra, þú gétur ei nád til hans þótt þú vildir, samt gjørir þú, þad þú kannt, og ert því aungvu betri enn Gydíngarnir, þú krossfestir Kristum á ný med þínum vísvitandi glæpum; hvør þinn ógudlegur þánki er einn þyrnir á hans høfdi, hvørt þitt hneixlanlegt ord einn hráki í hans andlit, og hvør þín vellystínga synd, ein svipa á hans hrygg; þú hatar Jesú qvalara, ad þeir léku hann saklausann svo illa út, þú formælir Júdas sem forréd hann, þú fordæmir Pílatum, sem fordæmdi hann, og þú gørir allt þetta sjálfur, þú leikur þér ad, ad blanda Jesú nafni vid syndsamleg ord, og ógudlega munneida, ad mótstanda hans heilaga ordi, og forherdast vid hans áminníngar; þykir þér sem Jesús sé ennú ecki nóg qvalinn, fyrir þína skuld, nema þú pínir hann aptur ad nýu? Edur meinar þú, ad þitt vanþacklæti, hræsni í hans þjónustu, og forøktun hans orda, sé honum nú ei framar til pínu, ef hann nockud lída kynni, já til ennþá stærri qvala, enn allar sem hann þá leid? Hann hefur nú í dag fullkomnad sína pínu, þú veitst ecki hvad snart mælíng þinna synda kann og svo ad verda fullkomnud, edur nær hans hefndardagur yfir þig fellur, lát þad því loksins og svo heita fullendad, med þína lyst og eptirlángan til syndarinnar. Þetta ord kann ogsvo ad vera oss til huggunar. Hann sem sína pínu hefur fullkomnad, hann hefur oss ogsvo fullkomnad, segir Páluș;

það gat ei Lögmálið með öllu sínu straffi og hót-
unum; en hvað því var ómögulegt, það gjörði
Guð, og sendi sinn Son í heiminn Lögmálinu
undirgéfinn. Róm. 8. v. 3. Hann hefur full-
komnað allt fyrir oss, hann vill og fullkomna sinn
krapt í vorum breiskleika, og styrkja oss allt til
enda, í því góða, sem hann hefur byrjað í oss.
Að síðustu er það oss ein sæt huggun, að sú tíð
mun koma, þá það einninn skal heita fyrir oss:
**það er fullkomnað.** Þá Guð mun frelsa
oss frá öllu illu, og innleiða oss í síns Sonar
ríki. 2 Tím. 4. v. 18. Eigum vér enn nú eptir
einn beiskann maradryck, edur einn bikar með edik
að afdrecka í veröldinni, ó! svo veri hann oss vel-
kominn, umsíðir kémur þó það fagnaðar árið fram,
nær sagt skal verða: **allt er fullkomnað.** Þá
mun Jóseph gleyma sínu fángelsi, Job sinni
ösku, Lazarus sínum sárum, og sérhvör sinni
eymd. Sá hinn réttláti hlýtur margt að þola,
segir Davíð, en Drottinn frelsar hann af því
öllu saman. Ps. 34. v. 20.

**Eilíft lof og þackargjörð sé þér, ó Herra Jesú! fyrir þetta þitt svo sætt og gledi- legt lífsins orð á þinni andlátsstundu; veit oss náð að fá rétt smackað þann krapt og sætleika sem er í þessu orði, géf oss lyst til að yfirvega, hvörsu þú**

til vorrar ſáluhjálpar hefur allt Guds rád fullkomnad, og ad fullu bætt fyrir vorar ſyndir. Ó! hvørſu fáum vér þér þad fullþackad, ad þú hefur þad fullgjørt, ér vér um alla eilífd ei gátum uppbyrjad, enn ſídur fullkomnad; géf ad þetta þitt fullkomna verk megi einninn í oſs fullkomnaſt, lát þad, ó Herra! ei verda oſs til ónýtis, heldur þannig ſem þú þad byrjad hefur, framhaldaſt í oſs allt á þinn ſtóra opinberunar-dag, ad vér í þeirri farſælu eilífd, og eilífu farſæld, fáum med þér ſagt: nú er þad fullkomnad; þá vér med øllum útvøldum ſkulum þig fullkomlega þeckja, príſa, og elſka, um allar aldir. Amen.

---

# Sjöunda Prédikun

út af

## Því ſjøunda Kriſtí Ordi á Kroſsinum.

---

Lúc. 23 Kapítula. v. 16.

Og Jeſús kalladi aptur hárri røddu, og ſagdi: Fadir! í þínar hendur fel eg

minn Anda, og er hann hafdi þetta sagt, gaf hann upp sinn Anda.

# Inngánguriнn.

Þá Herðhøfdínginn Abner hinn frœknasti madur í Israel var daudur, segir Ritníngin, ad Davíd hafi gengid þad svo nærri til hjarta, ad hann sjálfur fylgdi líkbørunum; og grét vid Abners grøf ásamt øllu fólkinu, og Konúngurinn sagdi til sinna manna: vitid þér ecki, ad í dag er fallinn einn høfdíngi, og hinn mesti madur í Israel. 2 Sam. 3. Og hvad skulum vér þá segja? I dag er fallinn einn høfdíngi í Israel, já lífsins Hertogi, vor Frelsari, og vor Gud, því skyldum vér þá ei gráta? skyldi ósß daudum og daudlegum manneskjum þad ei ofbjóda, ad hinn ódaudlegi er daudur, og vér kunnum ennþá ad lifa? Skyldi ei sképnan skélfast, þá Skaparinn er líflátinn; mætti ei hvør um sig þeinkja, nær hann heyrir þad ógnarlega ord: Jesús er daudur; vor hjartans gledi hefur enda, kóróná vors høfuds er affallin. Harmagr. 5. v. 15. 16. Skulum vér þá sundurrífa vor klædi? Skulum vér hrópa med Davíd: Absalon minn son, Gud gjæfi, eg mætti deya fyrir þig, minn son! 2 Sam. 13. v. 33. Nei, slíkt er ei vort ad gjøra, ad annar dæi fyrir þig, vor Lausnari! þarmed var

enginn bættur, en þarí er fólgin øll vor heill og sálu-hjálp, ad þú alleina ert fyrir oss dáinn; ad óska sér dauda fyrir Jesúm edur syrgja hans dauda, vildi géfa til kynna annadhvørt ofmikla fávitsku, eins og vér ei vissum hvarfyrir Jesús er dáinn, edur og slikt vildi auglýsa vora hræsni, eins og þá erfíngjar syrgja eptir einn ríkann mann, hvørs dauda þeir hafa lengi þreyd eptir, en þá þad er skéd, gjøra sér upp grát, þá þeirra hjørtu hlæja.

Nú, skal þá þessi dagur, sem var Jesú svo þúngbær, vera oss einn gledidagur? Þad sýn-ist ad vísu hardt, en þó er þad nockru nær lík-indum, því bædi vitum vér af þeirri stóru arf-leifd sem oss er tilfallin vid hans dauda, samt því stóra frelsi er hann hefur þarmed afrekad oss frá eilífum óførum, vér vitum líka ad hann er endurlifn-adur og deyr aldrei meir. Nú, hvad skulum vér þá adhafast, gráta edur gledjast? Þad skal, kjæru vinir, annadhvørt vera hvørutveggja edur hvørugt; látum oss gráta yfir vorum syndum sem Jesúm hafa aflífad, og vorum óþacklátum hjørtum, sem einskis metid hafa þess deyandi Jesú kjærleika til vor. En gledjum oss þar jafnframt, ad hann er dáinn svo vér skyldum lifa, ad vorar syndir hafa deydt hann, og hans daudi aptur ámót deydt vor-ar syndir; þad skal oss hjartanlega ángra, ad hans qvalir voru svo bitrar, og hans daudi svo forsmán-

arlegur, en gledjum oss jafnframt vid þau sálu-hjálpar-not sem hann hefur oss afrekad med þess-ari sinni pínu og dauda; edur og vér viljum hvørki gledjast né grátta í dag, þad sídara hefur hann sjálf-ur bannad oss, Lúc. 23. v. 28. Þér Jerúsalems dætur, grátid ei yfir mér, heldur grátid yfir yd-ur sjálfum og yfir børnum ydar; látum oss held-ur alleina setjast um kyrrt, vid hans kross, og í-huga hans andlát, og mun þá sannarlega sérhvørs fyrsti þánki, ord og ósk verda þessi: ó! ad eg þann-ig deya mætti sem minn Jesús, med svoddan ró-semi, ánægju og trúnadar trausti til Guds í hjart-anu, og þessi hans ord í munninum; vér megum þessvegna í þvílíkri yfirvegan Jesú dauda taka Balaams ord oss í munn. 4 Mós. b. 23. v. 10. Mín sál deyi réttlátra manna dauda, og mitt sídasta verdi líkasem þeirra sídasta.

Balaam Beorsson var Spámadur og þó undir eins vondur madur; hann lét Balach Móabita Konúngur sækja til ad formæla Israels fólki, þá þad reisti gégnum hans land; nú vissi Balaam vel ad þad var á móti Guds vilja ad bølva Guds fólki, játadi og, slíkt mundi ad aungvu haldi koma, ad bølva þeim, sem Drottinn vildi blessa; ei adsídur vildi hann, þvert á mót Guds advørun, og sinni samvitsku, reyna til, ad vera Balach til vilja hér í, svo hafdi hid fagra gull forblindad hann; en hvørt sinn sem hann ætladi ad

framqvæma sinn vondsku ásetníng, hélt ein mátt-kari hönd honum til baka, svo hann móti sínum vilja blessaði Israels börn; og þá hann með Balach var staddur á einu háu fjalli, og sá allar Israels herbúðir standa þarundir, niðri í dölunum, varð hann svo frá sér numinn, og inntekinn yfir far-sæld þessa fólks, er Gud bar svoddan gjæðskuríka umsorgun fyrir, að hann, sem fyrir utann sanns, og sjálfann sig, upphrópaði; ó! að mín sál deyi þessara réttlátu manna dauða, og mitt ed sídasta verdi sem þeirra sídasta! Madurinn var vondur, en óskin góð, hér má sjá einn upplýstann skilníng, og rángsnúinn vilja, hann vill lenda með þeim rétt-látu, en sigla með þeim ógudlegu. Nú, það hindr-ar ecki þó madurinn væri vondur, þar hans ord eru góð, og þau skulum vér hjá honum til láns taka. Kristur segir: að vondir foreldrar kunni að géfa börnum sínum gódar gáfur. Lúc. 11. v. 13. og því er ei undur þó hér finnist mikid gott í þessum Balaams ordum; hann minnist á sinn dauda, nú þá hans líf sýnist vera í blóma sínum; það var mikið gott; hann segir enginn fari vel í daudanum, utan þeir réttlátu, því óskar hann sér og þeirra dauddaga, og það af heilum huga, þess-vegna tvítekur hann óskina: mín sál deyi rétt-látra manna dauda, og mitt sídasta verdi sem þeirra sídasta; það var og ypparlegt; svo hér brest-ur ei utan eitt, en það er höfudstyckid, nefnilega:

að hann lifði ei eptir því sem hann sagði; hann óskar, en leitar ei þess sem hann óskar; sá lati deyr yfir sinni ósk, segir Salómon; Orðsqv. 21. v. 25, hann óskar lengi vel, en fær ekkért, því hann vill ekkért til vinna; væri manneskjan svo fús og kappsøm í að leita sáluhjálparinnar, sem hún er gjørn til að æskja sér hennar, ætla eg Helvíti mundi tómt verða, en í himnaríki þarímót, snarlega fullskipað. Það er skrifað um einn úngann sælkéra, sem staddur var við andlát hins heilaga Ambrosii Biskups, og sá hans sáluhjálplegann afgáng, að hann hafi snøgglega vendt sér til sinna lyndislíku stallbræðra, segjandi: ó, að eg mætti lifa með ydur, en deya með honum! en það fer ei saman, að lifa sem sá ríki sælgætíngur, og deya sem sá réttláti Simeon, að burtsofna hér í faðmi Dalilæ, en uppvakna á síðan í faðmi Abrahams, það tekst aldrei. Farið egi villir vegar, því Guð lætur ei að sér hæða. Gal. 6. v. 7. Hvað sem maðurinn sáir niður, það mun hann uppskéra. Það er næsta uggvænt að Balaam hafi hér ratað á óskastund, og ei er í Ritníngunni gétið hans umvendunar, heldur hins, að hann það skálkaráð géfið hafi, að ef Balach vildi láta formæla Israels børnum, svo mætti hann fyrst leita lags við að tæla þau til að styggja Guð, því þá mundi sér auðveldara verða að formæla þeim; Balach skyldi alleina koma nockrum fríðum qvinnum inní þeirra

herbúðir (með hvørjum hætti að Andskotinn hefur svo tídt fært bølvun yfir manneskjuna) og heppnaðist það einninn hér. 4 B. M. 31. v. 16. En svo sem þetta var Balaams ráð, svo mátti hann og sjálfur síðan á því kénna; því þá Israels lýður hafði syndgað, Drottinn ogsvo hafði refsað þeim þarfyrir, og var nú aptur friðstilltur, bauð hann þeim að hefna sín á Madíanítunum, svo þeir slóu í hel allt kallkyns á meðal þeirra, samt sjálfann Balaam. 4 B. M. 31. v. 17. og fékk hann ei að deya með Israels børnum, er hann sér óskað hafði, heldur mátti deya með Madíanítunum, með hvørjum hann hafði syndgað; það er til einskis að margir eru vongóðir um sinn kristinndóm, af því þeir finna hjá sér sterka eptirlaungun til sáluhjálparinnar; þar er væntanlega einginn svo holdlega sinnaður, að hann vilji ei heldur fara eilíflega vel, enn illa; ein góð ósk og hræríng í hjartanu, er ein ófullkomin bevísíng mannsins umvendunar og endurfædíngar, og varla er nockur svo ógudlegur, að hann ei þess á milli finni hjá sér hið innra góðar hugsanir, og sterka drift hjartans, til að samsinna því góða; en hvør sem af þessu alleina þykist viss vera um sína sáluhjálp, hann svíkur sjálfann sig. Framvegis sjáum vér hér af Balaams dæmi, að Guðs ótta fylgir ætíð nockuð þesskonar, er jafnvel guðlausir menn hljóta að bera lotníng fyrir, og látum vera guðrækni sé fyrirlitleg í lífinu, þá

hrósar hún þó sigri í daudanum; þeir jafnvel sem halda Guds børn fyrir vidundur, og þeirra lifnad og hegdan fyrir dárafkap, þeir sjálfir sem hafa hatur og ópocka á þeim, fyrir þad þeirra framferdi er svo ólíkt, þeir mega jafnvel prísa þau sæl í daudanum; þeir ed akta sér þad fyrir skømm og óvyrdíng ad líkjast þeim í lífinu, æskja sér þó ad vera komnir í þeirra stad, þá deya skal. O! látum ofs ad eins halda ofs fast til og vid ótta Drottins, því sá tími mun koma ad jafnvel þeir, em nú hnidra honum skulu segja: O! vér dárar, vér fórum villt, sjá! þeir ed vér fyrri dárudum, þeir eru nú reiknadir í tølu Guds barna, Spek. B. 5. v. 5.

Pá Balaam taladi greind ord, var hann staddur á einu fjalli, og leit nidur til Guds fólks í dølunum, vér þarímót sem støndum líkt sem undir fjallinu, og lítum þadan uppá Golgatha til ens deyandi Guds Sonar, vér viljum nú taka Balaams ord ofs í munn; ó, sætasti Jesú! vor blessadi brúdgumi, vér støndum hér nú líkt sem undir þínum krossi, til ad heyra og íhuga þitt sídasta andvarp; unn ofs, hjartkjæri Lausnari! ad vér í anda sjá meigum, hvørsu sætlega þú hefur burtsofnad, og ad því fengnu, andvørpum hvør um sig, af innilegri hjartans eptirlángan: mín sál deyi þessa réttláta manns dauda, og mitt sídasta verdi sem hans sídasta; ó! ad vort sídasta mætti verda svo

sáluhjálplegt sem þitt sídasta, ó! ad þín síðustu ord á krossinum mættu verda vor sídnstu ord á jørdunni.

Eg hefi ádur sagt ad øll Jesú ord eru lífsins ord, einkum sjø þau síðustu, enn nú vil eg þar til leggja, ad þad sídasta af þeim sjø (hvørt vér høfum oss nú til yfirvegunar tekid), er þó allra einkanlegast eitt lífsins ord; þad var fullt af lífsins fullvissu fyrir hann sjálfann, þad er og fullt af lífsins trúartrausti fyrir oss; ef eins deyandi manns, edur einkum góds vinar andláts ord eru oss minnisstæd, svo ætlast eg til, og krefst þess, uppá míns Jesú vegna, ad þetta allrasídasta ord, sem hann til vor taladi, þá hann leid fyrir oss, megi í vor hjørtu djúpt innþryckjast. Jótham stód fordum efst uppá fjallinu, og kalladi med hárri raustu: Þér menn í Síchem, heyrid mig! ad Gud heyri ydur aptur, Dóm. B. 9. v. 7. Svo hrópar nú Jesús efst á fjallinu Golgatha, med hárri raustu, ei þessvegna ad hans Fadir þad heyra skuli, því hann heyrir einnin þær huldu hjartans andvarpanir, heldur ad vér allir þad heyra skulum, og þad þreyngi sér því dýpra inní vor hjørtu, hann vill segja: heyrid mín ord, þér jardarinnar innbyggendur! ad Gud aptur heyri ydar ord; heyrid mín ord á krossinum, ad Gud heyri ydur aptur, nær þér liggid undir krossinum; heyrid mín síðustu ord á daudastundunni, og eg aptur á mót heyri ydar ord á ydar daudastundu. Látum oss hér af hon=

um læra, hvoxnin vér eigum sáluhjálplega ad deya, og yfirvega

1) Þad sídasta ord Jesús taladi: Fadir! í þínar hendur fel eg minn Anda.
2) Hans síduſtu hegdan og bendíng í daudanum; ad hneigdu høfdi uppgaf hann sinn Anda.

## Utleggíngin.

Þrjár eru þær listir sem einum kristnum manni eru harla naudsýnlegar, já ómissandi ad læra hér í lífi; hin fyrsta er ad þola vel, ønnur ad bidja vel, og þridja ad deya vel; þad er audsært, hvørsu naudsýnleg list þad er kristnum manni ad þola vel, því kross og þjáníngar eru líkt sem vors kristinndóms prófsteinn, og vor gudhrædsla er eckért, svo lengi hún hefur ei reynd verid í eldinum. Sú list ad bidja vel, er ei sídur þarfleg; margir bidja og ødlast ecki, segir Jacob, af því þeir bidja ránglega. Jac. 4. v. 3. en hún er aungvu audnæmari, enn hin fyrri, og lángt frá ei svo hæg sem margur hyggur, og er sá eckért smámenni í sínum kristinndómi, sem jafnvel einn fjórda part af stundu gétur haldid vid í einnri trúadri bæn, án annarlegra hugrenníuga. En sú list ad deya vel gengur yfir allt, hún er hin allra naudsýnlegasta, og jafnframt því svo torveld, ad einn kristinn mad=

ur hefur fullt í fángi ad læra hana, alla sína lífs-tíd. Allar þessar listir fáum vér best lært af vorum Frelsára á krossinum; vel ad þolá, kunnum vér af aungvum betur ad læra enn honum, er leid meir enn nockur manneskja kunni ad lída, og þad med stakri hógværd og þolinmædi. Vel ad bidja kénndi hann oss, ei einasta í lífinu, heldur og í daudanum, þá hann bad fyrir sér og ødrum, vinum og óvinum, og óffradi, sem Páls vottar, bænum og beidni med øblugu kalli og táraføllum Ebr. 5. v. 10. En einkum og sérdeilis meg-um vér af hónum læra ad deya vel; ei einasta ad búast kristilega vid daudanum, med ad laga vort líferni eptir Kristí reglum og eptirdæmi, heldur lærum vér nú í dag sérdeilislega þá list og konst, ad deya vel og réttilega á sjálfu daudans augnabliki. Komid þá, þér daudlegir menn! og látum oss nú læra af einum ódaudlegum Gudi þá stóru konst og frægd ad deya vel, látum oss grand-gjæfilega íhuga hans sídustu endalikt, látum hana djúpt innprentast í vór hjørtu, hennar kríngumstædur eru fyrir vora skuld og oss til eptirdæmis uppteiknadar, er vér sjáum þaraf, ad Stephanus hinn fyrsti píslar-vottur þess Nýa-Téstamentis, hefur í sínu andláti brúkad, bædi hid fyrsta og sídasta ord Kristí á krossinum. Post. G. 7. v. 59. 60. O! ad oss væri eins audveldt, ad læra af Jesú, ad tala þessi ord, med fullu trúnadartrausti

hjartans, sem oß er ad hafa þaú eptir med munn-
inum!

Þetta sitt sídasta órd hafdi Jesús tekid af
Ritníngunni, nefnilega; þeim 31ta Sálmi Davíds;
þar af sjáum vér þá stóru lotníng, sem Jesús, þad
undirstødulega Guds ord, Jóh. 1. v. 1. hefur
borid fyrir Guds opinberada ordi, hann, hvørs ord
voru í allann máta svó gyld og krøptug sem Ritn-
íngarinnar ord, hann vildi þó ecki brúka ønnur ord
enn hennar, og lánadi svo nær hvørt sitt ord af
Biblíunni; og líkasem hónum byrjadi ad deya ept-
ir Ritníngunni, svo vildi hann og deya med Ritn-
íngúna, og med Ritníngarinnar órd í munninum,
til ad kénna oß, hvørsu hátt vér eigum ad meta
heilaga Ritníngu, er vera skal vors líferuis réttar-
snúra, vor styrkur í neydinni, og vor huggun í
daudanum; hérvid mega þeir skammast sín, sem
hafa svoddan óbeiti á ad lesa Biblíuna, og eru svo
snaudir af Skriftarinnar greinum, ad þá þeir jafn-
vel í þeirra neyd edur deyd, vilja tala eitt gott ord,
svó géta þeir eckért fundid; þetta er og jafnframt
harla merkilegt, ad ei ad eins þetta sídasta ord,
heldur og flest hin ønnur er Jesús taladi á kroß-
inum, voru tekin af Davíds Sálmum, þad skal
minna oß á ad vér látum oß þeßa bók Biblí-
unnar einkanlega kjæra vera, já, kjærari enn mørg
stycki gulls og silfurs; hún er einn mid-púnktur
Biblíunnar, ein Paradís, full med lífsins aldini,

og einn himin, með føgrum og ſtórum ſtjárna=ſkara; hún er ſem ein lítil Biblía full með þeim allra=andríkuſtu þaunkum, kroptuguſtu huggunum og ſætáſta kjarna allra Guðs orða; og hvørſu kjær ætti ei ſú bók að vera óſs, er ſjálfur Guðs Son valdi ſér til brúkunar, øðrum framar á ſinni dauða=ſtundu, og hvørſu dýrmæt ſkulu þau orð ei vera óſs, ſem Guðs Sonur hélt dýrmætari enn ſín eigin orð.

Látum óſs nú gánga nær þeim fyrrá parti ræðunnar, og orð fyrir orð, grandgjæfilega yfirvega þeſſi ſíðuſtu Kriſti orð: **Faðir! í þínar hendur fel eg minn Anda; Faðir!** ſegir hann; nýlega hafði hann kallað hann ſinn Guð, þá Guð ei áleit hann ſem ſinn Són, heldur ſtraffaði hann rétt allt eins ſem einn ſyndara, þá hann fann á ſér liggjandi allt Guðs réttlæti yfir ſyndinni, þá talar hann til Guðs ſem eins réttferdugs og vand=lætandi Guðs, þó ei án trauſts, heldur ſem ſíns Guðs, ſegjandi: **Guð minn! Guð minn!** en nú var ſólin tekin apbur að ſkína, og hin bitraſta ſálar=ángiſt umliðin, og nú heitir það, **Faðir!** Þetta føður=nafn brúkaði Jeſús þriſvar í ſinni pínu, þá hún byrjaðiſt, þá hún ſtóð ſem hæðſt, og þá hún endaðiſt; í grásgarðinum ſagði hann: **Faðir! ef það er mögulegt, þá tak þennann kaleik frá mér**, ſíðan, þá búið var að negla hann á kroſſinn: **Faðir! fyrirgéf þeim;**

og nú loks á sídasta augnabliki hans pínu: Faðir! í þínar hendur fel eg minn Anda, til að sýna þarmed, að hvørsu þúng sem Guds hønd var yfir honum, þá þeckti hann þó í øllu þessu Gud, sem einn nádugann Fødur; hann hafði lifad sem hans hlýdinn Son, þannig vildi hann og deya, og vera sínum Fødur hlýdinn, allt til krossins dauda. Phil. 2. v. 8. uppá það vér læra skyldum að horfa í gégnum øll vor dymmu sorga ský inn í Guds Fødurs hjarta, og þeckja hann alltíd fyrir þvílíkann, jafnvel þó hann sýnist láta allar sínar vatnsbylgjur yfir oss gánga; sínu egin nafni kann hann ecki ad neita, og enn sídur sínu egin hjarta, líkasem Faðirinn er børnunum líknsamur, eins er Drottinn miskunsamur vid þá sem hann óttast. Ps. 103. v. 13.

Sérílagi vildi Jesús deya med þetta Fødurnafn í munninum, því það var hin hardasta sakargift Gydínganna á móti honum, að hann sagði Gud væri sínn Fadir, þessvegna vildu þeir eitt sinn grýta hann; og yfir þessu sem annari gudlastan sundurreif hinn ypparsti Prestur sín klædi. Matth. 26. v. 65, og sjá! þessa sína sannleiks medkénníng vildi Jesús hér innsigla med sínum dauda, med því sæta Fødurs nafni upplauk hann sínum munni á krossinum í því fyrsta órdi, og med hinu sama apturlætur hann nú sinn munn í þessu sínu

sídasta ordi: Fadir! í þinar hendur fel eg minn Anda.

Fyrir Kristi Anda á hér ad skiljast hans sál, hvad því framar er athugaverdt, sem þar hafa verid nockrir af þeirri fráleitu meiníngu, ad Kristur hefdi aungva sál, og fært þad til síns máls ad skriftin segi, Kristur hafi uppá sig tekid hold og blód, en géti hvörgi um sálina; hann hafi ei heldur þurft sálar vid, annarar enn síns guddóms er sameinadist holdi og blódi; en þessi meiníng er berlega raung; því hvörnin mátti Kristur kallast sannur madur, ef hann hafdi ei bædi sál og líkama, þá tvo verulegu parta mannsins, og hvörnin kann þá ad segjast, ad hann sé ordinn oss ad øllu líkur, ad syndinni fráteknni; þar ad auk, hafi guddómurinn alleina verid hans sál, sem þessir fávísu sérvitríngar halda, þá hefdi hid óuppleisanlega einíngarband millum þeirrar guddómlegu og manndómlegu náttúru Kristí, uppleist ordid í daudanum, þá hefdi Kristur dáid sem eintómis manneskja, og hvørninn kunni þá hans daudi ad afreka vora endurlausn? Héraf er audsært, hvørsu hættuleg þessi meiníng er, en hitt er víst, ad Kristí sál í daudanum var Guds Sonar sál, og hans líkami Guds Sonar líkami, svo þá sálin var Gudi afhendt, og líkaminn lagdur í grøfina, vard þó enginn skilnadur á milli guddómsins og manndómsins, en guddómurinn fylgdi bádum, og hélt bádum vid makt.

Í høfudtúngumálinu hefur þetta ord: **eg fel** (á **hendur**) tvøfalda merkíngu; fyrst merkir þad ad bidja einn gott fyrir eitthvad, bædi þá vér tølum til annars besta, edur gefum vor málefni og naudsynjar ødrum í vald til bestu umsorgunar, líkt sem þá vér ad skilnadi felum Gudi vora vini, þad er, med vorum fyrirbænum afhendum þá Guds varatekt; þanninn brúkar Pálus þetta ord, í qvedju sinni til brædranna í Ephesó: **og nú, kjærir brædur! fel eg ydur Gudi og ordi hans nádar, hvør máttugur er ad géfa ydur arftøku medal allra heilagra.** Post. G. 20. v. 32; á þann hátt kann þad og hér ad skiljast, ad Jesús hafi falid, þad er: afhendt, sína sál í Guds varatekt, uppá þennann máta megum vér og brúka þetta ord á vorri daudastundu, þá Andskotinn umsitur oss, og sækir eptir sálum vorum sem grádugt ljón og húngradur úlfur, ad vér þá bidjum vorn himneska Fødur, ad taka vorar sálir til sín, og láta þær af Englunum bornar verda í Abrahams skaut.

Parnærst merkir þetta ord og svo, ad nidursetja, edur leggja, svosem þá einn pantur edur viss hlutur, er einum fenginn til tryggrar geymslu, inntil honum er skilad aptur á sínum tíma. Svo brúkar Pálus þetta ord, segjandi til Tímótheum: **ad hann skuli vardvelta þad góda sem hjá honum er nidurlagt, þad er: honum á hendur falid,** tiltrúad. 2 Tím. 1. v. 14. og Kristur, er hann segir: **hvørjum mikid er í hendur selt, af honum heimtist mikid.** Lúc. 12. v. 48. Eins og þá einn reisir lángt í burt, en getur ei med sér haft allar sínar eigur, þá setur hann sína ágjætustu dýrgripi

til geymslu hjá sínum bestu vinum, med þeim skilmála, ad þá hann kémur aptur, megi hann fá þá heila og haldna; og þad er ordsins merkíng í þessum stad; Kristur átti nú fyrir daudann, ad reisa út af veröldinni, hans dýrmætasti féssjódur var sálin, og vissi hann aungvann trúfastari vin ad fá þennann féssjód til vardveitslu enn sinn himneska Födur; honum afhendir hann nú sína sál, og framleggur þarmed fulla roksemd sinnar upprisu, því hvad einn þannig fær vin sínum til vardveitslu, þad ætlar hann sér sídar meir aptur ad taka. Svo og þá vér á vorri daudastundu höfum þessi ord eptir Jesú, svo géfum vér þarmed tilkynna fullvissu vorrar upprisu, og ad vor sál ei deyi í daudanum, heldur fari til síns heimkynnis, og Guds tryggvustu vardveitslu, þartil henni verdur á sídasta degi aptur skilad til síns gamla herbergis líkamans.

Enn hér er enn þá fleira í þessu Jesú ordi innifalid, nefnilega: ad Jesús hefur og hérmed afhendt sínum himneska Födur vorar sálir; allt eins og hann bar vorar syndir, leid vort straff, og dó fyrir oss, svo felur hann Gudi á hendur sína sál, ásamt allra þeirra, er fyrir hans dauda skulu sáluhólpnir verda; þad vottar hann sjálfur hjá Jóhannem 17. v. 24. Fadir! eg vil ad þeir ed þú gafst mér, séu þar sem eg er, og í krapti þessarar hans fyrirbónar, megum vér á vorri daudastundu óhultir fela vorar sálir í Guds hönd, já, og hvad meira er, Jesús hefur allareidu afhendt honum þær, því vér erum ei einasta hans límir, og vorar sálir límir hans sálar (ad eg svo ad ordi komist), held-

ur ad vitni Páls, ef vér Kristó tilheyrum, þá erum vér einn andi med honum. 1 Cor. 6. v. 17.

Hønd edur hendur sem ritníngin tilleggur Gudi, hvør þó er einn Andi, merkir stundum hans ørlæti og gódgyrni; hann upplýkur sinni hendi og sedur allar lifandi sképnur med sinni blessan, segir Davíd. Ps. 145. v. 16. Stundum hans forsorgun og umhyggju sem hjá Esaíam: hann hefur teiknad oss í sínar hendur. Es. 49. v. 16. Stundum hans almætti sem hjá Davíd: hægri hønd hins hædsta kann øllu ad umbreyta. Ps. 77. v. 11. Stundum Guds vernd og vardveitslu, sem Kristur segir: minir saudir heyra mína rødd, og enginn kann ad slíta þá af míns Fødurs hendi. Í þessari meiníngu sem og hinum ødrum afhendum vér ásamt Jesú, sálir vorar til Guds, bædi í lífi og dauda, því segir Postulinn: þeir sem lída eptir Guds vilja, skulu honum sínar sálir á hendur fela, sem trúlyndum Skapara í gódum verkum. 1. Petr. 4. v. 10. Híngad til hafdi Jesús verid undir mannanna høndum, því svo er adqvedid, ad hann skyldi í manna hendur ofurseljast, og er þad kunnugt hvørsu þær hendur høndludu med hann. En nú þá hann hafdi allt þad lidid sem hann lída átti, og var allareidu kominn úr mannanna høndum, svo heitir þad: **Fadir! í þínar hendur fel eg minn Anda;** og þannveg var nú hid sídasta ord og andvarp af Jesú blessada munni; látum oss enn framar yfirvega:

2) Hans sídustu hegdan þá hann taladi þessi ord; textinn segir: hann kalladi hárri røddu, hneigdi høfudid, og gaf upp andann; þá vér høfum ver=

id stabbir vid góds vinar andlát, og sjed uppá hans harda daudastríd, þá plagar ei einasta hvørt hans ord ad gánga oss miög til hjarta, heldur er hans ásýnd og hegdan, oss lengi á eptir fyrir hugskots sjónum, og ber jafnvel fyrir oss þá vér sofum, svo nær vér vøknum, er þad sem þeim framlidna bregdi fyrir augu vor. Nú, kjæru vinir! ydar Frelsari deyr, vér støndum í dag, og líktsem størum á hann med vorum hugskots- og trúar-augum, vér heyrum hans mikla hróp, hans sídasta andvarp, og vér merkjum hvørsu rósamlega hann uppgéfur andann. Er þad nockud sem á ad vera oss minnis stædara? Hans blódskraptur er ennú svo ferskur sem hinn fyrsta dag, til hreinsunar vorum sálum; látum því ímind hans dauda ætíd vera ferska og nýa í vorum hjørtum, og látum hann alltíd vera oss fyrir augum afmáladann; heyrum þá hvørsu hann kallar, sjáum hvørsu hann hneigir sitt høfud, og adgjætum hvad rólega hann uppgéfur Andann.

1) Hann kalladi hárri røddu; medal þeirra sjø orda er Jesús taladi á krossinum, voru þar tvø sem hann taladi svo med hárri røddu, nefnilega: hid fjórda og þetta sídasta, sem hin viktugustu og merkilegustu; hafdi hann ádur med hárri røddu hryggt sína elskendur, sem sá er af Gudi væri yfirgéfinn, og ei mætti lengur til Guds tala sem Fødurs, svo vildi hann nú aptur gledja þeirra sálir med eins hárri røddu, og loksins ávarpa Gud sem sinn elskulegann Fødur; hans fjandmenn høfdu ádur, þá hann sagdi, Elí, Elí, tekid sér efni til ad spotta hann, sem þann ed væri yfirgéfinn af Gudi, og leitadi traustss hjá mønnum, þessara hádfugla

munn vildi hann nú með þessu kalli tilbyrgja, og láta þá sjá að hann ennú treysti á Guð en ecki mennina. Hér er og að finna eina stóra røksemd hans guddóms og almættis, því það var sannarlega ei náttúrlegt, að einn maður, ørmæddur af qvøl og blóðrás, og uppþurkaður af hita og þorsta, sem að minnsta kosti í þrjár stundir hafði hángt á krossinum, að hann, segi eg, gjæti talað hátt enn síður kallað, og það undir sjálfann dauðann; því menn sjá, að við lánga sótt dregur svovel af manni mál sem megn, og þykir það vera merki til skammlífis, þá túngan drafar í veikum manni, og hann loks, í dauðans ofboði, eckért kann tala. Svo er þá þetta Jesú kall eitt vitni þar til, að það var ei eintómis manneskja sem hér dó, og að hann hafði ennú krapta til að lífa lengur; það sannaðist og hérvið sem aðra hans hegðan í dauðanum, er hann áður sagt hafði: enginn tekur mitt líf af mér, heldur legg eg það frá mér sjálfur. Jóh. 10. v. 18. Því tekur Guðspjallamaðurinn Marcus til þess, að þetta kall ásamt hinum øðrum táknunum, hafi sannfært høfuðsmanninn þarum, að Jesús væri Guðs Sonur, segjandi: en er høfuðsmaðurinn sá það hann kallaði svo þegar hann létst, sagði hann: sannarlega hefur þessi maður verið Guðs Sonur. Marc. 15. v. 39. Hann hrópaði, sem einn sigurvegari, sem ein voldug hetja er sigraði dauðann, miðt í dauðanum; því mega hér heimfærast Esaíæ orð: Drottinn mun útfara sem ein hetja, hann mun gleðja sig sem einn stríðsmann, hann mun sína óvini yfirvinna, hann mun þegja um stund, og vera hljóður, en

nú vill hann hátt hrópa og þá uppsvelgja. Esaí. 42. v. 13. 14. Ei er ofs þad møgulegt, ad breyta eptir vorum Jesú med þvílíku hrópi á daudastundunni, og er líklegt vér verdum meir ørmagna enn svo, ad vér þad gétum, ef vér deyum náttúrlegum dauda, en þad er huggunin, ad Drottinn heyrir einsvel, vorar andvarpanir, sem vort hróp; þá Móses var staddur milli þess rauda hafs, og Pharaonis herlids, þordi hann ei ad tala hátt, svo hans egid fólk skyldi ei ædru-ord á honum heyra, heldur andvarpadi hann einasta til Guds um hjálp, svo lágt og lidlega í sínu hjarta; þá sagdi Drottinn til hans: Móse! því kallar þú svo til mín? 2 b. Mós. 14. v. 15. Svo er og vor andvarpan, þá hún framkémur af hjartanu og trúnni, eitt øblugt hróp í Guds eyrum. Framvegis segir Gudspjallamadurinn:

2) Ad hann hafi hneigt sitt høfud; hvarmed Jesús líktsem gaf daudanum teikn, ad hann mætti nú gjarnan koma, því nú vildi hann skilja vid; hjá ødrum manneskjum merkist, ad dauda-strídid framar reisir høfudid og upréttir hálsinn, en undir eins og ønden er útfarin, þá linast sinarnar og høfudid hnígur; Jesús þar á mót hneigdi høfudid sjálfur fyrr enn hann deydi, og líkasem þreittur madur, lagdi sig til hvíldar í ørmum síns himneska Fødurs; á Guds sídu var þessi hans sídasta hegdan eitt audmýktar merki, ad Jesús væri sínum Fødur hlýdinn allt í daudann; í tilliti til hans ástvina var hún eitt skilnadar-teikn, hvarmed hann lét sjá sinn kjærleika til manneskjunnar og sína lyst til mannanna barna, og var þad líktsem hann

hér med vildi lúta nidur ad þeim, og bydist til ad heyra, ef þeir vildu enn þá bidja sig nockurs; ad sídustu heitir þad:

3) Hann gaf upp sinn anda; hvarmed enn aptur ávísast, hvørsu viljugur hann dó, ei sem einn er hlaut ad deya, heldur sem sá er sjálfur útgéfur sitt líf; um oss heitir þad, ad vor andi takist frá oss, vorrar sálar sé krafist af oss; á þessari nóttu munu þeir þinnar sálar af þér krefja; Lúc. 12. v. 20. edur ad øndin útfari, sálin burtvíki af líkamanum. Ad sønnu brúka ei allir Gudspjallamennirnir hér um sama ord, en þó verda þeir allir þar í samhljóda, ad hann dó viljugur. Jóhannes segir: hann gaf upp sinn anda; Mattheus: hann útsendi (hann); Marcus og Lúcas: hann útblés sínum anda. Jóh. 19. v. 30. Matth. 27. v. 50. Marc. 15. v. 37. Lúc. 23. v. 46. svo ad Augustínus hefur réttilega sagt: hvør fær svo sofid nær hann vill, sem Kristur deydi nær hann vildi? Allar þessar kríngumstædur vitna, ad Kristí daudi hefur verid hægur og rólegur, ad svo beisk sem hans pína var, hans qvøl megn, og hvør hans andardráttur þúngur, svo létt, sætt, og rósamlegt hefur hans andlát verid, svo ad, eptir þad hann sagt hafdi: Þad er fullkomnad, skyldi á hans útvortis ástandi audsjed vera, ad Guds reidi yfir syndunum væri ad fullu forlíkud; þad veri lángt frá mér, ad eg vilji gjøra lítid úr Jesú pínu; æ nei! því stærri sem hans pína var, því stærri er og vor gledi og sáluhjálp; þad veri lángt frá mér ad segja: Jesús hafi ei smackad daudans beiskleika, því hvørninn skyldi daudans broddur vera

burttekinn, ef daudinn hefdi ei stúngid hann med sínum broddi? Nei, til daudans beiskleika hefur hann ad fullu kénnt í allri sinni pínu, í sínu strídi vid daudann í grasgardinum, og í þær þrjár stundir er hann héck á krossinum, þá allir óvinir og allt syndarinnar straff píndi hann og qvaldi á sál og líkama; heldur vil eg þetta einasta sagt hafa, ad nú, eptir þad Jesús hafdi sagt: **Þad er fullkomnad**, þá hefur daudinn ei sýnt neina makt edur vald yfir honum, því annars hefdi hann af daudanum sigradur verid, nú hefur hann miklu framar bendt daudanum sem einum þénara, ad hann mætti nú koma, og er þad lángt frá, ad daudinn hafi þá hrifid hans sál út af líkamanum, heldur hefur Kristur med stórri rósemi lagt hana frá sér í daudanum, hvad oss enn nú skal á þad minna, ad upphrópa med Balaam: **Mín sál deyi dauda þessa ens réttláta, og mitt sídasta verdi líkasem hans sídasta.**

Svo hafa nú Gudspjallamennirnir, til vorrar andaktar allar kríngumstædur svo grandt uppteiknad, sem og einninn, ad hann hafi dáid um þá níundu stund, þad er, um nón, edur kluckan 3 eptir middegi, þá verid var ad fórna qvøld offrinu í Musterinu, og menn voru farnir ad slátra Páskalambinu; þeir hafa tiltekid daginn, sem var adfángadaguriun fyrir Páska, og føstudagur; á þeim sama degi sem hinn fyrri Adam var skapadur, deydi hinn annar Adam; á þeim sama degi sem sköpunar-verkid var fullkomnad, var og fullkomnad endurlausnar-verkid, en þad er merkilegt, ad þó þessar kríngumstædur séu ritadar med svoddan gaum-

gjæfni, þá er þó hvørgi nefnt árid; hvørki verald-arinnar ár, sem þessvegna ei kann útreiknast til neinnrar vissu, né Kristí aldurs ár, svo ei verdur víst sagt, hvad gamall ad Kristur deydi; og er þessi kríngumstæda því athugaverdari, ad vér í því gamla Testamenti, finnum hartnær allra forfedra og mik-ilsháttar manna aldur tilgreindann, þá þeir hafa burtkallast, en í øllu nýa Testamentinu finnst ei nockurs merkismanns, píslar-votts, né Kristí sjálfs, ad því gétid, hvad gamlir þeir ordid hafi; og er þad sannlega ei án orsaka, máské ei sídst þess-vegna, ad þau stóru fyrirheit hins gamla Testa-mentis, voru mest um tímanlega blessan, sem skugga og fyrirmyndan uppá ønnur betri gjædi, en nú í því Nýa-Testamenti, nú ad vér høfum fyrirheitin svo miklu ypparlegri, og veglegri von til eins ann-ars betra lífs, svo þurfum vér ei framar ad á-líta þetta tímanlega, sem er forgengilegt, segir Pál-us, nú vill Guds Andi ei álíta tímanlegann aldur fyrir nein gjædi. Jesús dó á hans besta aldri, og þó heitir þad svo, ad hann skyldi verda gam-all og lifa lengi, þad er, um ár eilífdarinnar; svo megum vér ei heldur álíta Guds nád eptir ára-fjøldanum; nú er þad eins stór Guds blessan, ad hann burttekur oss á únga aldri, sem hitt, ad hann lætur oss verda gamla; ó! séum vér trúnd Guds børn, svo kunnum vér ei ad hafa mikla lyst eptir laungum lífdøgum, edur akta þá fyrir stór gjædi, heldur gledja oss þarvid, ad vér jafnvel á þenn-ann hátt kunnum ad deya med Jesú; þad ætla menn almennilega, ad Kristur hafi verid hér um þrjátíu og fjøgra ára, þá hann deydi. Nú var þad

í gamla Testamentinu haldid ein blessan fyrir þá frómu, ad þeir skyldu verda lánglífir á jørdunni, og þad var straff þeirra ógudlegu, ad þeim yrdi svipt í burt ad hálfnudum þeirra lífdøgum; þeir skulu ei fá hálfnad sína lífdaga, segir David. Ps. 55. v. 24, og er þá Jesus í þessu medal ógudlegra reiknadur, því hann hálfnadi varla sína lífdaga, edur hid fulla manneskjunnar lífdaga skeid, sem er sjötíu ár, og nær þad kémur hátt, áttatíu, sem Móses vottar. Ps. 90. v. 10. því segir Daniel: ad Kristur skuli upprættur verda, Dan. 9. v. 26. og Esaias: ad hann skuli burtryckjast af landi lifandi manna, fyrir fólksins misgjørnínga sakir. Esaí. 53. v. 11. Hvarmed hann hefur og þá Løgmálsins bølvan íburt tekid, svo þad er nú framar engin bølvan edur straff ad deya úngur, því Jesús hefur einninn heigad þann dauda med sínum dauda.

Nú, Jesús er daudur! og nú skulum vér til lykta af þessu hans sídasta ordi sem hinum ødrum, draga oss nockud til lærdóms og huggunar; en hvør kann í fáum ordum ad skýra þá huggun sem er í Jesú dauda? Annadhvørt skyldum vér uppreikna allar þær hugganir sem finnast í Guds ordi, því þær allar eru samankomnar í þessu eina ordi, Jesús er daudur; edur og þad er oss nógleg huggun ad segja, einasta í trúnni: Jesús er daudur; og hvílíkrar huggunar skyldum vér oss framar æskja? Hvør vill fordæma, Kristur er hér sem dáid hefur, segir Páls. Róm. 8. v. 34. Hans daudi er oss, sem Mósis stafur, er opnar

fyrir oss þad rauda haf, 2 Mós. b. 14. v. 21. ad vér kunnum djarflega ad gánga ígégnum allar hørmúngar. Hans daudi er sá Jacobs stigi, sem leidir oss til himins. 1 Mós. b. 28. v. 12. Ebr. 6. v. 19. Hans daudi er sem sjáfor grunnur í hvøru vor von varpar sínu atkéri, hann er daudi vors dauda, því daudinn er uppsvelgdur í sigur. 1 Cor. 15. v. 54. Hans daudi er ordinn Helvítis ólifjan, broddur i auga Andskotans, og hins Nýa = Testamentis innsigli. Í einu ordi ad segja: hann er vort æskilegasta athvarf, ef vér ad eins ysirvegum hann réttilega, og tileinkum oss hann med lifandi trú.

Vor helsti og stærsti lærdómur skal hérútaf vera, ad vér, ad Jesú eptirdæmi, sorgum fyrir vorri sál, vorum dýrmætasta fésjód; vel mætti sýnast ad Jesús hefdi minni orsøk haft ad sorga fyrir sálunni enn líkamanum, henni var alltíd borgid í hans Fødurs geymslu, líkaminn þarámót var eptir í óvina høndum; en vér heyrum nei, hann talar hér ei eitt ord um sinn líkama, þad má allt vera undir annara umsjón komid, hvørnin um hann fer, heldur einasta um sína sál, Fadir! í þínar hendur fel eg minn Anda. Gud gæsi vér vildum af Jesú dauda læra þetta hid eina naudsýnlega, ad bera því framar áhyggju fyrir vorri sálu, sem hún er líkamanum ypparlegri, og þá høfum vér vel lært;

hvað gagna oss allir veraldarinnar sálusorgarar, nema vér sjálfir viljum vera vorir eiginn sálusorgarar? Já, hvað gagnar oss Frelsari vorrar sálar, ef vér afrækjum hana með andvaraleysi? O! að menn þeinktu þartil, en þar er grátlegt til að vita, að menn leggja heldur allt kapp og áhuga á sérhvað annað enn þeirra egin sáluhjálp. Hvaða áhyggju høfum vér ei fyrir þessum auma orma-seck líkamanum, að fæða hann og prýða, samt af honum að metnast? en vor sála er alls-nakin og ber; þó meðkénnum vér, að vér høfum ypparlega sál, að það gagni eckért þó maðurinn vinni allann heiminn, en líði tjón á sálu sinni. Matth. 16. v. 26, en þarmeð er ogsvo búið, meira viljum vér ei til þess vinna. Þá nockur vill géfa að merkja, hvørsu heitt hann elski sinn vin, plagar hann að segja: eg elska þig, sem mína egin sál; en honum mætti svarast: ó nei! elska mig heldur sem þinn eginn líkama, því eg sje að fyrir honum bèrðu góða umønnun; gjørum vér ei minnst úr vorri dýrmætustu eign, sálinni? er ei svo, að hún søkum líkamans má hvervetna sitja í missirnum? O! að vér þá í dag látum oss það af Jesú dæmi sagt vera, að sorga fyrir sálum vorum, og það strax hér í lífinu, skuli það hjálpa oss í dauðanum; ef vér høfum ei áður fullvissu þarum með Jesú, að Guð sé vor Fadir, þá er eg hræddur um að vér høfum ecki hug til að segja með Jesú: Fadir! í

þínar hendur fel eg minn Anda; hitt er líkara, ad samvitskan muni spyrja: hvørt er þad víst, ad Gud vilji nú taka vid þér og kannast vid þig? og ad hann þá svara muni sem Jephta fordum Øldúngunum í Gilead: erud þér ecki þeir enir sømu, sem hafid útrekid mig af húsinu, og nú komid þér til mín, því ad þér erud í neyd staddir. Dóm. b. 11. v. 7. Lærum og af Jesú, ef vér erum trúadir, ad óttast ei fyrir daudanum, álítum hann heldur sem vorn besta vin, Jesús tók gladur ámóti honum, sem sínum Frelsara, er gódann enda gjørdi á hans pínu; enn sídur þurfum vér hann ad óttast, þar vér nú høfum Jesú dauda oss til huggunar.

Nú, Jesús er daudur! og vér, hvad skulum vér nú adhafast? Látum oss gjøra sem þeir trúadu, er stódu hjá hans krossi; þeir grétu, børdu sér á brjóst, og snéru heim aptur; Látum nú vorn Jesúm í fridi hvíla, gángi nú hvør einn heim til sín, og búumst vid vorum dauda í tíma; berjum oss á brjóst, ei med hendinni heldur samvitskunni, íhugandi, ad vér høfum og verid med ad leggja hendur á Jesúm, og grátum vorar syndir, sem hafa aflífad Drottinn dýrdarinnar; ei er þad nóg, ad vér medkénnum oss seka í Jesú dauda, nema vér og einninn snúum tilbaka, med ydran og yfirbót frá þeim syndum og gyrndum sem gjørt hafa oss

seka í hans blódi; svo þá vér fyrir krapt hans dauda erum daudir ordnir frá syndinni, vér þá mættum í krapti hans upprisu framgánga í nýu líferni.

Nú, Jesús er daudur! og hvør er þá skyldavor sem eptir lifum? Hún er í stuttu máli, ad gángast fyrir hans greftran, og þad skulum vér nú, sem hans vinir, ei vanta láta vid vorn framlidna sæla Jesúm. Eg vil segja til ydar þad sem Abraham fordum sagdi til þeirra Hethita: 1 M. B. 23. v. 4. Kjæru vinir! gésid mér greftrunarstad, hjá ydur, svo eg megi greftra þar minn framlidinn sem liggur fyrir mínum augum; eg vona hér sé einginn, sem ei gjarnan vilji verda vid þessari bón minni, heldur ad hvøreinn muni svara mér med þeim Hethitum: Heyr oss hvad vér segjum, greftra þú þinn framlidna hér í einnri af vorum heidarlegustu grøfum, enginn af oss skal meina þér sína grøf, til ad leggja þinn framlidna þarí, 1 B. M. 23. v. 6. Vel sé því, ef þetta er ydar hrein alvara og fullkomid leyfi, og veit eg þá aungva betri grøf til, enn ydar hjørtu, þar vil eg djúpt nidursøkkva mínum Jesú. Ein Drottníng fordum, vissi aungva heidarlegri greftran ad veita sínum Kóngi enn í hennar eiginn líkama, því lét hún eptir þeirrar aldar plagsid brenna hans líkama í øsku, og blandadi øskunni í einn

drýck, sem hún síðan afdrack, en eg má með heilu og høldnu greftra minn Jesúm í ydar hjørtum, minn dauda Jesúm í ydar lifandi endurminníng. Látid hann þar hvíla, innsiglid grøfina, og látid aungvann stela honum burt þaðan, og nær Jesús hvílir í ydar hjørtum fyrir sameiníng hans pínu, hann þá og svo megi upprísa í ydar hjørtum, og gjøra ydur hluttakandi í krapti sinnar upprisu.

O Jesú! andláts ordid þitt, í mínu hjarta eg geymi, sé það og líka síðast mitt, nær sofna eg burt úr heimi. Amen.



